# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



**XXIV. ÁR**



WINNIPEG, MANITOBA

1943



# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

**XXIV. ÁRGANGUR**

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

Ársgjaldið er aðeins 1 dollar, og fá allir skuldlausir félagsmenn, er það borga, þetta tímarit ókeypis.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1942

**A. Heiðursfélagar**

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Árni Pálsson, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Watson Kirkconnell, McMasters University, Hamilton, Ont.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur, Elfros, Sask.
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Winnipeg, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona, Winnipeg
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Winnipeg
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, Ritst. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D. C.
Ásgeir Ásgeirsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ont.
J. J. Bíldfell, Winnipeg
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland

**B. Ævifélagar**

Árni Sigurðsson, Winnipeg — Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg

**C. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Einar Gunnlaugsson,
Stóra Sandfelli,
Skriðdal um Reyðarfj.

Dr. Ófeigur Ófeigsson
Reykjavík

Frú Margrét Guðmundsd.
Reykjavík

Sr. Friðr. Hallgrímsson,
Dómkirkjuprestur,
Reykjavík

Frú Halldóra Sigurjónsson,
Reykjavík

Sr. Benjam. Kristjánsson,
Syðra Laugalandi,
Eyjafjarðarsýslu.

Sr. Fr. A. Friðriksson,
Húsavík,
S.-Þingeyjarsýslu.

Ingibjörg Sveinsson,
Hjúkrunarkona,
Seyðisfirði, Ísland

Stefán Vagnsson,
Hjaltastöðum,
Skagafjarðarsýslu.

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson,
Stella Maris,
Rottingdean, Sussex

3. CANADA

**Alameda, Sask.**
Hjörtur Bergsteinsson

**Árnes, Man.**
Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Johnson
Jónas Ólafsson

**Baldur, Man.**
P. Christopherson
Ingi Helgason
J. K. Sigurðsson
Björgúlfur Sveinsson
Sigurður Antoníusson

**Benalto, Alta.**
Jóhann M. Hillman

**Borden, Sask.**
Dr. Jóhannes Pálsson

**Calgary, Alta.**
Jóhann Bjarnason
Sigurður Sigurðsson

**Camp Morton, Man.**
Þorsteinn Sveinsson

**Cranberry Lake, B. C.**
Jón Sigurðsson

**Campbell River, B. C.**
S. Guðmundsson

**Cypress River, Man.**
Jónas Anderson
Gísli Björnson
L. J. Hallgrímsson
J. A. Walterson

**Elfros, Sask**
J. S. Árnason
Mrs. J. M. Bjarnason
Jón Jóhannesson

**Fawcett, Alta.**
Guðmundur Björnsson

**Flin Flon, Man.**
Ármann Björnsson

**Galt, Ont.**
Mrs. S. J. Magnússon

**Gimli, Man.**
Mrs. Christiana O. L. Chiswell
Friðfinnur Einarsson
Guðmundur Fjeldsted
Freeman Freemansson
Grímur S. Grímsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
J. B. Johnson
Baldur M. Jónasson
Ól. N. Kárdal
Lestrarfél. "Gimli"
Magnús Sigurðsson frá Storð
Sigurður Sigurðsson
Thórður Thórðarson
Robert Tergesen

**Glenboro, Man.**
Páll A. Anderson
Mrs. P. A. Anderson
Sr. Egill H. Fáfnis
Jón Goodman
F. Friðriksson
Jón Helgason
Mrs. Kristj. Jóhannsson
Hans Jónsson
A. E. Johnson
G. S. Johnson
Mrs. O. S. Josephson
Guðm. Lambertsen
G. J. Oleson

**Hayland, Man.**
Mrs. Stefanía Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson

**Hamilton, Ont.**
Einar I. Svanbergson

**Hecla, Man.**
Þorsteinn Jens Pálsson

**Hnausa, Man.**
Daniel Halldórsson
Gunnar Helgason
Hildibrandur J. Hildibrandsson
Jón B. Snæfeld
V. G. Stadfeld
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Holland, Man.**
Mrs. Guðlaug S. Frederickson

**Hodgson, Man.**
Rögnvaldur S. Vídal

**Húsavík, Man.**
V. B. Arason

**Keewatin, Ont.**
Jón Pálmason
Mrs. Sig. Sigurðsson
Bjarni Sveinsson

**Lundar, Man.**
Sr. Guðm. Árnason
Sigurður Baldvinsson
Jón Einarsson
Vigfús Guttormsson
Ed. Hallsson
Jón Kristjánsson
Ágúst Magnússon
Mrs. Ásta Sigurðsson
Grímúlfur Sigurðsson

**Markerville, Alta.**
Mrs. Rósa S. Benediktson

**Minnedosa, Man.**
Dr. E. J. Skafel

**Norwood, Man.**
Magnús Peterson

**Osland, B. C.**
Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak Point, Man.**
Jón Finnsson

**Oak View, Man.**
Mrs. Jóhannes Johnson
Sigurður Sigfússon

**Otto, Man.**
Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**
S. S. Anderson
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Albert Thorvaldson

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson

**Reykjavík, Man.**
Mrs. I. Gíslason

**Saskatoon, Sask.**
Anna Matthíasson
Skúli Sigurgeirsson
Próf. T. Thorvaldson,

**Siglunes, Man.**
Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman

**Sexsmith, Alta.**
Jón Einarsson

**Silver Bay, Man.**
Jón Björnsson

**Smeaton, Sask.**
E. E. Vatnsdal

**Steep Rock, Man.**
Th. Gíslason
F. E. Snædal

**Stettler, Alta.**
M. Steinsson

**Swan River, Man.**
Thórdís Samson

**Toronto, Ont.**
J. Ragnar Johnson

**Transcona, Man.**
P. S. Pétursson

**Vancouver, B. C.**
Mrs. Matth. Friðriksson
Carl Friðriksson
Ben. B. Bjarnason
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Kristjana T. Anderson

**Victoria, B. C.**
Christian Sivertz

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Lestrarfél. "Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson
Páll Jónsson
Asgar Sveistrup

**White Rock, B. C.**
Th. G. Ísdal

**Wilkie, Sask.**
Miss Dóra Davidson

**Winnipeg, Man.**
Dr. Ág. Blöndal
Miss Sæunn Bjarnason
Mrs. Jónína Christie
Sr. V. J. Eylands
Mrs. Jósephina Jóhannsson
Dr. M. B. Halldórson

Halldór Johnson
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Björn Líndal
Magnús Markússon
Sigurður W. Melsted
Dr. B. H. Olson
Jón Sigurðsson
Mrs. Stefanía Sigurðsson
Mrs. J. B. Skaptason
Dr. Eggert Steinþórsson
Frú Gerður Steinþórsson
Halldór M. Swan
G. S. Thorvaldson, K.C.

4. BANDARÍKIN

**Allston, Mass.**
Kormákur Ásgeirsson

**Arlington, Va.**
Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson
Johns Hopkins University Library

**Bayside, N Y.**
E. B. Johnson

**Bellingham, Wash.**
E. M. Einarsson

**Berkeley, Calif.**
Próf. Sturla Einarsson
Steindór G. Guðmunds
Mrs. Thordís Guðmunds
Rev. S. O. Thorlákson

**Blaine, Wash.**
J. J. Bartel
Thórir Björnsson
Andrew Danielsson
Sr. Albert E. Kristjánsson
Sr. H. E. Johnson
Mrs. Kristín F. Líndal
A. G. Breiðfjörð

**Boston, Mass.**
Kapt. Gunnlaugur Illugason
Kapt. Grímur Hákonarson
Theódór Jónsson
Sigtryggur Ólafsson
Gunnlaugur Jónsson
Cr. A. Guðjohnsen
Adolf Petersen
Ágúst Guðmundsson
Björn D. K. Haralz
Jónas Hallgrímsson

Norman B. Johnson
Pálmi M. Sigurðsson

**Bottineau, N. Dak.**
Ásmundur Benson
Óskar B. Benson

**Buena Park, Calif.**
Mrs. J. Gillis

**Chicago, Ill**
Árni Helgason
C. H. Thórðarson, Ph.D.

**Charlottesville, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Detroit, Mich.**
Hon. Frederick H. Fljózdal

**Duluth, Minn.**
Chris Johnson

**Everett, Mass.**
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson

**Fargo, N. Dak.**
Próf. F. W. Thordarson

# Hinn Lang Útbreiddasti Málvarningur

**Hvað LIONOIL gerir**

Berry Brothers Lionoil ver við fyrir vatni og fúa—fyrirbyggir ryð—eykur endingu og gljáa málaðs flatarmáls—er bókstaflega brúklegt til fjölda' hluta.




**Hvar LIONOIL má brúka**

Málarameistarar hafa notað Berry Brothers Lionoil svo árum skiftir, hreina eða til blöndunar. Ef þér hafið aldrei reynt Lionoil, þá borgar það sig að kynnast henni.




**GLIDDEN TITAN-O-ZINK QUICK DRYING ENAMEL**

Sérstakt Gljámál fyrir málarameistara búið til úr hinum undraverðu Titan-O-Lith litum — sérstaklega ætlað vönum málurum. — Þornar á 4 til 6 klukkutímum. Breiðist út og þekur yfirborðið undra vel. Er hreinlegt, tekur þvotti og kastar vel frá sér birtu.

## MURPHY'S UNIVERNISH

Eina lakkið sem nota má á alla hluti utan og innanhúss; á framhurðir, báta, bíla, gluggasillur, þvottastofur, gólf, útistóla, borð og þesshátar. Safnar engu ryki, þornar á 2—3 kl.tímum. Sem yfirmál þornar það á 24—36 kl.tímum og strjúka má yfir það eftir 36—48 kl.tíma.

Gallonið hylur 750—900 ferfet. **Ekki má bera það ofan á Shellac.** Ágætt á gólfdúka.

**Hið allra besta á kirkjubekki.**




**Enginn hlutur er til sem ekki má búa til lakari og selja ódýrara verði.**

SVO ER MEÐ GOTT MÁL

# THE WESTERN PAINT CO. LTD.

"The Painter's Supply House"

**121 Charlotte Street :: :: Winnipeg, Manitoba**

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grafton, N. Dak.**
Mrs. S. Eastman

**Great Falls, Mont.**
Mrs. Rannveig Schmidt

**Grand Forks, N. Dak.**
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannsson
Árni Magnússon

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

**Medford, Mass.**
Kapt. Axel Jóhannsson

**Lislie, Ill.**
Rev. Guðm. Guðmundsson

**Minneapolis, Minn.**
Þórhallur Ásgeirsson
Gunnar B. Björnsson
Hjálmar Björnsson
Björn G. Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Sr. David Gulbrandson
Sr. Theo. B. Sigurðsson

**Minneota, Minn.**
María G. Árnason
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
Bjarni Jones
Guðjón Williamson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Libr.

**New Ulm, Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York City, N. Y.**
Agnar Kl. Jónsson
Helgi P. Briem
E. Grettir Eggertson
Guðmundur Kristjánsson

**Oak Terrace, Minn.**
Miss Hermanía Björnsson

**Palo Alto, Calif.**
Próf. L. L. Bjarnason

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall

**Pt. Roberts, Wash.**
Lestrarfél. "Hafstjarnan"
Árni S. Mýrdal

**Portland, Ore.**
Guðm. Thorsteinsson

**Poulsbo, Wash.**
Mrs. H. F. Kyle

**Rugby, N. Dak.**
Dr. A. G. Johnson

**Sacramento, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Seattle, Wash.**
Sveinn Árnason
Mrs. Margrét J. Benedictsson
B. J. Einarsson
Mrs. Helga K. Sumarliðason

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



TUTTUGASTI OG FJÓRÐI ÁRGANGUR, 1942

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1943

# EFNISYFIRLIT

# Lofsæla ljóðsins

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson

Ef æskunnar guðirnir grána
og gyllingin hverfur af mána
og traustið er þrotið og tæki þitt brotið
en tómhljóð um lendur og höf—
þú Iðun og Braga skalt blóta,
það bjargráð þér undan mun skjóta,
þótt alheimur sýnist þeim anda sem pínist
sem opin og koldimm gröf.

Ef andlega ertu að þorna
sem egyptska múmían forna,
og hæðir þig framtíð en hlær að þér samtíð
og heimurinn upp á sig snýr,
þá lestu þér ljóð til bóta,
sem lífsins þér kennir að njóta,
því ljóðið þér sýnir, að ljósin þér skína
ef lífinu sjálfur ert hlýr.

Það alheim í orðtóna vefur
og efninu sálina gefur,
uns náttúran bærist við brjóst þess og nærist
við líf þess—í ljóðstuðla hjörð.
Það hljóðfall er lífsins í hending,
og huga þíns seinasta lending
og listfegurð mesta og listveröld besta
og listmæti fyrsta á jörð.

Sem vaxið það meyrt er að mynda
og marmara fastara að binda,
og ljósmyndin besta og málverkið mesta
frá völundi vélar og manns.
Það beittara er hverjum brandi
en blítt eins og vorsins andi,
sem strengur það titrar, sem gimsteinn það glitrar,
það lífsanda dregur hvers lands.

Og aldrei var ljúfara ljóðið
né léttara og frjálsara hljóðið
en nú, þegar óttinn og óvætta nóttin
með annars heims vofunum flýr.
Er hugur manns heimana alla
sér hræðslulaust án þess að falla,
og finnur sig sjálfan ei framandi og hálfan
en fagurt og skapandi dýr.

Þótt lífinu blæði og blæði
og byljirnir fast um það næði,
er allur þess hlátur svo heillandi kátur
og hrifning þess eilífð af sól.
Þess ást er svo örlát og fögur
sem ævintýr barnanna og sögur,
er báru það háa í bæinn þinn lága
og bygðu í skammdegi jól.

Þótt fákænir heldur við fæðumst,
og fæstir að mannviti glæðumst,
og komumst ei hærra og hugsum ei stærra
en krökkunum var okkur kent—
samt ljóðið, sem listina geymir,
er lífið, sem sannast oss dreymir.
Það leiðir oss hærra til lífs, sem er stærra
en öll okkar "útlærða" ment.

Það ljóð svífur lýðmenning ofar
og lengra en þekkingin rofar,
og leitar æ hærra og lifir æ stærra—
því ljóðið, er lífið sjálft
í heilögum hátíða búning—
í hraðari sveiflum og snúning
en vafstrið og stritið fær líf okkar litið,
sem lítur það minna en hálft.

Svo frjálst eins og víðbláins veldi
og varminn af fagrahvels eldi,
er ljóðið vort besta, sem list geymir mesta,
því alt er hið lifandi ljóð.
Það ekkert vald dregur í dróma.
Það drotnar í aldanna ljóma.
Í hjörtum það geymist þótt höfundur gleymist
og tunga þess týnst hafi þjóð.

Svo traustlega hugsun það tengir
í töfrahring rímsins, að engir
hann brjóta í sundur, né orðhegis undur,
sem demantsins festu er fest.
Það eignin er allra og gróði
með áfengi í hverju hljóði.
Það skýrir þau málin, sem skilur ei sálin,
og ráðgátur ræður það best.

Hvert almyndað ljóðstef er andi,
og eilíft og sígilt því landi,
sem fjötraði bál þess í myrkvuðu máli
og tungunnar tornæmi í,
uns álög þess óðsmiður leysti
og upp það frá myrknætti reisti
af skapandi mætti í hrynjandi hætti
uns hugsun þess myndaðist ný.

Sem Þórduna ægilegt er það.
Sem ásthvísl um vísurnar fer það.
Sem ungjurt það beygist, sem eik það ei sveigist.
Það umvefur úthöf sem lind.
Og blæskiftum hugar og hjarta
sem heiðnótt um Jónsmessu bjarta,
það lýsir í orðum, sem eru í þeim skorðum,
þau átt gætu ei aðra mynd.

Í töfrum og sálmum og seiðum
það svífur á vængjunum breiðum
um eilífðir vega—það óendanlega
og ósegjanlega er skýrt.
Það trúna í himindýrð hefur,
og hásætið ástinni gefur.
Það kveður á sköpin. Það kveður burt glöpin.
Það raular við rugguna hýrt.

Það kvað burtu útlendan anda,
sem ætlaði málinu að granda.—
Sú listin var eina—sú háa og hreina,
sem heimslistum aljafnast mót.
Það opnaði himnana háu
mót hreysunum torfþaksins lágu
og hóf upp vorn anda til heiðríkra landa,
er heima bjó kuldi og sót.

Ef teigarðu af ljóðelfar lindum
og lifir þeim blæríku myndum,
sem verma og græða og vetrarauðn klæða
í voraldar blómskrúðið sitt,
þá munarhöll meistarans Braga,
er morgun hvern sköpunarsaga,
hver sólríkur dagur er sjónleikur fagur
og sönghöllin æskuland þitt.

# Árni Eggertson

Eftir Jón J. Bíldfell



Það er sagt, að Oliver Cromwell hafi einu sinni farið til manns, sem málaði andlitsmyndir og beðið hann að mála mynd af sér. "En," sagði hann, "ef þér breytið einum einasta andlitsdrætti, þá borga eg þér ekki einn einasta penny, fyrir hana." Eg þarf ekki að spyrja að, hvað fyrir mundi koma, ef þessari aðferð, væri alment fylgt, þegar við erum að tala um samferðamenn vora, eða minnast þeirra úr hópi vorum, sem gengið hafa til hinnar hinstu hvíldar. En þó er svo fyrir þakkandi, að það eru til lífsferlar manna, sem þola birtu hins bjartasta dags, og á meðal þeirra er hinn látni vinur minn.

Dagur er að kveldi komin. Eg sit við skrifborð mitt. Alt umhverfis mig, er rólegt og hljótt og hugur minn ótruflaður dvelur hjá þér, Árni, og myndir og minningar frá langri liðinni ævi, líða um hann, eins og þýður vorblær í íslenskum gróanda.

Ein af myndunum, sem eg geymi af þér, er fjörutíu og sex ára gömul. Þú vanst á Clarendon gistihúsinu hér í bænum, seytján ára gamall unglingur, lífsglaður, bjartsýnn og geðþekkur.

Eg, sem ekki hafði átt heima í Winnipeg, var kallaður til þess að annast systur mína unga, er dauðinn hafði sett fangamark sitt á, og tók eftir all hart stríð, og varð þetta rauna atvik til þess, að við hittumst og kyntumst, og hélst sá kunningsskapur þar til dauði þinn sleit hann.



Eg veit ekki með neinni vissu hvað það var, sem dró okkur saman og batt okkur böndum kunningsskapar og vináttu, nema ef vera skyldi það, að við vorum báðir óánægðir, þó hvor upp á sinn máta. Eg út af því, að hafa nokkurntíma af Íslandi farið en hann sökum þess, að honum fanst þá svo lítil tök á, að koma ár sinni svo fyrir borð í þessu nýja landi, sem honum líkaði.

Árni var ekki hversdags maður að gerð og upplagi. Honum nægði ekki, þó að hann hefði viðunanlega stöðu, miðað við aldur og tækifæri, sem nýkomnir Íslendingar áttu þá að venjast. Hann þráði þá strax, ekki aðeins að geta sótt fram, heldur líka upp, en brautir Íslendinga til vegs og virðingar í kjörlandi þeirra voru

þá ekki eins auðsóttar og þær síðar urðu. Ókunnugir, rótlausir og lítilsvirtir voru þeir hér á fyrstu frumbýlingsárunum; og það var Árni líka. Ekki veit eg hversu margir það eru nú, sem til fulls geta gjört sér grein fyrir, hve kaldri og nístandi fyrirlitning, að fyrstu innflytjendurnir íslensku áttu að mæta hjá þeim, sem landið þóttust eiga. Og marga landa mína býst eg við, að hún hafi beygt og bugað, en hún hleypti öðrum í bál og þeirra á meðal var Árni Eggertson. Náttúrlega fann hann til, eins og svo margir aðrir, en þegar í æsku var skilningur hans svo skýr, að hann sá að undan mátti ekki slá. Ættarmetnaðurinn logaði upp í honum, viljinn svall í huga hans og hjarta, og áræðið reis hærra en mótgangs öldurnar, af hvaða tæi sem þær voru.

Af þessu, sem nú hefir verið sagt, má sjá, að Árni Eggertson var vel undir lífið búinn af náttúrunnar hendi, einkanlega undir það líf, sem var í fullu samræmi við hinn raunverulega grundvöll lífs hans, ef hann hefði fengið að byggja og búa á honum. En máttarviðir lífs hans voru ófúnir og heilir, hér í landi, eins og þeir hefðu áreiðanlega reynst, hefði hann mátt á þeim byggja á ættlandi sínu.

Það er ekki auðvelt verk að rita æviminningu Árna Eggertsonar svo vel sé. Það er ekkert áhlaupa verk að rita æviminningu neins af hinum eldri Íslendingum, sem borið hafa hita og þunga dagsins hér upp í hálfa öld. Eg sé hann, og þá alla, lenda hér, mállausa, félausa og fákunnandi—á þessa lands vísu—með ekkert meðferðis nema vonina, viljann og þrek hins íslenska manns. Landið brosti við honum og þeim, og bauð þeim að ausa að vild úr nægtabúri sínu, en leiðin þangað lá eftir dal einstæðingsskaparins, um skóga þekkingarleysisins, upp hlíðar andúðarinnar og yfir fjöll fyrirlitninganna.

Allir þessir áfangar eru nú að baki hinna eldri Íslendinga í álfu þessari, og þó dvöl þeirra geti ekki kallast löng miðað við feril þjóðanna, þá hafa breytingarnar orðið geysi miklar og mikils virði. Dapurleiki einstæðings kendarinnar fyrnist nú óðum. Verklega vanþekkingin er horfin, andúðin snúin í velvild og fyrirlitningin í traust og viðurkenning á menningarlegu ágæti Íslendinga. Þessi mikli og glæsilegi sigur, er að sjálfsögðu einkis eins manns verk, en fáir eru þeir, sem eiga ákveðnari og einlægari þátt í honum en Árni Eggertson. Eitt var það öðru fremur sem vakti fyrir Árna Eggertsyni þegar í byrjun, er hann hóf göngu sína í þessu landi, en það var þörf hans, og Íslendinga yfir höfuð, á mentunarlegum þroska, því honum var það ljóst, að ef mentunin sjálf er ekki afl, þá er hún aflvaki, sem Íslendingar þurftu þá og þurfa nú svo mjög á að halda, til að spyrna á móti broddunum, en einkum þó á fyrstu árum Íslendinga í Ameríku, til þess að læra málið lýtalaust, sem hann fann, að hvorki hann né aðrir gætu gjört án hennar, og skildi einnig, að það var ein aðal máttartaugin í framsókninni í landinu nýja. Og með það fyrir augum tók Árni að lesa undir skóla í félagi með þeim, er þessar línur ritar, og var öllum frístundum okkar varið

til þess starfa í heilan vetur í litlu herbergi, er Árni átti heima í á Ross stræti, hér í borg.

Ekki varð nú samt mikið úr þessu mentaáformi Árna. Hann skrifar mér árið 1892 og segist vera hættur við mentaskólanám, en ætli í þess stað, að lesa verslunarfræði og gifta sig. Ekki finst mér nein ástæða til þess, að setja hér á pappírinn það sem mér varð að orði, er eg las um þessa ákvörðun Árna í bréfi hans, og þó eg segði honum frá, hvað mér fyndist um þessa ráðabreyting hans, þá hafði það ekki hin minstu áhrif. Hann hafði ráðið við sig, hvað gjöra skyldi, og svo var útgjört um það mál, frá hans hendi; hvað svo sem eg eða aðrir héldu eða sögðu um það. En Árni var lánsmaður eða dómgreindar maður, hvort sem menn vilja heldur vera láta, því sjaldan eða aldrei, steig hann happasælla spor í lífi sínu en þegar að hann fastnaði sér Oddnýju Jakobsdóttur, því hún var ekki aðeins glæsileg að vallarsýn, heldur átti hún sér fáa líka að staðfestu, höfðingskap og góðvild. Hún var ættuð úr Þingeyjarsýslu— frá Rauf á Tjörnesi, og fluttist vestur um haf með foreldrum sínum, Jakobi Oddssyni og Sigurbjörgu Jónsdóttur, árið 1884. Bjuggu þau hjón lengi hér vestra, að Lundi, tvær mílur fyrir norðan Gimli.

Þau Árni og Oddný giftust árið 1895 og reistu bú á aðalstræti Íslendinga í Winnipeg í þá daga, Ross stræti, og bjuggu þar í vegsemd og velgengni í 2 ár. En þá kom nokkuð fyrir, sem greip inn í hugi og líf ungra , hraustra og framgjarnra manna um þvera og endilanga vesturálfuna. Það var gullfundurinn í Yukon héraðinu. Og þótt leiðin þangað væri löng og erfið og lægi um fjöll og firnindi en eftirtekjurnar mjög svo óvissar og förin í alla staði mesta glæfraför, þá urðu margir ævintýramenn til þess að leggja þar á tæpasta vaðið. Þessi alda og útþrá snart Árna Eggertson. Hann ákvað að fara til Klondyke, eins og sú ferð var vanalega nefnd, brá búi og seldi búslóð sína, en rétt áður en hann átti að leggja á stað í þá ferð, kom eitthvað það fyrir, sem setti hann til baka svo hann fór aldrei, þó síst skorti hann áhugann eða áræðið.

Þegar útséð var um Klondyke-ferð Árna, stofnaði hann og Oddný aftur til heimilis á Ross stræti, þar sem samfarir þeirra blessuðust og blómguðust í mörg ár.

Um þessar mundir kvað ekki neitt sérlega mikið að Árna. Hann var önnum kafinn við að hafa ofan af fyrir sér og sínum, eins og flestir eða allir Íslendingar í Ameríku, voru á þeim árum. En hann var snemma einarður í tali sínu og óhikandi í ákvörðunum.

Fyrsta verk sem Árni tók að sér, eftir að hann hætti að vinna við Clarendon gistihúsið, var umboð fyrir De Laval skilvindu-félagið hér í borg. Ferðaðist hann í þarfir þess félags um flestar íslensku bygðirnar sem þá voru myndaðar og varð allmikið ágengt, því hann var ötull og ósérhlífinn að hverju sem hann gekk. Í sambandi við þau ferðalög ritaði Árni fjöruga ferðasögu um það, sem fyrir hann bar, þó einkum um bygðirnar íslensku.

Ekki virtist Árni til lengdar ánægður með þessa stöðu sína, þó að hann fénaðist sæmilega á henni, en

ekki veit eg hvort þar lá til grundvallar óhugur á umboðssölu eða uppihaldslaus ferðalög eða hvorutveggja, því eftir tiltölulega stuttan tíma sagði hann henni lausri og gekk í þjónustu manns hér í borginni sem verslaði með veggfóður, veggjapappír og húsamál, sem bókhaldari og þeirri stöðu hélt hann fram að aldamótum, en þá sagði hann henni lausri til þess að byrja á fasteignaverslun fyrir sjálfan sig.

Aðstaða og útlit með fasteignaverslun og fasteignaverð á þessum slóðum, þegar Árni lagði út á þá braut, var alt annað en glæsileg. Fasteignir allar voru nálega verðlausar. Óræktaðar bújarðir og húslausar bæjarlóðir voru byrðar, sem eigendurnir skjögruðu undir og vildu fyrir hvern mun losna við fyrir eitthvað eða þá ekkert, ef einhver vildi taka að sér að borga skatt á þeim, og sæmileg hús í miðbiki Winnipeg-borgar seldust fyrir frá $5—600.00 þegar eða ef hægt var, að finna kaupanda.

Eg get ekki með neinni vissu sagt, hvað það var, sem kom Árna til þess, að kasta frá sér þægilegri og sæmilega vel launaðri stöðu fyrir vonina í fasteigna auðn þeirri og eyðimörk, sem við honum blasti. Að vísu hefir hann hlotið að sjá sléttunar frjóu, og víðáttumiklu, sem ríkan ávöxt gáfu hvar sem þeim var sómi sýndur. Að þær væru líklegar að draga til sín áræðið og áhugasamt fólk, og að með fólkinu kæmi verslunarfjörið, en það hygg eg þó að hafi ekki verið aðal ástæðan. Árna hefir þótt of þröngt um sig í skrifstofunni hjá John Leckie, en svo hét maðurinn, sem hann vann fyrir. Hann þurfti meira rúm, meira frjálsræði, stærri viðfangsefni og þá var ekki hægt að velja sér víðtækara starfsvið en fasteignaverslunina, því henni eru engin takmörk sett.

Svo er enn eitt. Árni var alla sína æfi sérstakur lánsmaður, sem er nokkurn veginn það sama og segja, að hann hafi haft heilbrigða dómgreind, glöggan skilning á orsök og afleiðing og skýra sjón á því, sem fram var að fara í kring um hann, og líka á því, hvernig að hlutirnir mundu ráðast í framtíðinni. Lánið var ekki utanað komandi hjá Árna, það bjó í honum sjálfum — í hæfileikum hans, hvernig að hann notfærði sér þá, í lífsskoðunum hans og hvernig að hann fylgdi þeim fram. Og lánið brást honum heldur ekki að þessu sinni, því eftir aldamótin breyttist alt viðhorf hér í Manitoba og Canada, að því er fasteignaverð og fasteignaverslun snerti. Fólkið tók að streyma til Canada frá öllum heimins löndum, en þó einkum frá Bandaríkjunum og með því kom nýtt líf, nýtt fjör og nýr þróttur, ekki aðeins á sviði fasteignanna, heldur og í öllum verslunar og verklegum framförum og framkvæmdum. Tækifærin flugu upp í fangið á öllum stórhuga mönnum og Árni var ekki lengi að varpa sér út í strauminn, og það var honum ósegjanlega mikil nautn, að finna vaxandi þunga hans leika um sig og sýna hvað hann gæti gert með kröftunum ungu.

Það var sérstaklega tvent, sem vakti fyrir Árna á þessum árum. Fyrst: að verða efnalega sjálfstæður og tókst honum það, eftir því að dæma sem Þorsteinn kandidat frá

Bæ, frændi hans, segir í grein sem hann ritaði um Árna í Óðinn 1912, að hann sé þá ríkastur Íslendinga hér vestra að einum undanteknum, og teljist þá auður hans víst í miljónum króna. Hér kennir hinnar sömu auðsaðdáunar og ólgað hefir í lífi manna og þjóða á undanförnum árum og öldum, þar til að nú upp í langa tíð, að auðurinn hefir verið talinn höfuðkostur þeirra. En þó auðurinn sé eftirsóknarverður og mikils virði, þá getur hann aldrei orðið talinn æðsta hugsjón í lífi nokkurs manns, og hann var það heldur ekki í lífi Árna Eggertsonar. Hið annað er vakti fyrir Árna, var að láta til sín taka svo, að menn hér, þar sem braut hans lá, yrðu varir við hann og vissu að hann væri til — ekki sem útlendingur í einhverju skúmaskoti, sem þyrði ekki upp á neinn að líta, heldur sem Íslendingur og jafnoki hvers eins, sem hann mætti á starfsviði lífsins og þess reiðubúinn að þreyta átök við hann á hverjum vettvangi sem var, á grundvelli íslensks drengskapar. Þannig starfaði Árni alla sína starfstíð, og þannig kynti hann sjálfan sig og þjóð sína meðborgurum sínum.

Í íslenskum félagsmálum tók Árni mikinn þátt, því hann var fyrst og síðast Íslendingur, og voru það einkum tvær deildir íslensku málanna, sem hann lét sig mestu varða, en það voru kirkjumálin og þjóðræknismálin. Kirkjumálin voru aðal þungamiðja andlegs lífs á meðal Vestur-Íslendinga fyrst framan af. Þau tengdu Íslendingana og íslensku bygðirnar saman um menningarmál þjóðar sinnar, og þau færðu yl og afl inn í erfiðleika frumbýlings áranna, sem Íslendingar hefðu orðið að fara á mis við án þeirra. Þau voru andlegur og félagslegur bjargvættur nýbyggjanna íslensku í álfu þessari til þess að halda innflutta fólkinu dreifða, við föðurgarð sinn.

Árni hefði ekki getað, þó hann hefði viljað, haldið sig frá slíkum félagsskap; til þess var hann að minsta kosti of mikill Íslendingur, og hér var það eitt um að ræða, sem íslenskt var, og hann hafði drukkið inn í sig með móðurmjólkinni. Hann gjörðist því liðtækur starfsmaður kirkjumálanna og kom þar fram eins og annarstaðar, einarðlega, hreinskiftinn og hugum stór.

Hann var meðlimur Fyrsta lúterska safnaðarins í Winnipeg nálega alla sína tíð hér vestra. Gegndi margvíslegum trúnaðarstörfum innan safnaðarins og fór vel með og studdi söfnuðinn með raunsnarlegum fjárframlögum, því Árni var höfðinglyndur og ósínkur á fé.

Eftir fráfall presta höfðingjanna, þeirra séra Jóns Bjarnasonar og séra Friðriks Bergmanns, og aðskilnaðs kirkju, menta og þjóðræknismála vorra, gerðist Árni umsvifamikill á sviði þjóðræknismálanna og ágætur styrktarmaður Jóns Bjarnasonar skóla. Þessum tveimur stofnunum, sem áttu að vera, og að sumu leyti voru, varnarmúr menningarmála vor Íslendinga, unni Árni af heilum huga og hann barðist ötullega fyrir heill og viðgangi Jóns Bjarnasonar skóla og tók allnærri sér, þegar sú stofnun varð að leggja árar í bát, eftir að hann hafði starfað að framþróun hennar í meira en tuttugu ár.

Í Þjóðræknisfélaginu var Árni traustur verkmaður sem annarstaðar,

lét sér hugar haldið um velferð þess máls á allan hátt og hafði þýðingarmikið embætti á hendi í því uppihaldslaust í um eða yfir seytján ár, enda einn af stofnendum þess. En það var ekki aðeins á hinum vestræna vettvang, að Árni lét sig þjóðræknismálin varða, því hann fylgdist með öllum meiriháttar hreyfingum, sem gjörðust í hans tíð á ættlandinu og unni af heilhug allri velgengni og vegsemd þjóðar sinnar. Hann var staddur heima á Íslandi þegar ákveðinn undirbúningur undir stofnun Eimskipafélagsins íslenska var hafinn og því einna fyrstur, eða fyrstur Vestmanna til að taka verulegan þátt í stofnun þess þjóðþrifa fyrirtækis þar heima og hvetja menn, þegar hann kom vestur, til að styrkja félagið drengilega. Sæti í stjórn þess félags átti hann stöðugt, frá því að sæti í stjórnarnefnd félagsins var löghelgað Vestur-Íslendingum og til dauðadags, og bar sóma þess og hag ávalt fyrir brjósti. Þessi umönnun og starf Árna í þarfir Eimskipafélagsins var viðurkend af stjórn Eimskipafélagsins með því að bjóða honum og núlifandi konu hans, Þórey Jónsdóttur, til Íslands á tuttugu og fimm ára afmæli félagsins, þeim að kostnaðarlausu, og gátu þau bæði notið þess höfðinglega boðs.

Árni var kosinn í stjórnarnefnd Eimskipafélags Íslands, fyrir hönd Vestur Íslendinga árið 1916, sá fyrsti úr þeirra hópi, sem í stjórn þeirri átti sæti og í henni sat hann, endurkosinn, frá einu kjörtímabili til annars til dauðadags. Hann fór fyrst til Íslands árið 1917 í embættis erindum félagsins, og sat ársfund þess í Reykjavík. Ferð sú austur yfir Atlantshaf var alt annað en hættulaus, því Bandaríkin voru þá nýkomin í heimsstríðið fyrra, og kafbátarnir þýsku voru þá í veldi sínu og spiltu og eyðilögðu sjóleiðir manna. En Árni lét sig samt hafa það, að sækja Eimskipafélags fundinn þrátt fyrir hættuna, sem honum og öllum öðrum var auðsæ.

Að þessum Eimskipafélags fundi loknum fór stjórn Íslands þess á leit við Árna, að hann tæki að sér vandasamt, en þýðingarmikið starf, fyrir hönd stjórnarinnar og hinnar íslensku þjóðar, en það var verslunarráðanautsstörf í Bandaríkjunum.

Ástæðan fyrir því, að þetta samband var óumflýjanlegt var sú, að Evrópu markaðurinn, sem áður en stríðið skall á, fullnægði þörfum Íslendinga, hefði hann haldist opinn, en stríðið lokaði honum. Þá urðu Íslendingar að snúa sér verslunarlega til Bandaríkjanna, og fengu þar nauðsynjavörur sínar fyrirhafnarlítið og frekar greiðlega, uns að Bandaríkin lentu sjálf inn í stríðið, en þá þrengdist um vörukaupin þar, og í sumum tilfellum var vörukaup og vöru útflutningur frá Bandaríkjunum bönnuð með öllu. Árna verk var því að halda vörukaupaleiðum Íslendinga innan Bandaríkjanna opnum, sjá um að vörurnar kæmust til hafna í tíma og að fá útflutningsleyfi fyrir þær. Ekkert smáræðis verk. En Árni tók það að sér og leysti það af hendi, með sömu fyrirhyggjunni og framtaksseminni og hann leysti öll önnur verk sín, sér til sóma og þjóð sinni, hinni íslensku þjóð og stjórn, til heilla og hagsmuna. Árni kom heim til Win-

nipeg úr þessari Íslandsferð sinni að áliðnu sumri, 22. ágúst 1917. Var honum haldið samsæti á Royal Alexandra Hotel hér í borg — rétt áður en hann lagði af stað til New York að gegna hinni nýju stöðu sinni — og þar fært ritað ávarp sem þetta stendur í:

"Það er sannarlega ágætt fordæmi sem þú hefir gefið með þessari breytni þinni, að starfa að velferð og viðreisn þjóðar sinnar öldungis ósérplægnislaust, af brennheitum áhuga um að verða henni að liði, og vera fús til að fórna fé og fjöri þegar á liggur, er göfugt merki einlægrar þjóðrækni. Áhrifin vitum vér að öll hafa verið til þess að efla heill félagsins (Eimskipafélagsins) og styðja samvinnu Austur- og Vestur-Íslendinga.

Fyrir alt þetta finnum vér ástæðu til að tjá þér þakkir vorar og vér þorum að segja allra þjóðrækinna Vestur-Íslendinga.

F. J. Bergmann
B. L. Baldvinsson
J. J. Bíldfell
Rögnvaldur Pétursson
L. J. Hallgrímsson
Th. Borgfjörð
John J. Vopni
J. Stefánsson
H. A. Bergmann
M. Paulson
Á. P. Jóhannson
Björn B. Jónsson
Th. E. Thorsteinsson
H. Halldórsson
J. Jóhannesson
Ólafur S. Thorgeirsson

Ef að nauðsynlegt hefði verið, að staðfesta drengskaparlund Árna og hreinleik hans í orði og í verki, þá hefði yfirlýsing þess verið ómótmælanlegt vætti í þeim efnum. En hún sýnir einnig þá tiltrú og virðing, sem Árni naut á meðal landa sinna hér vestra — landa sinna hér, af öllum flokkum, sem var þó frekar sjaldgæft á þeim árum.

Árni tók þátt í undirbúningi undir heimför Vestur-Íslendinga á alþingishátíðina 1930 og gekk þar hart fram eins og annarstaðar. Hann var kjörinn (einn af þremur) til þess að mæta fyrir hönd Canada-stjórnar, eða réttara sagt þjóðarinnar í Canada á þeirri hátíð, sem er enn nýr og órækur vottur um traust það og virðingu sem Árni naut, ekki aðeins frá fólki sinnar eigin þjóðar, heldur líka frá fólki annara þjóða, búsettu hér í Canada. Fyrir þessa ósérplægnu starfsemi Árna í þarfir íslenskra mála og menningar hlaut hann, auk ánægjunnar sem það starf veitti honum, viðurkenning konungs og stjórnar Íslands, með því að honum var veittur riddarakross Fálkaorðunnar, orða alþingishátíðarinnar 1930 og stórriddarakross Fálkaorðunnar með stjörnu 1939.

En þó Árni ynni sér þannig tiltrú og virðing landa sinna beggja megin Atlantshafsins, fyrir framkomu sína og þátttöku í málum þeirra, þá var hann ekki ánægður með það, því hann vissi, að hvað áhrifamikil sem sú þátttaka var, þá gat hún aldrei kynt hann, land hans og þjóð, á starfsviðinu canadiska, eða ameríska, en það áleit hann og það hafa allir Vestur-Íslendingar álitið heilaga skyldu sína, frá því að þeir komu vestur. Árni varð því að sýna sig og láta til sín finna á starfsviðum

hér, og það gjörði hann ósleitulega með þátttöku sinni í opinberum málum og starfi sínu í velþektum félögum enskumælandi manna, — þar á meðal fasteignasölumannafélagi borgarinnar og fleiri, og var hann vel metinn og vel þektur í þeim öllum. Árið 1906 sótti hann um sæti í stjórn Winnipeg-borgar og var kosinn til tveggja ára, og þar sem kosningar þær fara ávalt fram í enda eða nálægt enda árs, náði kjörtímabil hans yfir árin 1907 og 1908, en þau ár bæði voru sérlega þýðingarmikil og örlagaþrungin, í sögu Winnipegbæjar. Rafveitumálið stóð þá sem hæst. Bæjarbúar voru orðnir dauðþreyttir á að borga afar verð fyrir ljós sín og hita til Winnipeg Electric félagsins og höfðu samþykt með atkvæðagreiðslu að bæjarstjórnin skyldi tafarlaust ráðast í að byggja sína eigin raforkustöð við Winnipeg-ána, þar sem bærinn hafði ráð á nógu vatnsafli. En til þess að saga þess máls og þátttaka Árna í málinu geti orðið skiljanleg, þarf eg að fara nokkrum orðum um fjárhagslegt ástand Winnipeg-borgar, eins og það þá var.

Peningaekla og bankahrun í sumum löndum hafði truflað öll peninga viðskifti, og bæjarfélög og jafnvel fylkisstjórnir hér í Canada áttu fult í fangi með að sjá málum sínum farborða fjárhagslega, og var Winnipeg ver stödd í þeim efnum en flestar aðrar borgir eða bæir í Canada. Bærinn skuldaði bönkunum $6,000,000.00 og bankarnir neituðu ekki aðeins að lána bænum meiri peninga, heldur kröfðust endurborgunar á meiriparti af allri skuldinni, sem bænum var þá ómögulegt að greiða; svo mörgum virtist, að framundan væri ekkert annað en gjaldþrot.

Þannig stóð á í Winnipeg þegar þjóðkunnur maður, verslunarskörungur, fjármálamaður og miljóna mæringur í tilbót, var fenginn til að taka að sér forystu bæjarmálanna og þannig stóð á líka, þegar skattgreiðendur Winnipeg-borgar gáfu bæjarstjórninni skýlausa skipan, með atkvæðagreiðslu, um að raforkuverið skyldi byggja tafarlaust. Á þessu máli klofnaði bæjarstjórnin og bæjarráðið (Board of Control). Annar parturinn, með Ashdown borgarstjóra í broddi fylkingar, neitaði að leggja út í kostnað slíkan, sem raforkuverið hlyti að hafa í för með sér, þar til að úr greiddist með fjárhag bæjarins.

Hinn hluti bæjarstjórnarinnar, með Árna Eggertson í broddi fylkingar (eftir því sem stórblaðið Free Press sagði, sem barðist af öllum kröftum sálar sinnar með stefnu Ashdown's) hélt fram, að samkvæmt fyrirskipan skattgreiðenda borgarinnar þá bæri bæjarstjórninni að byggja raforkuverið tafarlaust, og að það mundi aldrei verða Winnipegborg fjárhagsleg byrði, heldur hið gagnstæða.

Þrátt fyrir afstöðu borgarstjórans og fylgismanna hans var samþykt á bæjarstjórnarfundi 5. nóv. 1907 að byrja tafarlaust á að byggja raforkuverið.

Þessa samþykt ónýtti Ashdown borgarstjóri á næsta fundi bæjarráðsins með ítarlegri greinagerð fyrir sínum málstað. Árni Eggertson krefst á þeim sama fundi að borgarstjóri boðaði til almenns borgara-

fundar tafarlaust. Gerir uppástungu um það, og var hún samþykt.

Ekki varð nú samt af því, að sá borgarafundur yrði haldinn, að líkindum sökum þess, að bæjarstjórnarkosningar lágu þá fyrir hendi og þær auðvitað skáru úr um ágreiningsmálin í bili að minsta kosti. Og svo komu kosningarnar — þær minnisstæðustu bæjarstjórnarkosningar sem haldnar hafa verið í Winnipeg. Fylkingarnar sem stóðu að raforkumálinu sóttu hart fram og greiddu menn þar hver öðrum mörg högg og stór, og var Árni síst eftirbátur annara í því. Stórblaðið Free Press veitti Ashdown borgarstjóra og hans liði að málum og í sóknhitanum gaf það fylkingunum sem sóttust á nöfn. Það nefndi lið Ashdown's "Borgarana ábyggilegu", en hina Eyðsluseggina, og skoraði á bæjarbúa að kjósa aðeins Borgarana ábyggilegu, en kasta Eyðsluseggjunum út. Blaðinu fórust þannig orð:

"Þessir öldurmenn og bæjarráðsmenn eru reiðubúnir að steypa bænum út í alslags óhóf, án þess að taka nokkurn hlut til greina hvaða skaða þeir baka bænum og þjóðeigna hugsjóninni með því."

Við kosningarnar var Ashdown kosinn gagnsóknarlaust og flestir þeir sem sóttu undir hans merkjum til bæjarráðs og bæjarstjórnar.

Það var frekar hljótt um raforkumálið fram eftir árinu 1908. Árni Eggertson var formaður nefndar þeirrar er um málið sá, en seinni part ársins tilkynnir borgarstjóri Ashdown, að fjármál borgarinnar hafi lagast svo á árinu, að fært sé nú að byrja að vinna við raforkuverið.

Þannig var þetta þýðingarmikla mál til lykta leitt og sigurinn unninn. Í sambandi við þann sigur fórust öðru stórblaði hér í borg, Winnipeg Tribune, þannig orð: "Winnipegbúar eiga raforkuver sitt að mjög miklu leyti að þakka fyrirhyggju og framsóknaratorku Árna Eggertsonar, sem sá málinu farborða og stakk fyrstu pálstunguna þegar vinna var hafin við verið 1908."

Eg hefi ekki orðið svo langorður um þátttöku Árna í þessu máli sökum þess, að eg hafi tilhneigingu til að fegra þátttöku og framkomu hans í því um skör fram, heldur hefi eg viljað láta hann njóta sannmælis og viðurkenna, eins og vera ber, að framkoma hans í málinu var hrein og tilþrifamikil og að hann með henni vann sjálfum sér tiltrú, bæjarfélaginu og íbúum Manitoba-fylkis ómetanlegt og ógleymanlegt gagn og þjóð sinni sóma.

Árni Eggertson sótti aftur um sæti í stjórn Winnipegborgar árið 1908, en náði ekki kosningu. Var hann aftur kosinn í þá sömu stjórn árið 1917 gagnsóknarlaust.

Á hinum víðari vettvangi stjórnmálanna í Canada tók Árni allmikinn þátt og fylgdi þar hinni svonefndu frjálslyndu stefnu. Hann sótti tvisvar um sæti á þingi Manitoba-fylkis, en náði ekki kosningu, sem eg held að hafi verið lán hans. Ekki samt frá því sjónarmiði, að hann hafi ekki verið vel fær til slíks starfa, heldur sökum þess, að eg hygg að hann hafi ekki gert sér fulla grein fyrir, hvað hans hefði biðið, ef hann hefði á þing komist.

Flokkafyrirkomulagið, eins og það í raun og sannleika er í þessu landi, hefði áreiðanlega átt illa við Árna,

eða hann við það. Lund hans og skapferli var þannig, að hann hefði aldrei getað lagt sig undir flokks agann til lengdar. Sjálfstæðiskend hans og framsóknarþrá, hefði óefað brotið reglur undirgefnis ákvæða flokksforingjanna og þegar svo er komið, er úthýsing úr flokksskjólinu óumflýjanleg. Árni var aldrei sterkur flokksmaður — fylgdi frjálslynda flokknum að svo miklu leyti sem hugsjónir hans sjálfs og flokksins áttu samleið. Hefir máske litið á flokksfylgis farganið eins og það hefir verið notað hér í landi og víðar, líkt og Thomas Jefferson, þá er einn af vinum hans bar á hann, að hann væri að hneigjast á sveif Royalistanna. Þá sagði sá þjóðkunni maður: "Ef að eg get ekki komist inn í himnaríki án flokksfylkis, þá ætla eg mér aldrei þangað að koma."

Það var sagt hér að framan, að þau Árni Eggertson og Oddný Jakobsdóttir hefðu reist heimili sitt við aðalgötu, eða aðalstræti Íslendinga hér í borg, Ross stræti, og þó þau flyttu þaðan í burtu, þá stóð þeirra heimili ávalt við þjóðveg Íslendinga í Vesturheimi. Þau bygðu ekki yfir þjóðveginn eins og Langaholts Þóra, — þurftu þess ekki með, því að allir vissu að þeir voru velkomnir á því heimili og áttu þar ekki aðeins að mæta íslenskri gestrisni og höfðingskap, heldur líka fyrirgreiðslu vandamála sinna og erfiðleika að svo miklu leyti sem í hans og þeirra valdi stóð.

Húsfaðir var Árni með ágætum. Hann kostaði ekki aðeins kapps um að sjá húsi sínu og fjölskyldu farborða efnalega, heldur tók hann umhyggjusaman þátt í öllum kjörum fjölskyldu sinnar og var nærgætni hans á því sviði til sannrar fyrirmyndar.

Þeim Árna og Oddnýju varð sjö barna auðið. Eru þau: Árni Guðni, málafærslumaður í Winnipeg; Sigurbjörg Thelma (Mrs. Jóhannson) í Edmonton, Alta.; Eggert Grettir, raffræðingur, til heimilis í New York-borg; Egill Ragnar, í flugliði Canada, nú á Englandi; Sigurður Hjalti, raffræðingur, búsettur í Winnipeg; Sigríður og Oddný Ólafía, þær síðast töldu dóu báðar í æsku. Árið 1918 misti Árni konu sína eftir 23 ára sambúð, og var það þungur og sviplegur atburður fyrir hann, eins og slíkir atburðir eru ávalt í lífi manna.

Eftir lát konu Árna veitti systir hans, Dýrfinna (Mrs. Elding), hinu stóra og umsvifamikla heimili hans forstöðu, þar til árið 1924 að Árni kvæntist í annað sinn og gekk að eiga Þóreyju, dóttur Sigurðar Jónassonar og Maríu konu hans Árnadóttur frá Bakka í Öxnadal, Eyjafjarðarsýslu á Íslandi.

Þórey er merkileg kona, gáfuð, vel að sér og vel búin að kvenlegum listum, og hefir veitt hinu stóra og vinsæla heimili þeirra hjóna forustu með rausn og forsjá.

Þeim Árna og Þóreyju varð þriggja barna auðið. Þau eru: Ásta, Gunnar Örn og Erlingur Kári, prýðilega gefin og efnileg. Þau eru öll heima sjá móður sinni.

Það er orðinn siður í seinni tíð vor á meðal, að ljúka engri æviminningu fyr en búið er að koma þeim látna í ætt til einhvers ættarríks stórhöfðingja þjóðar vorrar. Innan handar væri það fyrir mig, að koma

Árna Eggertsyni upp í þann hefðar sess og þyrfti heldur ekki langt að leita. En það var með hann eins og Þorgils Þórðarson, þegar Haraldur konungur gráfeldur sá hann fyrst hjá Ólafi bónda á Hörðalandi: "Hver maður er sá hinn ungi og mikli?" spurði konungur. Ólafur svarar: "Hann er íslenskur." Konungur segir: "Hann mun vera mikillrar ættar, því hann hefir þess háttar yfirbragð." Þannig var það með Árna Eggertson, að hver sem leit hann, sá að maðurinn var vel ættaður. Hann bar það með sér, hafði þessháttar yfirbragð. Árni var fæddur 8. maí 1873 á Fróðhúsum í Borgarfjarðarsýslu á Íslandi. Foreldrar hans voru Eggert bóndi Jónsson, og kona hans, Sigríður Jónsdóttir. Hann ólst upp hjá foreldrum sínum í Borgarfirði hinum syðri, einni af allra sælleg-ustu og fegurstu sveitum Íslands, þar til að hann var 14 ára, að hann flutti með þeim vestur um haf, til Canada, eins og að framan er sagt.

Árni var röskur meðalmaður á hæð, vel og beinvaxinn. Hreyfingar hans allar voru ákveðnar og snöggar. Honum var vel farið í andliti. Ennið mikið og hátt, augun snör og geisluðu vanalegast góðvild mannsins, en gátu þó verið hörð og gegnum smjúgandi, en aldrei voru þau heiftþrungin. Nefið var all mikið, þunt og nokkuð skarpt. Andlitið í heild svipmikið og skapfallegt.

Árni Eggertson lést á almenna sjúkrahúsi Winnipeg-borgar 12. febrúar 1942 og var sunginn til grafar þann 14. sama mánaðar af séra Valdimar J. Eylands, að fjölda fólks viðstöddum.



# Árni Eggertson

**1873—1942**

Þeir hverfa frá oss einn og einn að vanda
Og einn og tveir—og jafnvel stundum þrír,
Að oss er sagt, til æðri og betri landa,
En enginn þaðan hingað knerri snýr.
Þeir sigla út á hafið breiða og hljóða
Með hversdags-tap og fárra stunda gróða.

Ég veit ei hvort þú græddir gullið rauða
Er grefst með þeim sem á ei hærri sýn.
En þú berð annað yfir gröf og dauða
Til "Íslands Nýja", fremdarverkin þín.
Þau fremdarverk af góðhug voru getin,
Svo gifta þín mun hærra en algeng metin.

Þitt Íslands merki mun hjá öllum standa,
—Og mér ei síst,—þó rimman verði hörð
Því hvert sinn er þú fórst til "Furðustranda"
Þú fluttir með þér vestur, Borgarfjörð.
Þar sást þú liti, ljós og fegurð blóma,
Sem landi okkar verður æ til sóma.

Ég veit að Ísland syrgir soninn djarfa
Er sigur hlaut á manndáðanna braut.
Það letrar nafn þitt meðal efstu arfa
Sem yfirstigu hina miklu þraut:
Að slá ei af við Íslands málin bestu,
En eiga jafnan manndóm, ráð og festu.

**P. S. Pálsson**

# Dansinn í Hruna

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Nægtabúr var og nýrrar hallar grunnur
Námueigandans dýpsti kolabrunnur.
Öðrum, sem fóðrið veittu' hans vélahvoftum,
Vant var þó matar, undir svörtuloftum.

Þar höfðu lengi kolasorta svertir
Svitnað hans þrælar, bjargarskorti ertir.
Kúgun þeim ofan sent hann hafði í síma,
Svikið um kaup og styttri vinnutíma.

Hámarkið örðugt yfir hafði stigið
Auðsöfnun hans, en þrælaliðið hnigið.
Skyldi því vera í stóru hallarhólfi
Haldin veisla og dans, á neðsta gólfi.

Flestir á þeirri námuþrælanóttu,
Námueigendur landsins boðið sóttu.
—Þeir voru hellan, höggvin lagastöfum,
Höfð fyrir legstein yfir kvikra gröfum.

Hóf þá upp danslag hljóða-mislitt; bröndótt,
Hljómsveitin lúðrum gylt og strengjum röndótt,
Þrýstust að hvítum bringum, faldar föðmum,
Farfaðar konur, berar niður að mjöðmum.

En þegar dansinn gekk sem allra glaðast,
Gleiðast og skrefalengst, en ekki hraðast,
Hjálmröðuls jökulbirtu virtist bjartast,
Breyttist,—og einmitt þá varð myrkrið svartast.

Aufúsugestir engir þar né boðnir
Upp komu um gólfið námuþrælar, loðnir
Ösku og ryki, sóti og kolasalla,—
Sjálfboðalið að dansa jafnt við alla.

Tóku þá eftir óðra manna nótum
Allir að dansa, réðu ei sínum fótum,
Herrar og þrælar jafnt í kolakófi
Knúnir áfram á dansins fótaþófi.

Þyrlaðist sem í hvössum hvirfilvindi,
Hópurinn sá hinn vilti, trylti, blindi,
Snerist og þaut sem einhver gríðar grótti,
Geystist, sem þá í lið er brestur flótti.

Þektist þá enginn þræll frá sínum herra.
Það var þeim æðri hverri læging verra;
Lengur voru þeir ekki að utan bjartir,
Aðeins í gegn sem kolamekkir svartir!

— — —

Hljómsveitin eflir ósamræmi og spjöllum
Öfugrar listar slag, með hvellum gjöllum,
Dansað er eftir óðra manna nótum
Ósjálfrátt, tilgangslaust, á dauðum fótum.

Dansa þeir síðan—ef til vill af ótta
Einkum við það, að hætta að vera á flótta.
Sópar að þeim í svarta skrípaleiknum!
Sést ekki framar handaskil í reyknum.



# Um ritdóma og rithöfunda

Eftir Dr. Stefán Einarsson

## I.

Fyrir nokkrum dögum fékk eg bréf frá einu af skáldum Íslands. Í því kvartaði hann undan því, að hann hefði ekkert getað lært af ritdómum þeim, er skrifaðir hefðu verið um bækur hans. Manninum var víst vorkunn. Einn ritdómarinn hafði ráðlagt honum að skrifa ævintýri, annar sagði, að sögugerð lægi miklu betur fyrir honum. Einn gamall og reyndur dómari taldi, að hann stiklaði um of á því stærsta, annar fann honum það til foráttu, að hann dundaði um of við smámuni. Eftir þessa reynslu gat eg varla láð manninum, þótt honum sýndist, að það mætti æra óstöðugan að eltast við ritdómarana; þeir væri svo vitlausir.

Það· kemur ekki málinu við hver þessi höfundur var. En eg hygg, að þótt sendar væri fyrirspurnir til allra skálda Íslands og rithöfunda, svo ekki sé víðar völlur haslaður, þá mundu svörin mjög á einn veg. Það vill svo vel til að mörg svörin má lesa sér til, svart á hvítu, í ummælum sumra helstu skáldanna um ritdómara sína. Eg skal minna á nokkur dæmi.

Jón Trausti var ekki vanur að taka þeim dómum þegjandi, er honum þótti af litlum skilningi skrifaðir um verk sín. Af því má ráða, að hann hafi ekki þótst læra mikið af þeim. Fáir hafa borið úr býtum ómildari (og stundum óverðskuldaðri) dóma en Guðmundur Friðjónsson. En hann hefir líka stundum bitið frá sér. Einar Kvaran lýsti því yfir einhverstaðar í greinum þeim, er hann ritaði gegn Sigurði Nordal, að hann hefði lítið sem ekkert lært af dómum þeim er um bækur hans hefði verið skrifaðir, enda mundi meiri parturinn af þeim dómum hafa verið lof um bækurnar. Skamt er síðan að íslensk blöð höfðu þau ummæli eftir Guðmundi Kamban, að hann teldi hinn þýska menningar-stjóra, Goebbels, hafa bjargað þýskum bókmentum með því að afnema alla krítík þar í landi. Ekki þori eg að ábyrgjast þessa blaðafregn, en eg hygg hún fari samt ekki rangt með viðhorf Kambans til ritdómaranna. Loks man eg það, að H. K. Laxness hefir einhversstaðar skrifað reiðilestur um ritdómara og sannað með ómótmælanlegum rökum, að alt þeirra strit og erfiði er verra en eftirsókn eftir vindi, og argasti hégómi.

En hvernig stendur á þessum ímugusti skáldanna á ritdómum og ritdómurum. Ástæðan er ofur einföld. Annað hvort "skilur" ritdómarinn verkið með þeim "samúðarinnar skilningi", er Guðmundur Finnbogason lýsti í doktorsritgerð sinni. Það er að segja, hann setur sig eftir bestu getu í spor höfundar, reynir að sjá hlutina frá sama sjónarmiði og meta, að hve miklu leyti höfundur hefir náð þeim mörkum, sem hann hefir sett sér með samningu bókarinnar. Þessi skilningur hleypur upp í hendurnar á ritdómaranum, ef hann er fyrirfram á sömu skoðun og bók-

arhöfundur. En geta má nú nærri hvaða gagn höfundurinn sjálfur hefir af svona dómi, nema hann sé ungur og viðkvæmur og þurfi uppörvunar við. Auðvitað getur viðkvæmnin lengi lifað í kolunum, ekki síst hjá tilfinningamönnum, eins og mörg skáld eru. (Sbr. ummæli Guðm. Magnússonar í æviminningu eftir Alex. Jóhannesson, *Ísafold* 29. des. 1918.) Hann hefir hugsað um bók sína mánuðum, kanske árum saman. Ritdómarinn dæmir hana á einu kvöldi! — En nú kemur hinn möguleikinn, sá, að ritdómarinn kannske hvorki vilji né geti sett sig í spor höfundarins. Þetta er mjög algengt tilfelli, en orsökin er nálega ávalt hin sama: djúptækur skoðanamunur. Hve oft hefir það ekki brunnið við að íslenskir "ritdómarar" gátu ekki litið bækur pólitískra andstæðinga réttu auga. Stundum hefir pólitík og hneykslaður listasmekkur lagst á eitt til að fyrirbyggja allan skilning. Þar eru dæmi Þorsteins Erlingssonar, Þórbergs Þórðarsonar og H. K. Laxness deginum ljósari. Stundum er það listasmekkurinn einn, rótfestur í eðlisfari manna, sem ræður dómunum. Eg skal nefna til dæmis hinn fræga dóm Guðmundar Finnbogasonar um *Vefarann mikla frá Kasmír*: "Vélstrokkað tilberasmér." — En hver sem ástæðan er, þá er það víst, að sé höfundur nokkuð að manni, þá getur hann ekki farið eftir svona ritdómum. Hann yrði þá að afneita sínu insta eðli og það gerir hann ekki, ef manntak er í honum. Og það er manntak í öllum þeim mönnum, sem höfundarnafnið eiga skilið.

Hið eina, sem hugsanlegt væri, að höfundur gæti lært af ritdómum væri endurbætt tækni. En ekki þarf lengi að velta því fyrir sér, hve ólíkt það er, að ritdómarar geti þar knésett höfundana. Hér eiga við orð Laxness, hins lærðasta höfundar, er nú skrifar skáldrit á íslensku (*Mbl.* 28. júní 1922): "Góður rithöfundur hefir ekkert til þeirra að sækja, sem um bækur rita. Meistaraverkin eru hið eina, sem veitt getur rithöfundi skólun, og hann leitar þangað til að komast í snertingu við anda snillinnar. . . Sérhverja bókmentaöld einkennir einhver sérstök tóntegund, sem hún leikur í öll lög sín. Í þeim kór segir fátt af ritdómurunum, því meistarar hverrar aldar gefa hér tóninn."

## II.

Það væri engin furða, þótt aumingja ritdómararnir kendu sig bæði knekkaða, rúineraða og demóraliseraða eftir þennan einróma fordæmingarpistil skáldanna. En til þess að veita þeim nokkra uppreisn ætla eg að tilfæra ummæli enn eins skálds um hina háleitu köllun þeirra (*Lögr.* 11. nóv. 1924). Skáldið er Jón heitinn Thóroddsen, maður sem sá miklu lengra en nef hans náði, og illu heilli hné fyrir örlög fram.

"Fæstir geta notið listar," segir hann, "án þess að dæma hana fyrst, og þá njóta þeir ekki listarinnar sjálfrar, heldur dóms síns um hana. Aðrir geta hvorki dæmt né notið, þeir verða að láta gera það fyrir sig. Ritdómarar eiga að vera vegna lesendanna, ekki vegna höfundanna. Þeir eiga að ryðja úr vegi misskilningi, sem hætt er við að setjist að verkinu og höfundi þess. Þeir eiga

að vera til þess að lesendurnir geti skilið betur, dæmt betur og notið betur."

Það er auðséð, að Jón vill, að ritdómarnir sé ritaðir af samúð með höfundinum og verki hans. Í sama streng grípur Þórbergur Þórðarson í nýlegri Iðunnar grein: "Svona á ekki að skrifa ritdóma." Ritdómarar ættu því að hafa *Den sympatiske Forstaaelse* við hendina, og helst í huganum, þegar þeir taka sér penna í hönd til að dæma bók. Og ef rent er augunum yfir fylkingar íslenskra ritdómara og þeir teknir til dæmis, sem einna mest hafa skrifað, þá er auðséð, að þeir hafa giftusamlega fylgt þessari meginreglu. Eg skal aðeins nefna þrjá menn, sem mikið liggur eftir í ritdómum: Guðmund Finnbogason, Jakob Jóh. Smára, og Richard Beck. Allir þessir menn hafa að öllum jafnaði sett sig inn í efni það eða boðskap, er bækurnar áttu að flytja að ætlun höfundanna og þar við hafa þeir bætt ljúflegu lofi og litlum aðfinslum eftir ástæðum. Man eg, að sá orðrómur lá á, að ekkert væri að marka Smára, hann hrósaði öllu. En síðan hefi eg orðið þess var, að Smári var manna sanngjarnastur í dómum sínum, og lítt hættara við oflofi en mörgum öðrum.

III.

En nú kem eg að því atriðinu sem eiginlega hleypti mér af stað til að taka saman grein þessa. Það er spurningin um, hvernig skáldin sjálf skrifa ritdóma. Maður skyldi ætla, svo vandfýsnir sem þeir eru um ritdóma sinna eigin verka, að þeir myndu gera betur, er þeir fara að skrifa um aðra. Og í einum hlut standa þeir tvímælalaust betur að vígi en venjulegur ritdómari, þeir ættu að bera betra skynbragð á tæknina. Enda skal það strax játað, að finna má ekki ófróðlegar athugasemdir um tækni í ritdómum eftir E. H. Kvaran (um Þorgils gjallanda), Guðmund Hagalín og fleiri, þótt eg muni eigi að nefna í svip. Hitt er aftur á móti staðreynd, að þann skilning, sem þeir krefjast af ritdómurum sínum, hafa þeir sjaldan sjálfir til brunns að bera, fyrir verkum annara skálda.

Það var ritdómur eftir Jón Trausta (*Lögr.* 1. jan. 1912) um *Fjalla-Eyvind,* sem fyrst vakti eftirtekt mín á þessu kynlega fyrirbrigði. Þar segir svo: "Fyrstu þrír þættirnir eru yfirleitt afbragðsgóðir; það langbesta í íslenskri leikritagerð. . . Síðasti þátturinn er lakastur, þó eru þar einnig margar fallegar setningar. En ástarsæringarnar verða þreytandi, enda litlar bókmentalegar nýjungar í þeim. Mitt í þeirri neyð, sem þar er lýst verður mönnum þetta langvinna jag ógeðfelt. Leikurinn hefði líklega orðið miklu áhrifabetri, ef hann hefði endað á þriðja þætti, eða þá að hann er einum þætti of stuttur."

Öllu meiri misskilning á tilgangi höfundarins er varla hægt að hugsa sér. Kunnugir vita, að síðasti þáttur leiksins var aðalatriði hans í augum höfundarins. Sá þáttur, þar sem ástin er prófuð í deiglu hungursins, var og fyrst saminn; hinir þrír þættirnir voru prjónaðir framan við. Að vísu lét Jóhann þáttinn í öndverðu fara vel — eins og þjóðsöguna sem hann notaði til fyrirmyndar — en það haggar ekki við því sem hér seg-

ir um hungrið og ástina, því bæði bókmentatíska (Hamsun: *Sult*) og eigin dýrkeypt reynsla höfundarins lögðust á eitt til að skapa þáttinn. En hvernig getur staðið á þessum rokna-misskilningi hjá Jóni Trausta? Að mínum dómi liggur ástæðan í eðlisfari hans sjálfs. Honum er ekki mikið um það gefið að lýsa fólki, sem er svo spent af æstum tilfinningum, að það springi. Að vísu gerir hann það á stundum. Má nefna til dæmis "Þegar eg var á freygátunni", "Sigurbjörn Sleggja" og "Söngva-Borga". En ef að er gáð, er það ekki ástandið sjálft, stormur tilfinninganna, sem dregur athygli hans, heldur tildrögin að ástandinu, hvernig maðurinn gat orðið svona. Og langhelst lýsir hann heilsteyptu fólki, mönnum með stórt skap, en jafnvægi í lund. Þetta fólk fær rólegt andlát, þótt stundum hafi það þurft að sigla hvast andviðri á ævinni. Menn eins og Þorgeir kaupmaður, konur eins og Halla.

Sýnilega hefir Jón Trausti vænst þessa jafnvægis af Höllu í Fjalla-Eyvindi. Og framkoma hennar í fyrri þáttunum gaf ekki átyllu til að vænta annars af henni. Hungrið í síðasta þætti var höfundi næg orsök til að sundra sálarlífi þessarar sterku konu. En það eru fleiri en Jón Trausti, sem ekki gátu þar fylgst með hugsanaferli hans. Ekki alls fyrir löngu hefir Ragnar Kvaran bent á ósamræmið í leikritslokin og krafist sáttanna í samræmi við alt eðli Höllu.

Mér virðist þetta dæmi sérstaklega lærdómsríkt vegna þess að hér getur naumast verið til að dreifa annari skýringu á misskilningnum en ólíku eðlisfari höfundanna. Einmitt það hygg eg að oftast valdi misskilningi eins höfundar á verkum annars.

En hér kemur auðvitað margt annað til greina. Höfundarnir eru keppinautar á bókamarkaðinum. Í matarstriti er enginn annars bróðir í leik. Þetta getur gert þá skarpskygna á flísina í auga bróður síns. Kunnátta þeirra sjálfra ætti líka að gera þeim auðsýnni brestina í kunnáttu bræðra sinna. Það er einfalt og sjálfsagt mál. En hvað sem á bak við kann að búa, þá ber venjulega að sama brunni. Athugasemdirnar og aðfinslurnar eru sóttar í heim hugmynda og tilfinninga ritdómarans, þær eru í samkvæmni við eðlisfar hans og lýsa honum því betur en höfundinum eða verkinu, sem hann er að ritdæma.

En til að sanna þá staðhæfingu, að það sé einkum höfundar, sem skrifa ritdóma af þessu tæi, þá skal eg nú renna augunum yfir nokkra ritdóma frá 19. og 20. öldinni, er bera þessu ljóst vitni.

Eg get byrjað með því að minna á hinn fræga dóm Jónasar Hallgrímssonar um rímur Sigurðar Breiðfjörðs í *Fjölni* fyrir hundrað árum. Það er ekki, víst að hann hefði verið saminn, ef Sigurður hefði ekki látið kaupa sig, fátækur eins og hann var, til að yrkja flím um *Fjölni*. Jónas reiðist og skrifar dauðadóm rímanna út frá sínu eigin form-elska listamannseðli. Eftir það áttu rímurnar formælendur fáa, uns Einari Benediktssyni, Sigurði Nordal og Guðmyndi Finnbogasyni tókst að sýna mönnum gildi þeirra.

Það vill annars brenna við um ritdóma 19. aldar skáldanna, áður en

realisminn kemur til sögunnar, að þeir sé reistir á öfund og ofsjónum yfir erfiljóðagengi og lýðhylli keppinautanna. "Til mín var ekki leitað," segir Benedikt Gröndal, "þegar Hilmar Finsen landshöfðingi dó. En maður með marga til reiðar er sendur austur að Odda til séra Matthíasar!" Og ólundarlegt er hornaugað, sem Gröndal gefur Steingrími og þýðingum hans; hann kallar það ekki bókmentir, þótt verið sé að þýða úr einu máli á annað, nema þá um klassisk rit sé að ræða, eins og Hómer. Þeir feðgarnir Sveinbjörn og Benedikt höfðu sem sé þýtt Hómer, og það af snild. Enginn skyldi áfellast þá þremenningana Gröndal, Steingrím og Matthías, þótt þeim færi stundum eins og kindum í svelti, sem éta reifið hver af annari. Hitt er skyldara að þakka seiglu þeirra fyrir það, að hún lét þá ekki með öllu falla úr hor í sveltunni.

Þegar realisminn kom til sögunnar var skapaður verulegur skoðanamunur, sem skipaði skáldunum í ákveðna flokka. Einn af realistunum firti Gröndal og hleypti honum af stað gegn realismanum. En þótt tilefnið væri persónulegt, þá vantaði það síst, að Gröndal skrifaði gegn realismanum af insta grunni síns rómantíska eðlis. Hins vegar veit eg ekki til, að annað en hreinn skoðanamunurinn hleypti Gesti Pálssyni til að skrifa frá realistisku sjónarmiði um þau Matthías Jochumsson og Torfhildi Hólm, og það þótt það orð lægi á, að Gestur gerði ekki neitt nema hann væri keyptur til þess. En talið var alment, að realistarnir gerðu næsta lítið úr skáldum samtíðarinnar og þaðan af eldri skáldum. Og þetta var auðvitað rétt. En realistarnir fengu fyrir ferðina þegar Einar Benediktsson kom til sögunnar. Hann húðfletti þá í *Dagskrá* sinni og fann þeim það til foráttu, að þeir væri ekki nógu þjóðlega sinnaðir, áhugalausir um landsmál og blindir á séreðli þjóðar sinnar. "Tveir af þeim," segir hann (*Dagskrá* 7. nóv. 1896), "Bertel Þorleifsson og Einar Hjörleifsson, sem vel mega teljast saman meðal hinna minni háttar ljóðasmiða á þessum aldarfjórðungi, gáfu ekki neina átyllu til annara vona en þeirra, sem síðan hafa rætst." Það var ekki von að Einar Benediktsson sæi það fyrir, að nafni hans átti eftir að bera ægishjálm yfir íslenskum prósa-höfundum á fyrsta fjórðungi 20. aldarinnar. En dómur Einars ber þó vott um, að hann hefir lesið ljóðakver nafna síns og *Vonir* af litlum skilningi. Hann fann þar hvorki hugsjónir þær um hamingju og framfarir Íslands né málkyngi þá, er hann sjálfur sóttist eftir með öllum styrk síns sérkennilega persónuleika. Síðar sýndi hann enn betur hve blindur hann gat verið á verðleika annara skálda. Þannig löðrungaði hann Jón Trausta, sem þó mátti heita sporgengill hans í skoðunum, fyrir það sem hann kallar "ritiðnað" hans, hversdagshugsanirnar og málalengingarnar ásamt ógeðslegu broti á velsæmi (!!) í *Veislunni á Grund* (*Þjóðstefnan* 11. maí 1916 (Glúmur)). Á sama grundvelli setti hann met í röngum dómi í Skírnisgreininni frægu, þar sem hann hefur Guðmund Friðjónsson upp til skýja fyrir málkyngi hans og myndagnótt, en kastar Gunnari

Gunnarssyni í gröf gleymskunnar, sem argasta blekbullara sinnar syndum spiltu ritaldar. Þessi dómur reyndist eitthvert hið versta verk, því hann hitti Gunnar Gunnarsson á snöggan blett. Gunnar hafði þá með frábærri elju og snild hafið sig til almennrar viðurkenningar á Norðurlöndum, en landar hans gerðu lítið annað en gapa, og éta lofið skilningslítið eftir útlendu blöðunum. Ef einhverjir lásu bækur hans, þá var viðkvæðið samkvæmt rökum realismans gamla, að þetta væru reifarar, fjarri íslenskum sanni. Þó var Gunnar heima í hverri einustu bók. En þetta voru smávölur, sem hægt var að hundsa. Þá kom hnútan í Skírni. Engir hreyfðu mótmælum. Betur gat þjóðin ekki sýnt þakklæti sitt við þennan son sinn, sem nú hefir borið nafn hennar um allan hinn germanska heim, og eitthvað af hinum slavneska og rómanska. Dómurinn hefði sannarlega verið betur óbirtur. En þó má læra af honum. Hann sýnir fyrst og fremst hina einstrengingslegu dýrkun Einars á myndauðugu formi og máli. Hann segir satt um stíl Guðmundar Friðjónsssonar og ekki með öllu ósatt um form Gunnars Gunnarssonar. Stíll hans er ekki altaf eins heflaður og framast yrði á kosið og honum hættir stundum við því að verða of langorður. En að fleygja Gunnari í glatkistuna fyrir það eitt, er sama sem að fordæma skóginn fyrir eitt fölnað laufblað.

Eins og ekki er að undra um mann, sem verið hefir eins vitur, góðgjarn og víðsýnn og Einar Kvaran, þá eru ritdómar hans venjulega gerðir af næmum skilningi og samúð með höfundi og verki hans. Þó hefir stundum brugðið út af þessu. Eg tek til dæmis dóm hans um *Upp við fossa.* Hvergi í heimi hélt hann að bók svo svartsýn að lífsskoðun gæti hlotið almenningshylli. Og óheilla-atburðinn í þinghúsinu taldi hann slæma tilraun höfundar til að draga persónur sínar ofan í saurinn. En atburðurinn var fyrsti ástafundur elskendanna gefinn í skyn með eyðu á blaðsíðunni. Aðfinsla Einars var í raun og veru þeim mun hlálegri, sem hann hafði á öðrum stað hvatt Þorgils gjallanda til aukinnar samúðar með persónum sínum. En hér, þar sem Þorgils hafði hina fylstu samúð með hinum ungu elskendum og ást þeirra, hér brast Einar skilninginn. Auðvitað var það af því, að hann var þá (og var víst til dauðadags), eins og nafni hans Benediktsson í dóminum um *Veisluna á Grund,* undir krossi velsæmis 19. aldarinnar. En þeir þingeyingarnir voru þarna á undan sínum tíma, eins og í fleiru, og gerðu sitt til að grafa undan fótstalla þess goðs, þótt Guðmundur Friðjónsson síðar hlypi til að reisa það fallið í sinni ágætu grein "Um feimnismálin" (*Stefnir* 1931). En svo nefnt sé annað dæmi, þar sem Einar hefir brostið "skilninginn" á annars manns skáldverki, af ástæðum, sem raunar liggja í augum uppi, þá er það dómur hans um *Hel,* eða, réttara sagt, um Álf frá Vindhæli í *Hel* Sigurðar Nordals. Þetta var í deilu þeirra Kvarans og Nordals, og galt Álfur að sjálfsögðu höfundarins.

En ef menn gátu vænst skilnings og samúðar frá Einari Kvaran, þá mundu menn hafa átt annara veðra

von frá hinum viðskotslynga bónda á Sandi. Enda hefir stundum snuggað úr þeirri átt til yngri höfunda, og þó vonum minna. Þegar *Bóndinn á Hrauni* kom út varð hann honum strax áhyggjuefni (*Norðurland* 30. jan. 1909): "Eg velkti fyrir mér þeirri hugsun, að eg hefði gert hærra undir höfði skyldunni þeirri að vinna fyrir börnunum mínum, heldur en "skyldunni við gleðina." Og svo skyldi eg eiga í vændum þann harða kost og þá illu uppskeru, að börnin mín létu mig aleinan, þegar eg væri orðinn hrörnaður maður og kominn á fallandi fót... Og eg seig niður í þunglyndið... Mér varð þykkjuþungt til höfundar, því að mér fanst hann vera valdur að þessari hrakför minni í lífinu. En svo hnykti eg mér upp úr þessari þunglyndissandbleytu og leit á leikritið eins og *dæmi*.., þar sem lýst er aldarandanum, eins og hann er... Og Jóhanni Sigurjónssyni er ekki um að kenna örlög Hraunsbóndans, heldur aldarandanum, sem blæs um krossgötur mannanna og gerir þá stundum áttavilta í þokunni." Þetta er vinsamleg afsökun, en eg hygg, að Jóhann hafi ekki ætlað sér að biðjast neinnar afsökunar á boðskap sínum um "skylduna við gleðina." Bæði ævi hans og verk mótmæla því.

Skemtilega brettir Sandsbóndinn grönum við sendingum þeirra Gunnars Gunnarssonar og Guðmundar Kambans í grein sem hann kallar "Matið og menningin" (*Lögr.* 28. febr. 1917): Þetta mat var jarðamat, sem Guðmundi bónda var illa við, sökum þess að jarðirnar voru hækkaðar í verði. En "samkvæmt *Livets Strand* geta þeir menn búist við höppum, sem búa við sjávarsíðuna. Alstaðar geta skipin strandað, úr því að Goði (þ. e. Goðafoss) fór upp á Straumnes — á útleið. Gunnar lætur reka á land utan úr skerjum: mjölpoka, grjónasekki, sykurkassa og alskonar þungavöru. Fjöldi jarða liggur að sjónum: þær ættu að geta hækkað að mati." En svo verður Guðmundi litið í blöðin. Þar er fregn um hr... dal, utan úr löndum, er stofnar skóla upp í sveit, byggir skóla og vekur fólkið. En í *Lögbirtingablaðinu* stendur, að hr... dal hafi lánað fé upp á tveggja jarða ábyrgð föður síns, og nú eru bæði jarðirnar og skólinn auglýst til nauðungar uppboðs.

"Þarna sér í hrundar rústir, kraminn efnahag gamals og góðs bónda, sem ómenningin hefir teygt og vélað út í þetta fálm... Þarna sér í fettur og brettur og rassaköst menningarinnar í gæsalöppum, sem spilar með tugi þúsunda frá öðrum og sest svo "bak við hárið" á sjálfri sér eins og Dúna Kvaran Kambansdóttir.

Margt er nú í lausu lofti í landi voru. Nýafstaðnar kosningar.., atkvæðarétturinn.., árásir á stjórnina. Mestur hluti skáldskapar vors er í lausu lofti (sumir rithöfundar með alt sitt). Dúna Kvaran og Hadda-Padda eru í lausu lofti bókstaflega, — Dúna áður en hún sest bak við hárið. Og svo skyldi jarðamatið verða í lausu lofti!"

Í þessum línum má segja að Guðmundur taki afstöðu til Hafnarskáldanna. Verður tæplega sagt að það sé af skilningi á stefnu þeirra. Guðmundur fær glýju í augun og bakþanka af að horfa á þann seið æstra tilfinninga sem Kamban magn-

ar að honum, og honum dámar ekki sá heljargaldur sem Gunnar gelur honum undir randir í *Livets Strand.* Alt þetta truflar hans raunsæu samvisku. Og þó var hann miklu betur með á nótum þeirra Hafnarmanna, en gamli séra Jónas Jónason í *Nýjum kvöldvökum.* Mig minnir hann kalla Höllu í Fjalla-Eyvindi Kaupmannahafnar-drós, eins og Guðbrandur prófessor Jónsson titlaði Ragnheiði Brynjólfsdóttur í útgáfu Kambans.

Margt fleira mætti tilfæra úr ritdómum Guðmundar, og nú síðast hefir hann tekið svari sveitamenningarinnar gegn árásum Laxness, eins og sjálfsagt var og honum samboðið. Samt get eg ekki stilt mig um að benda á ritdóm Guðmundar um *Guð og lukkan,* eftir Hagalín. Einmitt af því að þeir nafnarnir hafa í mörgu átt samleið, er merkilegt að sjá, hvernig þeir líta sínum augum hvor á heimilislíf Gunnars karlsins á Bjargi með tvær konurnar í baðstofunni. Hagalín dáist að karlinum fyrir hið frummannlega samband hans við náttúruna bæði "líflausa" og mannlega, en nafna hans á Sandi verður starsýnna á hjartadrotningarnar tvær í spilum bónda og alt það dulda hugarstríð, sem háð er milli þeirra á heimilinu.

Það hefði verið gaman að hafa ritdóma um heima-Íslendingana eftir Hafnarskáldin. En Hafnarskáldin hafa ekki látið eftir sig liggja ritdóma í íslenskum blöðum og tímaritum. Þeim mun meir liggur eftir mann, sem stóð nærri þeim, mann sem að margra dómi bar höfuð og herðar yfir íslenska ritskýrendur á þriðja tug 20. aldarinnar.

Ritdómum Nordals hefir skift nokkuð svo í tvö horn. Annars vegar hefir hann kunnað að meta einfalda, yfirlætislausa og sanna frásögn kvenna eins og Theodóru Thóroddsen og Ingunnar Jónsdóttur betur en flestir aðrir. Hins vegar hefir hann ekki kunnað að meta margt það sem flestir samtíðarmenn hans hófu upp til skýjanna. Best dæmi þess er hinn ítarlegi dómur hans um Einar Kvaran, bækur hans og lífsskoðun. Þess verður þó að gæta, að grein Nordals er ekki ritdómur í venjulegri merkingu, enda tekur hann það sjálfur fram. Er öll sú deila þeirra Nordals og Kvarans lærdómsrík um mat rithöfunda hvor á öðrum, auk þess sem hún er eitt merkasta bókmentasögulega plaggið frá þriðja tug aldarinnar. Dómur Nordals um "Altaf að tapa" er einmitt ágætt dæmi um það, hve ekki má ritdæma sögu eftir forskrift þeirra Þorbergs og Jóns Thóroddsen, þó er hann auðvitað réttur frá sjónarmiði Nordals. Það er sama sagan og með álit þeirra Guðmundanna hér að ofan um Gunnar gamla á Bjargi. Kvaran sér það skoplega við barlóm bændanna, Nordal sér hilla undir allar orsakirnar til barlómsins. Annað er sjónarmið kaupstaðarbúa, hitt ætti að vera sjónarmið bændanna sjálfra — og er það, eins og sögur Guðmundar Friðjónssonar sýna. — Mikil var gleði manna, þegar Einar Kvaran leiddi Vestur-Íslendinginn Anderson, athafnamanninn, sem hefir gert sér alla vegi færa, inn í íslenskar bókmentir. Guðmundur Finnbogason tókst á loft í *Ísafold.* Ef eg man rétt dáðist hann líka að hinum "skemtilega,

djúphyggna manni," konsúl Melan. Þótt merkilegt væri leist Rögnvaldi Péturssyni ekki á manninn. Anderson má kalla draum íslenska útflytjandans, Melan draum borgarans. Báðir draumarnir hafa eflaust rætst á stöku mönnum. En Nordal getur ekki litið þessa menn réttu auga, þeir verða að Filisteum fyrir sjónum hans. Anderson er úthverfan ein, og Melan, ker með stöðnu vígsluvatni þeirra spiritistanna. Nordal lýkur upp hauskúpunum og finnur þar ekki einu sinni kvarnir. En Nordal leitar fyrst og fremst að mönnum með margbrotið, ríkt sálarlíf, innhverfum, íhugulum mönnum, það gerir ekki svo mikið til, þótt þeir kanske ættu að vera með annan fótinn á Kleppi, eins og margar söguhetjur Gunnar Gunnarssonar. Það eru þessar undarlegu, margbrotnu og tví- ef ekki margskiftu listamanns-sálir, sem Nordal hefir yndi af að skoða, en hann hefir ekkert gaman af heiðarlegum borgurum, jafnvel ekki af mikilmennum, ef ekkert raskar jafnvæginu í sálum þeirra. Hann skrifar um höfðingjann Snorra Sturluson, en lætur aðra um mikilmennið Jón Sigurðsson.

Og eins og Nordal hatar meðalmanninn, þótt hann hafi náð háu stigi fullkomnunar, þannig hefir hann og engan gáning á brúðum þeim, er áróðurshöfundum hættir við að nota fyrir málpípur sínar. Þaðan stafar dómur hans um *Sendiherrann frá Júpíter,* sem annars var tekið með kostum og kynjum af mönnum eins og séra Haraldi Níelssyni og fleirum.

Loks hefir meðfædd hófsemi og áunnin trygð við það íslenskasta í íslenskum bókmentum valdið dómi hans um *Vefarann mikla frá Kasmír,* er hann segir, eins og satt var, um höfundinn, að hann hafi farið á syngjandi túr í Evrópumenningu illri og góðri. Og mér er grunur á að það hafi verið sama hófsemin og sama trygðin við fornbókmentirnar, ásamt fullri viðurkenningu á snild Laxness, sem varð því valdandi að Nordal tók ekki til máls um Laxness svo árum skifti, — ekki fyrr en eftir að Laxness hafði lokið verki sínu um Ólaf Kárason Ljósvíking með *Fegurð himinins* (1940) (*Lesb. Mbl.* 24. nóv. 1940). En hafi Nordal með þögn sinni gert Laxness rangt til, þá gerði hann bragarbót með þeirri grein. En þó játar hann þar hreinskilnislega, "að svo miklar mætur sem eg hefi alt af haft á skáldskap og ritsnilli Kiljans, hefi eg aldrei getað tekið hátíðlegt mark á honum sem postula, hvorki í *Kaþólskum viðhorfum* né *Gerska æfintýrinu* — ekki fremur en eg t. d. trúi mjög á kenningar Kjarvals um bankamál eða hefði viljað læra undirstöðuatriði efnafræðinnar af Strindberg." En hversvegna tók Sigurður yfirleitt til máls um "Fegurð himinsins"? Jónas Jónsson og hans fylgifiskar myndu segja, að það væri af því að Nordal væri orðinn ánetjaður í snörum þeirra kommúnistanna. Á hitt má þó benda að Saga Ólafs Kárasonar Ljósvíkings er í heild sinni og einkum í sögulokin ljóðrænasta bók Laxness, á köflum hrein og skær fegurð, eins og ekki mátti ólíklegt þykja, þar sem ævi og endalok skálds var yrkisefnið. Slíka list

hefir Nordal þunt móðureyra fyrir, eins og sjá má af hans eigin ljóðræna stíl í *Hel.*

IV.

Fimm ár eru nú liðin, síðan undanfarandi athugasemdir um ritdóma og rithöfunda voru færðar í letur. Í raun og veru eru þær meiri en nógar til að sýna mun þann, sem oft er á dómum 'ritdómaranna' og rithöfundanna. Það er mjög oft munurinn á sjónarmiði: þ. e. venjulegur ritdómari telur sér skylt að dæma bókina út frá sjónarmiði höfundar, en rithöfundum hættir við að dæma þær út frá sínu eigin sjónarmiði. Og þetta stendur eflaust í sambandi við þá staðreynd, sem eg líka mintist á áður, að rithöfundarnir, ef þeir eru nokkurs virði, eru oftast heilsteyptari persónur og eigi allsjaldan einsýnni í skoðunum en alþýða ritdómaranna. Hér verður þó að undanskilja menn, sem eru sannir ritskýrendur og menningargagnrýnar, því þeir standa oft í engu að baki hinum bestu rithöfundum, enda ber þá eigi allsjaldan hátt í bókmentasögunni. Slíkur maður var Georg Brandes á Norðurlöndum. Og slíkur maður er Sigurður Nordal. Einhver mesti fræðimaður, sem um íslensk fræði hefir fjallað, og sjálfur ágætur höfundur og stílisti, svissneski prófessorinn Andreas Heusler, hefir borið Nordal saman við franska gagnrýninn Sainte-Beuve, brautryðjanda í ritskýringu á Frakklandi á 19. öldinni.

Þegar eg tók saman greinina, mun eg hafa ætlað, að bæta við nokkrum dæmum úr ritum yngri höfundanna til að sanna mál mitt fremur. Það er ekki erfitt verk að benda á, hversu dómar manna, og það bæði skálda og ekki-skálda, hafa, síðustu tuttugu árin mótast af sterkum skoðanamun í þjóðmálum. Síðan *Bréf til Láru* kom út 1924, hafa bókmentirnar verið klofnar í tvo skírt markaða flokka, sem kalla mætti bókmentir íhalds og róttækni og það eigi aðeins í bókmentalegum efnum, heldur líka í stjórnmálunum.

Brautryðjendur í bókmentunum eru þeir Þorbergur Þórðarson og H. K. Laxness fyrst og fremst. Þorbergur brýtur gömul boðorð og boðar nýjan stíl, en H. K. Laxness skapar hinn nýja stíl. Báðir eru sósíalistiskir í skoðunum, nema þá stund sem Laxness vígði sig og sín rit heilagri kirkju.

Svo er að sjá, sem stílnýjungar Þorbergs og Laxness hleypi þeim Kamban (*Skálholt* 1930) og Hagalín (*Kristrún í Hamravík* 1933) af stokkunum með nýjar stíltilraunir, en þær eru á öðrum sviðum, enda er hvorugur þeirra Kambans né Hagalíns róttækir í stjórnmálaskoðunum, þó að Hagalín sé í Alþýðuflokkinum og hafi áhuga á að hefja lýðinn.

Af ritrýnum mönnum, sem hallast hafa að sósíalisma (kommúnisma) í stjórnmálunum og kunnað hafa að meta þá Þorberg og Laxness má nefna þá Einar Olgeirsson, Gunnar Benedictsson og Kristinn Andrésson, en enginn þessara manna ber hins nýja stíls menjar, nema ef vera kynni Kristinn Andrésson, enda kippir honum í kynið til frænda síns, Haralds Níelssonar, um ákafa og spámannsgáfu. Aftur á móti ritar Einar Olgeirsson eins létt og ljóst og Einar H. Kvaran, en Gunnar

Benediktsson, sem líka hefir ritað heldur mishepnaðar sögur, gefur þeim ekkert eftir að rökvísi, en er harðari á bárunni, — hann er yfirleitt einhver hinn skemtilegasti greinarhöfundur sem nú ritar á íslensku. Ekki verður heldur sagt að Sigurður Einarsson beri miklar menjar hins nýja stíls, þó mjög slái hugmyndum hins nýja tíma í segl hans.

Flestir þessir ritrýnu vinstri menn hafa heldur amast við skáldverkum, sem ekki tóku mannfélagsmálin til meðferðar, eða tóku þau til meðferðar frá íhaldssamara sjónarmiði, en þeir vildu viðurkenna. Jafnvel vinsælustu skáld, eins og Davíð Stefánsson, fá ákúrur hjá þeim fyrir tómlæti, nema þegar þeir yrkja um fátæklingana. Og ekki hjálpar það Guðmundi Hagalín, þó hann sé Alþýðuflokksmaður, þeir sósíalistarnir geta ekki fyrirgefið *Sturlu í Vogum* að hann á, þegar allt kemur til alls, fé í banka.

Annars er það satt best sagt um Hagalín, að hann er talsmaður hinna sterku einstaklinga í bókum sínum, hvað sem flokkspólitík hans líður. Hans menn eru tápmenn, fjörkallar og -kerlingar, sem ekki láta alt fyrir brjósti brenna. Alt er þetta hið náttúrubesta fólk frumstætt, óbrotið og heilt, ekki fólk sem menn þurfa að vorkenna hag þess í lífinu. Bæði Hagalín og söguhetjur hans eru í ætt við stelpuna í Skálavík, sem einu sinni fylgdi Laxness yfir heiði til Bolungarvíkur, ríðandi í loftinu berbakt og beislislaust á latri truntu, kápulaus í dynjandi rigningu og slyddu, en samt heit, fjörug og kát, með ráð undir rifi hverju, ánægð með lífið og yfirleitt ódrepandi.

Þetta eðlisfar Hagalíns kemur eigi aðeins skýrt fram í hans eigin bókum, heldur einnig í dómum hans um bækur annara. Á yngri árum hafði hann það til að taka í lurg skáldbræðra sinna fyrir smíðagalla í ritum þeirra, eins og þegar hann dæmdi *Undir Helgahnúk* eftir H. K. Laxness. Á þeim árum var Hagalín hvorki um spiritisma (E. H. Kvaran) né guðspeki (Sigurjón Jónsson), og ekki dámaði honum hinn viðkvæmi tónn í ritum þeirra Einars Þorkelssonar og Davíðs Þorvaldssonar. Aftur á móti var honum vel við Jón Trausta og Guðmund Friðjónsson, þótt seinna kastaðist í kekki með þeim nöfnum út af velsæminu. Af yngri mönnum hefir Guðmundur einkum haft mætur á Guðmundi Daníelssyni, ekki síst fyrir söguna *Á bökkum Bolafljóts* (1940), sem vinstri mönnunum þykir of óstéttvís og jafnvel stæld eftir *Sturlu í Vogum.* Um stælingu er ekki að ræða, en hitt er satt, að þeir nafnar eru nokkuð keimlíkir að eðlisfari, þótt Guðmundur Daníelsson hafi sennilega enn ekki náð að mótast til fulls. Aftur á móti þykir Hagalín raunlítið koma til sögu hins unga skálds Ólafs Jóh. Sigurðssonar, *Liggur vegurinn þangað,* og er slíkt ekki að furða svo óyndislega sem búningur Hemingways fer Ólafi. Þar með er ekki sagt að Ólafur geti ekki orðið einn af höfuðskáldum framtíðarinnar, því hann er augsýnilega viðkvæmt skáld, en nennir þó að vinna og er óhræddur að gera tilraunir með pennann. Og ekki veit eg neinn af hinum yngri mönnum, sem mér

þætti líklegri til að halda í horfi Laxness, ef honum entist líf, iðni og þroski.

Gunnar Benediktsson telur missmíðin á *Sturlu í Vogum,* þar á meðal mishepnaðan stíl, koma af því að Hagalín riti á móti betri sósíalistiskri vitund. En ef um mishepnaðan stíl er að ræða — og það mun vera álit ekki minni smekkmanns á mál en Jóns Helgasonar prófessors í Kaupmannahöfn — þá hygg eg að mistökin liggi fremur í því, að Hagalín hafi ekki fylgt sínu eigin djarfa eðli eins langt og honum væri náttúrlegast af tilliti til þess boðskapar bræðralags og meðaumkvunar, sem hann vildi láta bókina flytja.

En hafi vinstri mennirnir lítinn skilning á verkum hinna íhaldssömu eða ópólitísku skálda, þá er hitt jafnvíst að íhaldsmenn, í stjórnmálum einkum, en líka í listum, hafa átt geysi erfitt með að meta snild hinna nýju manna og þola stíl þeirra. Viðbrögð manna við *Bréfi til Láru* (1924), *Vefaranum mikla frá Kashmír* (1927), *Alþýðubókinni* (1930) og *Sjálfstæðu fólki* (1934) hafa borið innræti manna talandi vottinn. Um dóm Guðmundar Finnbogasonar er þegar getið.

Annars atvikaðist það svo, að Laxness hafði átt ýms skifti með vináttu við íhaldsblöðin *Vísi* og einkum *Morgunblaðið* meðan hann var enn kaþólskur. Var þetta ef til vill ástæðan til að þau tóku *Vefaranum* betur en búast hefði mátt við og *Vörður* í höndum Kristjáns Albertssonar lofaði verkið mjög. Hinsvegar greip Jónas Jónsson tækifærið til að stríða íhaldsblöðunum með því að prenta upp í *Tímanum* nokkra vel valda kalfa úr *Vefaranum.* Áttu kaflarnir að sýna smekk íhaldsins, og laust við þetta í hina pólitískustu brýnu milli blaðanna, sem endaði með því óvænta tilviki, að Laxness stefndi *Morgunblaðinu* fyrir meiðyrði, nema það æti ofan í sig ummæli sem það, í sakleysi sínu, hafði eiginlega ætlað að bíta Jónas Jónsson.

Þegar Laxness kom heim 1930 dró saman með þeim Jónasi, mun Jónas hafa verið því fylgjandi að Laxness fékk skáldlaun og að bækur hans voru prentaðar á kostnað Menningarsjóðs, sem þá var nýstofnaður. Ef til vill hefir Jónas haldið að höfundur *Alþýðubókarinnar* mundi heldur rifa seglin, ef hann þyrfti ekki að hafa fjárhagslegar áhyggjur. Vera má og að Jónasi hafi getist að lýsingunni á þorpsbúum í *Sölku Völku,* ekki síst lýsingunni á "helvítis kaupmanninum." Hvað sem um það er, þá hélst vinátta þeirra Laxness og Jónasar svo lengi að Laxness skrifaði velviljaða afmælisgrein um Jónas, er hann varð fimtugur 1935. En þegar Laxness hafði skrifað *Sjálfstætt fólk* (1934-35), þá gat Jónas ekki orða bundist um þá mynd, sem Laxness teiknar af hinum sjálfstæða einyrkja. Ásamt bændamenningunni og jafnvel framsóknarmönnum. Skrifaði Jónas um þetta langan greinaflokk í *Tímanum,* sem hann kallar "Fólk í tötrum." Vandar hann um efnisval Laxness, og þó heldur hógværlega, er þó auðfundið að honum þykir tötragerfi persónanna ekki heppilegt til afspurnar t.d. í önnur lönd. **En þegar Laxness lét sér ekki segjast, heldur**

gekk fram fyrir skjöldu í stofnun vinstri handar málgagnanna *Rauðra penna* (1935) og einkum bókmentafélagsins *Máls og menningar* (1938), þá sagði Jónas honum og öðrum vinstri handar rithöfundum og listamönnum opið stríð á hendur. Helstu atriði í þessari nýju baráttu Jónasar eru stofnun nýs Menningarsjóðs undir stjórn Mentamálaráðs, sem sviftir þá Laxness og Þorberg mestum hluta styrks síns. Hefir síðast liðið ár verið mjög lærdómsríkt í þessu efni, því á því hefir staðið slagur milli Jónasar og Mentamálaráðs á aðra hönd en listamannanna og Sigurðar Nordals á hina út af niðurskurði ráðsins á styrk til vinstri mannanna. Verður ekki sagt að þessar deilur beri Mentamálaráði, eða formanni þess, gott vitni um hlutlausa gagnrýni á verkum listamannanna.

Annars hefir Laxness í seinni tíð aðallega orðið fyrir aðkasti vegna málsins á bókum sínum. Hefir hann sjálfur svarað þessum sleggjudómum snildarlega í *Tímariti máls og menningar*. Þó er sá fótur fyrir árásunum á hann og Þorberg, að þeir hafa losað um bönd þau er Íslendingar frá því á dögum *Fjölnis*-manna höfðu bundið sér til verndar málinu. Þess vegna hafa sporgenglar Laxness farið mun verr með mál en gerðu sporgenglar Einars H. Kvarans. Þetta er auðvitað þeim mun hættulegra, sem tímarnir eru óhagstæðari verndun málsins. Því hvað verður úr Íslendingum ef þeir týna sambandi við fornmálið?

Með sama rétti mættu menn hafa ráðist, ekki einungis á hina róttæku siðfræði í verkum Þórbergs og Laxness, heldur einnig á frjálslynda stefnu þeirra Kambans og Kvarans fyrir los það, sem þessir frjálslyndu menn hafa leitt yfir lýðinn síðan á rétttrúnaðardögum nítjándu aldarinnar. Menn gætu spurt hvort Íslendingar hefðu ekki verið betur undir það búnir að veita áhrifum hernámsins mótspyrnu, ef þeir hefðu verið aldir upp í anda rétttrúnaðarins og hinnar hreinu trúar. Menn geta spurt, en það verður erfitt um svör. Ef til vill hefðu þeir fallið þeim mun harðar sem þeir voru óreyndari.

Að endingu skal hér litið á ritdóma Laxness sjálfs. Eftir hann liggja ekki ýkja margir ritdómar, en þeim má skifta í tvo flokka: þá sem skrifaðir eru af samúðarskilningi Guðmundar Finnbogasonar, og hina sem skrifaðir eru frá hans eigin sjónarmiði, og eru ádeilur á ritin eða skáldin, sem hann tekur til meðferðar.

Til dæmis um ritdóma, sem ritaðir eru af samúð má nefna dóma hans um ljóð þeirra J. J. Smára og Tómasar Guðmundssonar, sem hann hefði auðveldlega getað fordæmt samkvæmt þeirri skoðun sinni að listin eigi að þjóna áhugamálum lýðsins nú og metast eftir því. Hinsvegar skortir Laxness ekki ljóðrænan smekk til að skilja hina fíngerðu list þeirra Smára og Tómasar, enda er ljóðrænan altaf sterkur þáttur, eða a. m. k. ívaf í öllum bókum Laxness, ekki síst bók hans um skáldið Ólaf Kárason Ljósvíking. Um hina yngri menn eins og Guðmund Böðvarsson o. fl. hefir hann líka skrifað af góðvild og sanngirni.

Ef litið er á dóma, þar sem Lax-

ness lætur skerast í odda með sér og höfundunum má minna á gamlan dóm, sem kom í *Morgunblaðinu* (1921) um *Konerne ved Vandposten* eftir Hamsun. Í þessum dómi vitnar Halldór fyrst um aðdáun sína á Hamsun, kveðst hann mjög hafa töfrast látið af stíl hans og skoðunum fram til þessa. En við nánari athugun, einkum á þessari bók, kveðst hann hafa komist að raun um að boðskapur hans, þrátt fyrir listilega framsetningu og óviðjafnanlegan stíl, sé mannhatur mestan part. Þetta var þegar Halldór var að snúast til kristinnar trúar frá sinni barnatrú um biblíuna og kristindóminn (amma hans kendi honum að ekki væri alt að marka sem í biblíunni stæði). En þótt Halldór kastaði kristninni á ný, þá hefir hann aldrei síðan séð hlutina frá sjónarhól Hamsuns, og það þótt hann hafi látið sér stíltöfra Hamsuns að kenningu verða.

Hitt dæmið er grein hans um "Borgaralegar nútímabókmentir" (*Rauðir pennar* 1935). Þar kryfur hann og knésetur ýmsa borgaralega nútíðarhöfunda sem hæst bera, eins og Thomas Mann (*Töfrafjallið*), Aldous Huxley (*Point Counter Point*) og tvær danskar skáldsögur: *Sjö gotneska þætti* eftir T. Dinesen og *Freistingar Dr. Renaults,* eftir J. V. Jensen. Bók Dinesens varð hásölubók í enska heiminum, en J. V. Jensen er einn af fremstu núlifandi höfundum Dana, þó hann taki nú að eldast. Halldór rífur niður rit þessara manna og telur orsökina til ófara þeirra þá, að þeir séu með öllu slitnir úr tengslum við hina alþýðlegu og alþjóðlegu framvindu sósíalismans. Þess ber auðvitað að gæta, að þetta eru ekki venjulegir ritdómar heldur menningargagnrýni fyrst og fremst.

Að lokum er vert að minnast á nokkrar greinar, sem Halldór hefir skrifað um höfunda: greinar sem eru með því besta af því tæi sem sést hefir á íslensku. Þetta eru greinar hans um Jónas Hallgrímsson (í *Alþýðubókinni*), Stephan G. Stephansson ("Landneminn mikli"), Gunnar Gunnarsson ("Kirkjan á fjallinu"), Stefán frá Hvítadal (í *Dagleið á fjöllum)* og "Inngangur að Passíusálmum" (í *Iðunni* 1932). Þó að hin síðast talda grein sé kanske síst hefluð að formi, þá er hún ekki síst að efni, og ætti enginn sem ann Passíusálmunum að láta undir höfuð leggjast að lesa hana.



# Rökkur-rof

Eftir Ragnar Stefánsson

Yfir jörðu, lofti' og legi
logar hatursglóð.
Háir dynkir dráps og ógna
duna á heljar slóð.
Er á hverjum aldarfjórðung
efnt til blóðugs stríðs.
Þrælasnara hert að hálsi
hungurmorða lýðs.

Sveipuð dökkri dreyra-móðu
drúpa kúguð lönd.
Hlutur þeirra' er héldu lífi
harðúðg þrældóms-bönd.
Eru hvar, sem augað lítur
auðn og brunaflög.
Smáð af grimmum griðníðingum
Guðs og manna lög.

Eins og fyr um aldaraðir
oftast hefir skeð
Sakleysingjar sárast gjalda
synda þess, sem réð.
Valdasjúkum vitfirringum
veitt er æðsta stjórn—
þar, sem einu afhroðs-gjöldin
eru múgsins fórn.



Nær mun sólargeisli glampa
gegnum sorta-ský.
Blóði drifnar borga-rústir
bygðar upp á ný.
Engir framar fótum troða
fólksins æðsta rétt.
Niðurhrundri hrófamenning
hærri takmörk sett?

Ekkert má um frið og frelsi
framar standa vörð,—
meðan auðvalds djöfladýrkun
drotnar hér á jörð.—
Aðeins þegar alheim sigrar
andi bræðralags—
sést í blóðsins rökkur-rofum
ris hins nýja dags.

# Rakka-Rökkur

## (Ein lítil Fantasía)

Eftir Dr. J. P. Pálsson

Hitler, Hirohito og Mussolini höfðu sigrað heiminn og gert alt mannkyn að þrælum sínum. Nú máttu þeir, ásamt fylgifiskum þeirra sem voru margir og mislitir, setjast í helgan stein. En slíkt var hægra sagt en gert, því friður þeirra var stríð, gleði þeirra morð og rán. En þó þeir leituðu um hið nýja þræla-ríki víðrar veraldar, fundu þeir ekkert sem fullnægði grimd þeirra og yfirgangi.

Því settust þeir á ráðstefnu. Það var um fagurt sumarkvöld, og stjörnur himinsins blikuðu í þúsundatali út í ómælisgeimnum. — Var hér leið út úr vandræðum sigurvegaranna?

Þegar Hitler samdi *Mein Kampf*, hafði honum gleymst alheimurinn. Stjörnurnar þýddu ekki annað en tákn sem spámenn hans lásu úr um forlög Foringjans. Nú var hann farinn að óra fyrir því, að þessi jarðar-kringla er að eins eitt lítið sandkorn í samanburði við alheiminn; dægurfluga, miðað við hið eilífa skapandi líf tilverunnar. Eitthvað höfðu stjörnufræðingar getið til um líf á öðrum hnöttum. Því ekki leggja aðra plánetu undir sig?

Þrímenningarnir höfðu tök á öllum auð og orkulindum jarðarinnar. Á degi hverjum gerðust ný og ný kraftaverk á svæði vísindanna, og það sem mestu varðaði, vísindamennirnir voru ætíð þæg verkfæri í höndum valdhafanna, hverir sem þeir kunnu að vera. — Löghlýðnir borgarar eins og bestu Íslendingar í Ameríku voru á sinni tíð.

Um alt þetta þinguðu sigurvegararnir.

Þá hringdi síminn. Hitler bar heyrnartólið að eyranu og hlustaði stundarkorn. "Sendið þá strax inn," skipaði hann í símann og lagði tólið frá sér. Síðan sneri hann sér að keisurunum (Mussolini hét ekki lengur *Duce*, heldur *Hinn Nýi Cæsar*) og höfðu þeir ekki séð slíkan eld í augum Foringjans síðan hann hafði skipað fyrir um blóðbaðið mikla í Ameríku. Hann stóð upp, barði í borðið og brýndi röddina.

"Þá hefir grunað hvers þeir mega vænta af oss. Sendinefnd frá tveimur ríkjum krefst fundar við oss. Á vorum hnetti er aðeins eitt ríki — mitt ríki". — Þá hóstaði Hirohito en Mussolini ræskti sig. Hitler leit reiðulega til þeirra og hélt áfram ræðu sinni. "Það er ekkert spursmál hverju vér svörum þessum dónum. Hverskonar mál sem þeir kunna að flytja er svarið, stríð! Eg er fyrir löngu leiður braski þeirra Von Papens og Ribbentrops. Eg einn svara fyrir heiminn. Þessi nefnd er frá öðrum hnetti. Gott og vel. Vér látum taka þá til fanga, og pína þá til sagna um hvernig öllu hagar til hjá þeim heima fyrir. Verkfræðingar vorir og vísindamenn skoða flutningstæki þeirra. Síðan setjum vér í gang allar verksmiðjurnar sem nú standa aðgerðalausar, og

látum framleiða öll farartæki og morðvélar sem vísindum og verkfræði þykir nauðsynleg til fullkomins sigurs."

Mussolini glápti hugfanginn á Foringjann, en Hirohito strauk um ennið eins og hann svimaði.

Þá var drepið á dyrnar, og risavaxinn Nasi lauk upp hurðinni.

"Heil Hitler!" heilsaði hann og sperti fram arminn. "Með leyfi, sendinefndin frá dýra- og jurtaríkjunum." Og inn komu lamb, dúfa, froskur og kálhöfuð.

Og heimsdrotnarnir, sem samið höfðu við mestu stjórnmálamenn veraldarinnar alt frá Chamberlain sáluga í Birmingham til Stalins gamla í Moskva, stóðu nú orðlausir og ráðþrota af undrun og — smán.

Lambið jarmaði, dinglaði dindlinum og gerði ögn á gólfið. Dúfan flaug fram og aftur um salinn og reyndi hvern gluggann eftir annan til að komast út. Kálhöfuðið velti vöngum. En froskurinn sat á hækjum sínum og horfði beint á þrímenningana alla í senn.

Þá tók lambið til jarms. "Vér höfum verið send á yðar fund til að mótmæla, í nafni allra dýra og jurta, athæfi yðar: að leyfa kenslu í lífeðlisfræði í skólum þrælaríkis yðar. — Samkvæmt þeim kenslubókum sem þér notið er maðurinn skepna og heyrir til dýraríkinu — er einn hlekkur í óslitinni keðju jarðlífsins. Þessu mótmælum vér öll og getum með engu móti liðið að mennirnir telji sig í ætt við oss. Eru aparnir sérstaklega reiðir þessari kenningu og tilbúnir að segja yður stríð á hendur, ef ekki er aðgert. Því förum vér fram á að þér, háu herrar, breytið breytiþróunar kenningunni, eða útilokið hana úr skólunum."

Nú varð dauðaþögn í salnum. Kálhöfuðið kinkaði kolli til samþykkis. Dúfan hafði hætt öllum tilraunum að komast út og kúrði út í horni. En froskurinn virtist hafa dáleitt sigurvegarana, því það var ekki fyr en hann gaf af sér smá-skræk, að Hitler rankaði við sér. En hann lét sem hann sæi ekki sendinefndina. Hann leit illúðlega til keisaranna og virtist beina máli sínu til ósýnilegra áheyrenda. "Eg hefi sigrað allan heiminn með visku minni og viljaþreki. Hvað eru allar success-sögur Bandaríkjamanna bornar saman við ævisögu mína. Og nú þegar þið, ómennin, sitjað hvumsa og ráðþrota, sé eg — eg einn leið út úr því sem þið haldið að sé vandræði. Eg sé nýja styrjöld fyrir hendi. Nýjan lokasigur. Já, nú fyrst gefst mér tækifæri til að fremja algert stríð — total krieg." Nú brýndi Hitler röddina.

"Eg sem hefi yfirunnið alt mannkynið! Hví skyldi eg líða ósvífni skynlausra skepna, auðvirðilegra kvikinda og lítt lífrænna jurta? Ekki svo að skilja að eg geti ekki umturnað lífeðlisfræðinni, eða breytiþróunar kenningunni eða hverjum öðrum bábiljum sem Ley er farinn að láta troða í herralýð vorn. En slíkt er ekki vilji minn. Því skipa eg, Foringinn, svo fyrir, að alt þetta rusl sé afmáð af jörðunni!"

Nú var eins og keisararnir vöknuðu af draumi.

"Er það ekki hættulegt?" spurði Mussolini auðmjúklega.

"Að mínu áliti er þetta óframkvæmanlegt," hvíslaði Hirohito.

Nú brann eldur úr augum Hitlers. "Hættulegt!" æpti hann. "Varst það ekki þú, Benito, sem hélst því fram að lífið væri þeim einskis virði sem ekki væri í sífeldri hættu? Og hver dirfist að efast um möguleika til framkvæmda á nokkru því, sem eg tekst á hendur? Þú! Dirfist þú þess, þú guli sólar sonur?"

Hirohito klóraði sér bak við eyrað og hristi höfuðið; en Mussolini varð afar ólíkur Cæsar.

Þá varð Hitler litið á lambið. Andlit hans afskræmdist. "Út með þessi endemi!" æpti hann. Og hurðarnasinn, sem hafði staðið í sömu sporum með útspertan arminn, varð feginn að fá að hreyfa sig.

"Heil Hitler!" heilsaði Nasinn og tók að smala nefndinni að dyrunum. — En dúfan reyndist dauð.

Þegar dyrunum var lokað hóf Foringinn ræðu sína á ný. "Eg skipa svo fyrir að þetta smánarlega rusl sem sótt hefir að oss sé drepið og eyðilagt á svipstundu sem tákn þess sem á eftir fer. Og skal alt ríkið hefjast handa til að gjöreyðileggja alt líf dýra og jurta á jörðunni." Og rödd Foringjans varð eins og sterkur nauta-kór. "Hugsa sér að eg, Foringinn, hefi mátt hlusta á storkandi lambs-jarm, einmitt þegar eg átti von á að bjóða sendiherrum frá annari plánetu byrginn." Og nú greip ákafur grátur Foringjann. En keisararnir sátu ráðalausir og þögulir. Ekki um annað að gera en bíða þess að honum létti gráturinn, svo hann gæti gefið þeim skipanir um undirbúning til hinnar nýju styrjaldar.

Að lokum sljákkaði ekkinn, en þá óx Hitler bræðin. "Eg, eg!" öskraði hann. "Að hafa verið ávarpaður af skynlausum skepnum! Hvar er Goering? Hvar er Ley? Hvar er Goebbels? Hvar er Ribbentrop? Og hvar í helvítinu er Hess? Eru þeir allir á fylliríi? Eða eru þeir í kvennafari við einhverja strákskratta?" Og nú var Foringinn orðinn svo æstur að hann kastaði sér flötum á gólfið, krafsaði með höndunum og nagaði gólfdúkinn.

"Mein Feuhrer! Mein Feuhrer!" stundu keisararnir.

"Úkk! Úkk," korraði í Foringjanum, því hann hafði fullan hálsinn af tætlum úr gólfdúknum. En keisararnir skildu að hann var að vísa þeim á dyr, og þóttust sleppa vel að þurfa ekki lengur að horfa upp á harmkvæli Foringjans . . . . .

(Eins og gefur að skilja er enginn kominn til að segja frá því hvernig Hitler tókst að eyðileggja alt líf dýra og jurta á jörðu hér. En ýmsar spurningar vakna í hugum þeirra sem fylgdust með sögunni frá því hann fyrst braust til valda. Þeir sáu hverir lögðu honum vopn og völd í hönd. Og allir kannast við kunnáttu, þrautseigju og siðferðislegt ábyrgðarleysi iðnhölda, auðkýfinga og vísindamanna. Ætli þeir hafi ekki tekið á því sem þeir áttu til í þjónustu Foringjans? . . .)

Nú höfðu þeir Hitler, Hirohito og Mussolini ekki aðeins sigrað mannheim allan, heldur einnig alt líf dýra og jurta. Það eina lífsmark sem eftir var á öllu jarðríki voru þrjár hungurmorða mannhræður sem

engdust sundur og saman af sulti. Þeir lágu í svörtu moldarflagi og sleiktu leirinn. Hefði nokkur verið viðstaddur til að hlusta á andlátsorð hinnar miklu þrenningar hefði hann eflaust heyrt þessar hátíðlegu og einlægu bænir:

*Mussolini:* Ó eina litla lambasteik!

*Hirohito:* Steikta dúfu — eða þó ekki sé nema eitt froskslær!

*Hitler:* Eina einustu munntuggu af káli!

*Athugasemd:* Allir hundar sem ganga á fjórum fótum eru einlæglega beðnir afsökunar á fyrirsögn þessarar fantasíu.—Höf.



# Skammdegi

Eftir Richard Beck

Snemma gengur sól til sængur,
sekkur land í næturhaf;
blikar þó, sem bros á hvarmi,
bjart í vestri roðatraf;
þorradegi brúna-bleikum
blæðir út í húmsins kaf.

Mjallarsilfri hrannað hauður
hjúpast rökkurs dularblæ;
þagnarheimur fanna' og frera
frosnum líkist dauðasæ;
skuggar eins og svipir svífa,
svörtum vængjum, yfir snæ.

Kaldri hendi vetrarvindur
verpir skýjum tungli frá;
gegnum rofið gægjast stjörnur,
geislum krystal-skærum strá,
baða himins hvítagulli
hrími stirnda jarðarbrá.

Ein í fjarska áin niðar,
orpin þungri klakaspöng,
líkt og heitur hjartasláttur
hljómi gegnum myrkrin löng;
ómar þar og yndi glæðir
undirspil af vorsins söng.

# Íslandsvinurinn C. Venn Pilcher og þýðingar hans

Eftir prófessor Richard Beck

Í hinni merkilegu og snjöllu ritgerð sinni um "Samhengið í íslenskum bókmentum" (*Íslensk Lestrarbók,* 1924) ræðir dr. Sigurður Nordal meðal annars um endurvakningu fornfræðaiðkana Íslendinga undir aldamótin 1600 og um kynni erlendra fræðimanna af þeim fræðum fram að þeim tíma. Falla honum þar orð á þessa leið: "En síðan urðu margir þeirra mikilsverðir hvatamenn íslenskrar vísindastarfsemi, því að hér fór sem oftar, að erlend aðdáun kendi þjóðinni betur að meta eigin eign sína."



Mér er næst að halda, að erlend aðdáun geti ennþá kent ýmsum Íslendingum, beggja megin hafsins, bæði að skilja og meta betur vora sérstæðu og auðgu menningararfleifð. Þar er auðvitað ekki átt við málamynda-skjall útlendra manna í garð vorn og þjóðar vorrar, heldur við samúðar- og skilningsrík ummæli lærðra manna og viturra af erlendum stofni, sem af einskærri ást og aðdáun á Íslandi, sögu þess og menningu, hafa lagt í það mikið og óeigingjarnt starf að kynna land vort og bókmentir með heimaþjóð sinni eða öðrum þjóðum. Dómur slíkra manna — og nöfn þeirra skifta tugum — um bókmentir vorar og menningarerfðir er hin æskilegasta staðfesting á gildi þeirra, því að vart verða þeir útlendingar, sem hér er um að ræða, sakaðir um þröngsýnan þjóðernishroka eða forfeðradýrkun. Enda er það mála sannast, að sá Íslendingur, er "úr skrítnum steini", sem ekki réttist ögn í baki við að lesa það, sem margir hinir ágætustu og fjölmentuðustu menn erlendir hafa um Ísland og menningu þess ritað.

Í hinum stóra og virðulega hóp erlendra afbragðs- og lærdómsmanna, sem unnið hafa varanleg merkisverk í þá átt að kynna Ísland og túlka bókmentir þess og menningu út um hinn víðfeðma enskumælandi heim, skipar dr. C. Venn Pilcher, biskup í Ástralíu, heiðursrúm; og jafnframt sérstöðu, því að hann hefir fyrstur manna, svo talist geti, tekið sér fyrir hendur að fræða enskumælandi þjóðir, og aðra þá hina mörgu, sem enska tungu lesa og skilja, um trúarljóð vor Íslendinga og aðrar bókmentir vorar á því sviði, með hinum

vönduðu og oft snildarlegu þýðingum sínum. Er það því meir en maklegt, að þessari fræðslustarfsemi hans í vora þágu sé lýst fyrir íslenskum lesendum með nokkuð samfeldara hætti en verið hefir fram að þessu.

Verður þá að gömlum íslenskum sið byrjað með því að segja nokkur deili á dr. Pilcher sjálfum og síðan gerð grein fyrir því, með hvaða hætti hugur hans dróst að Íslandi og Íslendingum, og sagt frá kynnum hans af þeim.

## I.

Hann heitir fullu nafni Charles Venn Pilcher og er fæddur í hinum sögufræga og fagra háskólabæ Oxford á Englandi árið 1879, en faðir hans, séra Francis Pilcher, var prestur við St. Clements kirkjuna þar í bæ. Hann er því af góðum ættum kominn og ólst upp í hinu ágætasta umhverfi, bæði að því er snerti sjálft heimili hans og fæðingarbæ, því að ekki þarf mörgum orðum að því að eyða, hver menningarandi svífur yfir vötnum í Oxford.

Snemma var Pilcher einnig settur til menta, eins og vænta mátti. Stundaði hann fyrst nám á Charterhouse School og síðan á Hertford College í Oxford háskóla, og voru fornmálin, heimspeki, fornaldarsaga og guðfræði aðalnámsgreinar hans. Hann lauk stúdentsprófi (B.A.) 1902, meistaraprófi (M.A.) 1905 og guðfræðiprófi (B.D.) 1909, en doktor í guðfræði (D.D.) varð hann 1921.

Til Canada fluttist hann árið 1906 og gerðist háskólakennari í guðfræði við Wycliffe College í Toronto; jafnframt var hann á Toronto-árum sínum einn af prestum St. James dómkirkju þar í borg. Starfaði hann þar um 30 ára skeið, eða fram til ársins 1936, er hann varð aðstoðarbiskup (Bishop-Coadjutor) Biskupakirkjunnar ensku í Sydney í Ástralíu, og skipar framvegis þann leiðtogasess og virðingar. Ævistarf hans hefir því sýnilega fallið í mjög beinan farveg og fært honum í fang verðskulduð laun trúrrar og ávaxtaríkrar starfsemi í þarfir kirkju og kristni.

Skal nú frá því greint, hvernig hugur dr. Pilchers laðaðist að Íslandi. Segir hann sjálfur (í bréfi til mín 22. ágúst 1941), að lexíur í landafræði, sem móðir hans kendi honum í æsku, hafi beint huga hans að Íslandi, enda tileinkar hann henni fyrstu Passíusálmaþýðingar sínar (1913) með þessum orðum: "Til móður minnar, sem fyrst kendi mér söguna um krossinn og vakti hjá mér áhuga á íslenskri þjóð". En íslenska tungu kveðst hann hafa farið að læra 15 ára gamall; nam hann hana af sjálfsdáðum, nema hvað hann naut einhverrar bréflegrar tilsagnar í henni hjá dr. Jóni Bjarnasyni og nokkurrar beinnar fræðslu; er hann heimsótti þau dr. Jón og frú Láru í Winnipeg 1912 og átti stutta dvöl á heimili þeirra. Mintist hann heimsóknarinnar og þeirra hjóna með djúpu þakklæti í fyrnefndu bréfi sínu. Fer hann þar einnig fögrum orðum um aðra íslenska vini sína vestan hafs, sérstaklega dr. Björn B. Jónsson og séra Rúnólf Marteinsson.

Lengi hafði dr. Pilcher þráð að heimsækja Ísland, einkum lék hon-

um mikill hugur á því að koma á þær stöðvar, þar sem séra Hallgrímur Pétursson ól aldur sinn, þjáðist og sigraðist á þrautum sínum og orti sín ódauðlegu trúarljóð. Sá draumur dr. Pilchers rættist sumarið 1921, er hann gat farið stutta ferð til Íslands; dvaldi hann þar í gestvináttu þeirra cand. theol. Sigurbjörns Á. Gíslasonar og frú Guðrúnar, og ber hann þeim hið besta söguna, sem og landi og þjóð í heild sinni. En um komu hans til Reykjavíkur hefir Sigurbjörn sagt þessa skemtilegu sögu, og varpar hún hreint ekki ómerkilegu ljósi á dr. Pilcher sjálfan, skapgerð hans og hugðarefni:

"Morguninn sem hann kom til Reykjavíkur af skipsfjöl, spurði sá, sem þetta ritar, hvort hann vildi hvíla sig fyrsta daginn á Íslandi eða skoða sig um í höfuðstað Íslands. Prófessorinn svaraði: "Eg vil hvorugt. Eg er kominn til Íslands til að sjá Saurbæ á Hvalfjarðarströnd og vil komast þangað í dag, ef nokkur fæst til að flytja mig." — Það tókst. Við fórum í mótorbát inn í Hvalfjörð, alla leið að Geirshólma. Fengum ágætar viðtökur hjá séra Einari Thorlacius, og prófessorinn fór aftur með marga góða minningu, eins og hann mintist á í formálanum að Passíusálmaþýðingu sinni frá 1923 — og síðan oft í bréfum sínum". (*Vísir*, 24. janúar 1936).

Ekki er það heldur ofsögum sagt, að dr. Pilcher hafi talið sig vera mun ríkari eftir Íslandsförina; út af endurminningum sínum um hana yrkir hann hið fegursta ljóð ("Icelandic Memories"), þrungið heitri ást og aðdáun á landi og þjóð. Er kvæði þetta prentað framan við þýðingasafn hans úr Passíusálmunum, er út kom 1923. Hefir höfundi auðsjáanlega fundist sögunnar himinn nálægur, er hann ferðaðist um fræga sögustaði lands vors, og jafn opin hafa augu hans verið fyrir stórbrotinni fegurð þess og sérkennileik.

Dr. Pilcher prédikaði í Dómkirkjunni í Reykjavík og var Ólafía Jóhannsdóttir túlkur hans. Munu þau kynni hafa orðið til þess, að hann sneri seinna á ensku frásögn úr bók hennar *'Aumastir allra'*. Kom sú þýðing ("The Waiting Shadow") fyrst út í tímaritinu *The Public Health Journal of Canada* 1926, en var síðar prentuð í bókarformi í Bandaríkjunum (The Demarest Book Concern, Norfolk, Virginia).

Verður dr. Pilcher tíðrætt um Íslandsferðina og íslenska vini sína í ofannefndu bréfi til mín. Meðal annars segir hann: "Árið sem leið hlotnaðist mér sú ánægja að kynnast ungfrú Maríu Markan, sem flutti með sér yndislegan íslenskan blæ til Ástralíu."

Hefir þá nóg sagt verið því til sönnunar, hvern hlýhug dr. Pilcher ber til lands vors og þjóðar. Þó skiftir það mestu máli, að sá góðhugur hans hefir fundið sér framrás í merkum verkum og nytsömum, er aflað hafa Íslandi vina og virðingar út um lönd.

## II.

Oss Íslendingum verður að vonum starsýnt á hinar fornu bókmentir vorar, því að þær hafa skapað þjóð vorri mesta víðfrægð allra afreka hennar. Hitt skyldi oss eigi gleymast, að Ísland á einnig merki-

legar síðari alda bókmentir. Leit er t .d. á snildarlegri eða andríkari trúarljóðum heldur en Passíusálmum Hallgríms Péturssonar, "er svo vel söng, að sólin skein í gegnum dauðans göng". Og ennþá færa brennheit bænarmál hans svölun þreyttum sálum. Nútíðarmaðurinn, jafnvel sá, sem enga samleið á með séra Hallgrími í trúmálum, fær eigi annað en dáð snildina í sálmum hans. Þeir eru ekki rýr þáttur bókmentaarfleifðar vorrar. Eða svo sýnist dr. Nordal, því að hann segir í æviágripi séra Hallgríms í *Lesbók* sinni: "Fegurstu sálmar hans bera af öllum íslenskum trúarljóðum fyrr og síðar að andhita, líkingaauðgi og spaklegri hugsun."

Það sætir þá lítilli furðu, að þessir trúarheitu og andríku sálmar fundu bergmál í brjósti jafn einlægs trúmanns og dr. Pilcher áreiðanlega er, eigi síður en lærður guðfræðingur. Þýðingar hans úr Passíusálmunum bera því vitni, að þær eru gerðar með þeirri alúð og nærfærni, sem eiga rætur sínar í rótgróinni ást á viðfangsefninu. Sama máli gegnir um aðrar þýðingar hans af andlegum ljóðum íslenskum.

Fyrsta þýðingasafn hans af því tagi kom út í Lundúnum 1913 og nefndist: *The Passion-Hymns of Iceland* (Being Translations from the Passionhymns of Hallgrim Petursson and from the Hymns of the Modern Icelandic Hymn Book). Hér var því um að ræða þýðingaúrval íslenskra trúarljóða, alls 32 sýnishorn þeirra, eftir sjö íslensk sálmaskáld frá ýmsum tímum. En flestar voru þýðingarnar úr Passíusálmunum og af sálmum eftir séra Valdimar Briem. Hér var þó eigi að finna nema brot úr Passíusálmunum. Eru þær þýðingar, sem aðrar í safninu, vandvirknislega af hendi leystar, en þýðandi hefir tekið þann kost að breyta oftast til um bragarhætti frumsálmanna, og glata þeir við það upprunalegum svip og hreim sínum.

Reyndin er einnig sú, að Dr. Pilcher tekst best í þessum þýðingum sínum, þegar hann heldur bragarhætti frumtextans, eins og t. d. í versinu alkunna: "Krossferli' að fylgja þínum", og í sálmum séra Valdimars, sem telja mun mega jafnbest þýdda í safni þessu. Ekki er heldur neitt klaufa-handbragð á þeim fjórum versum, sem hér eru þýdd ūr útfararsálminum "Alt eins og blómstrið eina". Þýðingin á versinu "Eg lifi í Jesú nafni", sem allir eldri Íslendingar kunna, er gott dæmi þess:

Thus in Christ's name I'm living;
Thus in Christ's name I'll die;
I'll fear not though life's vigour
From Death's cold shadow fly.
O grave, where is thy triumph?
O Death, where is thy sting?
"Come when thou wilt, and welcome!"
Secure in Christ I sing.

Um þær þýðingar dr. Pilchers fór dr. Jón Bjarnason þessum orðum í ritdómi í *Sameiningunni* (Apríl, 1913): "Sumt í versunum úr sálminum "Alt eins og blómstrið eina," sem hér liggur fyrir oss þýtt á ensku, er fullkomnara en í þýðing Eiríks Magnússonar, og er þá mikið sagt, því sjálfir höfum vér talið þýðingu Eiríks heitins meistaraverk,

— en þessi ummæli vor nú má þó hæglega rökstyðja.”

Dr. Pilcher fylgdi þessu þýðingasafni úr hlaði með gagnorðri og mjög hugþekkri ritgerð um séra Hallgrím Pétursson og sögu íslensks sálmaskáldskapar. Þessi réttorða og glögga frásögn ber það með sér, að hann hefir bygt á góðum heimildum (Smbr. formála hans). Biskupinn af Durham, dr. H. C. G. Moule, ritaði og nokkur formáls-orð, er sýna það ljóslega, að hann hefir hrifist af þessum þýðingum; anda orð hans miklum hlýleik til Íslands, enda segir hann, að það hafi heillað sig frá því snemma á æskuárum sínum.

Í ummælum sínum um þýðingasafn þetta, er fyr var vitnað til, segir séra Jón Bjarnason ennfremur: “Eitthvað af þýðingum þessum kemst væntanlega inn í enskan kirkjusöng. Og verður þá mörgum skiljanlegt, að ekki svo lítið er það í þjóðernislegum arfi vorum, Íslendinga, sem oss er með guðs hjálp vert að leggja rækt við og halda í dauðahaldi.”

Hinum vitra manni og mikla Íslending mæltist hér spámannlega, því að eg hefi það eftir ágætum heimildum, að þýðingunum hafi verið tekið með fögnuði af hinum dómbærustu mönnum í þeim efnum, og að þýðandanum hafi borist tilmæli allar götur frá Suður-Ameríku um leyfi til upptöku sumra sálmaþýðinganna í enska sálmabók, sem þá var verið að gefa út suður þar (Smbr. ritdóm dr. Björns B. Jónssonar, *Sameiningin*, maí, 1921).

Viðleitni dr. Pilchers hafði því hreint ekki með öllu fallið í grýtta jörð, enda lét hann hér ekki staðar numið. Kom út eftir hann nýtt og aukið þýðingasafn úr Passíusálmunum í Toronto 1921, *Meditations on the Cross*, sem vakti eftirtekt og hlaut ágæta dóma. Tveim árum síðar birtist þriðja og aðalsafn slíkra þýðinga hans, *Icelandic Meditations on the Passion*, gefið út af hinu merka útgáfufélagi Longmans’ Green and Co., í New York. Er það falleg bók að ytra búningi og allstór. Eigi eru hér þó allir Passíusálmarnir í enskri þýðingu, heldur úrval úr 31 sálmi, og er niðurröðun þýðinganna hagað þannig til, að nota megi þær við daglegar guðræknis-iðkanir í heimahúsum.

Margt var vel um hinar fyrri Passíusálmaþýðingar dr. Pilchers, en þó bera hinar síðari mjög af þeim eldri um nákvæmni og skáldlist, enda er hér víða hreinn snildarbragur á verki þýðandans. Skilningur hans á íslensku máli gegnir furðu, þegar þess er gætt, að hann nam það nærri tilsagnarlaust, eins og fyrr er drepið á. Hann hefir lifað sig inn í anda og hugblæ hins íslenska sálmaskálds og snillings og hann hefir nauðsynlegt vald á ensku sálmamáli til þess að klæða íslensku sálmana í hæfan og samsvarandi búning máls og mynda.

Áður en þetta síðasta og stærsta þýðingasafn hans úr Passíusálmunum kom út, hafði dr. Pilcher farið ferð þá til Íslands, sem að framan var lýst, og má vafalaust fullyrða, að sú ferð, ekki síst heimsóknin að Saurbæ, hafi verið honum hvatning til framhaldandi þýðinga úr Passíusálmunum. Ennfremur segir hann í formálanum að þessu safni, að

skömmu fyrir andlát sitt hafi frú Lára Bjarnason sent sér gamalt eintak af Passíusálmunum, og hafi það hvatt sig til að halda þýðingaverkinu áfram. Er það vel, að hann lét eigi það verk niður falla, jafn prýðisvel og það er af hendi leyst.

Fylgir hann nú trúlega bragarháttum frumsálmanna (nema að litlu leyti í 48. sálminum) og halda þeir merkilega vel hinum íslenska blæ sínum í þýðingunni, svo sem þessi meistaralega þýðing á versunum úr 12. sálminum ("Pétur þar sat í sal"), og mun flestum lesendum innan handar að gera samanburð á þeim og frumtextanum:

And then the Saviour turned,
On Peter gazing—
A look divine, that yearned
With love amazing.

Swiftly to Peter's face
The shame came leaping;
He had denied such grace,
And went forth weeping.

Lord Jesus, look on me,
Thy kind face turning;
My soul with agony
Of sin is burning.

The way is long, I find
My weak steps falling:
O turn, to my dark mind
Thy grace recalling.

Oft, oft with contrite eyes
I gaze to heaven;
Then, at Thy look, arise
In tears, forgiven.

Ágæta vel samin og mjög til skilningsauka á séra Hallgrími Péturssyni sem skáldi og manni er inngangsritgerð dr. Pilchers um hann; er hún breytt og aukin frá því sem var í fyrsta þýðingasafninu og ber þess glögg merki, hve mikið höfundurinn hefir grætt á Íslandsferðinni. Pílagrímsförin að Saurbæ hefir birt honum séra Hallgrím í skýrara ljósi og hlutverk hans með íslenskri þjóð.

III.

Það er því augljóst mál, að dr. Pilcher hefir tekið sérstöku ástfóstri við trúarljóð vor og andlegar bókmentir frá síðari tímum. En hann hefir eigi látið þar við lenda; hann hefir einnig lagt rækt við helgikvæði vor frá fyrri öldum, og þá sérstaklega það þeirra, sem réttilega hefir talið verið eitt hið merkilegasta og fegursta trúarkvæði, sem vér Íslendingar eigum: "Sólarljóð".

Helgiljóð þetta, sem fræðimenn telja vera frá 12. öld, eða þar um bil, er ágætt dæmi þess, hvernig "kristilegt efni fór í sömu fötin sem konungalofið og gamlar goðsögur", eins og Sigurður skólameistari Guðmundsson orðar það heppilega í *Bókmentasögu* sinni (1915). En prófessor Björn M. Olsen, sem ítarlegast og best hefir rannsakað þetta merkiskvæði og um það ritað (*Sólarljóð*, gefin út með skýringum og athugasemdum, 1915), lýsir efni þess og stöðu í bókmentum vorum á þessa leið: "Í Sólarljóðum tekur kirkjan Eddukveðskapinn í þjónustu sína, því að sólarljóð eru kristilegt Eddukvæði, kristileg Hávamál, og hefir kvæðið því ekki alveg ófyrirsynju verið tekið inn í Eddukvæðaútgáfur."

Eitt er víst, að hér er um að ræða mikla gersemi í bókmentum vorum, hvort sem litið er á kvæðið frá sögu-

legu eða trúarlegu sjónarmiði. Þetta hefir dr. Pilcher eigi dulist, og því hefir hann með fágætri nákvæmni og í heild sinni af mikilli snild snúið meginmáli "Sólarljóða" á enska tungu, þeim hluta þeirra, sem eru sýnir eða draumvitranir, meðal annars hinum fagra vísnakafla, er hefst á orðunum "Sól ek sá", og kvæðið dregur nafn af. Hefir hann stuðst við ágætar heimildir, svo sem hið prýðilega rit dr. Olsens, er að ofan var nefnt. Kom þýðingin fyrst út, undir fyrirsögninni "An Icelandic Divine Comedy", í tímaritinu *The Canadian Journal of Religious Thought* (Nóvember-desember heftinu, 1924), en var síðan endurprentað í bók þýðandans: *The Hereafter in Jewish and Christian Thought* (London, 1940).

Í fræðimannlegri og skáldlegri inngangsritgerð rekur dr. Pilcher sögu bæði suðrænna og norrænna helgiljóða frá miðöldum, sér í lagi hinna síðarnefndu, og leiðir rök að því, að "Sólarljóð" séu bæði athyglisverður og verðugur fyrirrennari mesta og stórbrotnasta snildarverksins í þeim bókmentum: *Divine Commedia* Dantes hins ítalska. Er hér bæði af staðgóðri þekkingu og með glöggum skilningi rætt um skyldleika "Sólarljóða" við höfuðfornkvæði vor úr heiðnum sið, "Völuspá" og "Hávamál", og túlkað efni "Sólarljóða" sjálfra í ljósi trúarskoðana miðaldanna. Þykir þýðanda myndir þær, sem þar er brugðið upp, bæði átakanlegar og áhrifamiklar, og bera merki síns norræna uppruna eigi síður en sinnar aldar. Fjarri fer einnig, að hann sé einn um þá skoðun. Prófessor Finnur Jónsson ,sem ekki voru töm öfgamæli í dómum sínum, segir í *Bókmentasögu* sinni (1904—1905): — "Kvæðið er siðferðisleg þrumuræða til mannkynsins og er ort af lifandi tilfinningu og miklu hugsjónaafli."

"Sólarljóð" eru ort undir ljóðahætti inum forna, og heldur dr. Pilcher þeim bragarhætti í þýðingunni; svipur hennar verður og íslenskari fyrir það, að víða er jafnframt haldið stuðlum og höfuðstöfum. Þrátt fyrir það, er enskan á þýðinguni óvenjulega mjúk og blæfalleg. Má því segja, að í henni haldist vel í hendur andríki og nákvæmni, bæði í máli og hugsun. — Fylgja hér nokkur dæmi því til sönnunar:

Lust and pride
Cheat the children of men,
Mad for mammon.
Shining silver
Bringeth to long grief;
Wealth hath brought many to woe.

Vil ok dul
tælir virða sonu,
þás fíkjast á fé;
ljósir aurar
verða at löngum trega,
margan hefr auðr apat.

★

The sun I saw,
True star of day,
Set in this noisy world.
Behind I heard
The gate of Hel
Clang heavily.

Sól ek sá,
sanna dagstjörnu,
drjúpa dynheimum í,
en heljar grind
heyrðak annan veg
þjóta þunglega.

Þýðingin er í þrem köflum: Dauðinn, Helvíti og Himnaríki, og svo lokaorð: Bænin. Tekst þýðanda ekki síst upp í þeim kröftuga hluta kvæðisins, er lýsir refsingum þeim, er bíða ranglátra handan grafar:

Men saw I then
Who much nourish
Envy of others' good hap.
Runes of blood
Upon their breast
Were graven painfully.

Men saw I then
Who many had robbed
Of chattels and life.
Through their breasts
Strong snakes
Shot stings of poison.

★

Menn sák þá,
es mjök ala
öfund of annars hagi;
blóðgar rúnir
váru á brjósti þeim
merkðar meinliga.

Menn sák þá,
es margan höfðu
fé ok fjörvi rænt;
brjóst í gegnum
rendu brögnum þeim
öflgir eitrdrekar.

Rúm leyfir eigi að taka upp fleiri dæmi þess, hversu vandlega og prýðilega þýðing þessi er af hendi leyst, enda mun þess eigi þörf. Hitt munu flestir mæla, að eigi verði þar auðveldlega um bætt, svo vel er þar jafnaðarlega með efni farið.

Inngangsritgerð dr. Pilchers að "Sólarljóða"-þýðingu hans og þýðingin sjálf eru talandi vottur þess, að hann hefir kynt sér rækilega íslenskar fornbókmentir eigi síður en hinar nýrri, og hins, sem enn meira er um vert, að hann hefir lært að skilja kjarna þeirrar lífsskoðunar, sem er hinn djúpi undirstraumur þeirra. Þetta kemur þó enn betur fram í hinni fögru og efnismiklu ritgerð hans um hetju-hugsjón norrænna manna eins og hún lýsir sér í íslenskum bókmentum ("The Norse Heroic Ideal in Icelandic Literature"), er kom út í *Árbók* Jóns Bjarnasonar skóla 1936. Endurminningarnar úr Íslandsferðinni verða höfundi á ný efstar í huga, og líkt og séra Matthías valdi sér útsýn af Tindastóli, er hann orti sinn mikilúðuga lofsöng um Skagafjörð, byrjar dr. Pilcher þessa túlkun sína á norrænum hetjuhug með því að ganga á sjónarhól upp á hlíðarnar fyrir ofan Hlíðarenda og lýsa þeirri sýn, sem honum bar fyrir sjónir, er hann stóð þar ógleymanlegt ágústkvöld. Af þeim sjónarhól verður honum svo greiður vegur að leiða lesandann við hönd sér inn í heima sögu Íslands og fornsagnanna. Er það skemst frá að segja, að hér er með sjaldgæfu innsæi lýst lífsskoðun norrænna manna, eins og hún kemur fram í Eddukvæðunum og fornsögunum. Ritgerð þessi er þessvegna hinn hollasti lestur hverjum þeim af vorum stofni, sem fræðast vill um lífspeki sinna fornu feðra, en margt má enn af henni læra.

★

Fyrir nokkru síðan sýndi Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi dr. Pilcher þann eina sóma, sem það á yfir að ráða, gerði hann að heiðursfélaga sínum. Fer hann

nýlega um það svofeldum orðum í bréfi til höfundar þessarar greinar: "I think it a great honour to be a Fellow of the Icelandic National League of America. I value very highly all my relations with Icelandic people and studies". (Eg tel það mikinn sóma að vera heiðursfélagi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Eg met mjög mikils kynni mín af Íslendingum og íslenskum fræðum). Þetta er vel mælt og drengilega, en hitt dylst vitanlega engum, að það erum vér Íslendingarnir, sem stöndum í hinni mestu þakklætisskuld við dr. Pilcher fyrir það, hve dyggilega og ágætlega hann hefir að því unnið að víkka landnám íslenskra bókmenta og gera garð vorn frægan.

---

## J. M. B. hálf-áttræður



Á þessu ári (1942) varð hinn vinsæli skáldsagnahöfundur, Jóhann Magnús Bjarnason, sjötíu og fimm ára.

Fyrir fimm árum, þegar hann varð sjötugur, heimsóttu nokkrir vinir hans hann, sem umboðsmenn stærra vinahóps, als þorra Vestur-Íslendinga, og sýndu honum þá lítilsháttar vott um, hversu hlýjan blett hann hefir eignast í hugum vorum og hjörtum.

Myndina af þeim hjónum tók sá, er þetta ritar, undir alblómguðum runna sunnan við heimili þeirra í Elfros, Sask., og er sú skársta, sem til er að dreifa.

Ekki er oss kunnugt um, hvort margment hefir verið í kring um þau þennan síðastliðna afmælisdag, en það vitum vér með vissu, að hlýhugir margra hafa verið í kringum þau.

Afmælisósk Tímaritsins kemur nokkuð seint — en eigi að síður er hún sögð af einlægum huga.

# Eyvindur

Eftir J. Magnús Bjarnason

Meðal þeirra einhleypu, íslensku manna, sem fluttust til Nýja-Skotlands á árunum 1874 til 1882, var unglingsmaður, sem hét Eyvindur. Nafn föður hans heyrði eg aldrei, en hann tók sér nafnið *Atli*, sem viðurnefni, eftir að hann fluttist vestur um haf; eg heyrði sagt, að afi hans (eða langafi) hafi heitið Atli. — Um Eyvind hefi eg harla fátt til að segja, því að eg kyntist honum mjög lítið, og hann var aðeins tæp tvö ár í Nýja-Skotlandi. Hann kom beina leið frá Íslandi til íslensku nýlendunnar á Elgsheiðum snemma í ágústmánuði 1878. Um leið komu fjórar fjölskyldur íslenskar að heiman og settust að í nýlendunni. Tvær af þeim fjölskyldum voru af Suðurlandi, og tvær af Austfjörðum. En eg veit ekki, hvaðan af Íslandi Eyvindur var ættaður. Hann var víst ekki skyldur neinu af því fólki, sem kom til nýlendunnar það sumar, þótt hann yrði því samferða til·Vesturheims.

Eyvindur mun hafa verið tvítugur að aldri, eða tæplega það, þegar hann kom að heiman. Hann var meðalmaður á hæð, en fremur grannvaxinn. Hann var jarpur á hár og móeygður og heldur fríður sýnum, háttprúður og stillilegur; og eg man, að fólk sagði, að hann væri góður og greindur piltur, og að hann mundi komast vel áfram í þessu landi. — Hann var aðeins tvo eða þrjá daga um kyrt í nýlendunni. Fór hann þá að leita sér atvinnu. Honum var ráðlagt, að komast í vinnu annaðhvort í námubænum Tangier, (sem var um 30 mílur frá nýlendunni), eða þá hjá bændum í Musquodoboit-dalnum, þar sem kornuppskeran var í þann veginn að byrja. Og lét hann í ljós, að sér mundi betur falla, að vera vinnumaður á góðu bóndabýli heldur en daglaunamaður í námu. Var honum þá fylgt ofan í Musquodoboit-héraðið og reynt að fá atvinnu handa honum hjá hinum efnaðri bændum þar. En það gekk mjög treglega.

Að lokum var honum fylgt til bónda, sem Balfour hét. Það hafði oft gefist vel, að leita hans, þegar Íslendingar þurftu að fá atvinnu. Balfour var af skoskum ættum, og var um fimtugt, þegar saga þessi gerðist. Hann var höfðinglegur sýnum og mikils metinn af öllum, sem kyntust honum. Öllum þeim Íslendingum, sem bjuggu á Elgsheiðum, var mjög hlýtt til hans, því að hann reyndist þeim sem sannur vinur. Fyrsta árið, sem þeir voru þar á hálsunum, leiðbeindi hann þeim á margan hátt, einkum að því, sem að akuryrkju og garðrækt laut. Og hann kom til nýlendunnar vor og haust öll þau ár, sem þeir voru þar, og liðsinti þeim að svo miklu leyti, sem honum var mögulegt. Og margir höfðu mikið gagn af leiðbeiningu hans og ráðleggingum.

Balfour bjó í dal þeim, sem Íslendingar kölluðu Hlynviðardal og er afdalur austur úr Musquodoboit-

dalnum og skerst inn í Elgsheiðarnar. Þar var fögur og blómleg bygð á þeim árum, sem Íslendingar bjuggu á Elgsheiðum. Eftir dalnum rennur í ótal bugðum all-straumhörð á, sem Íslendingar kölluðu Mylnu-læk, af því að þar í dalsbotninum voru tvær dálitlar mylnur. Önnur þeirra var sögunarmylna, en hin malaði korn. Báðum megin við ána eru góð engjalönd, en uppi í hlíðunum voru íveruhúsin og hinar löngu hlöður, sem voru á flestum bújörðum þar austur við hafið á þeim árum. Býlin í þessum fagra dal (Hlynviðardal) voru ellefu, ef eg man rétt. Í kringum hvert hús var stór runnur af eplatrjám. Í hlíðum dalsins voru stórir matjurtagarðar, og þar voru líka korn-akrar, því að bændurnir í dalnum ræktuðu hafra, bygg og bókhveiti. — Hús Balfours stóð hærra í hlíð en hin húsin í Hlynviðardal, og þaðan sást til allra heimilanna í dalnum. Land hans náði alla leið frá ánni og upp á nyrðri dalsbrúnina.

Balfour tók Eyvindi mjög vel, og kvaðst ekki efa það, að hann gæti fengið eitthvað að starfa hjá bændum þar í nágrenninu. Sagðist hann vera fús til að fara með honum á fund þeirra og leggja honum liðsyrði. Og hann sagði, að á meðan Eyvindur fengi ekki vist, væri honum velkomið að vera hjá sér. Tók Eyvindur feginsamlega boði hans, og varð þar eftir; en maður sá, er hafði fylgt honum þangað, fór daginn eftir austur til nýlendunnar.

Og Eyvindur vann við uppskeruna hjá tveimur bændum í Hlynviðardal, þá um haustið. Hann komst fljótt á það, að beita sigðinni, og þótti góðvirkur og mikilvirkur kornskurðarmaður. Og um veturinn var hann til heimilis hjá Balfour og undi þar vel hag sínum. Balfour og kona hans voru honum eins og bestu foreldrar. Þau hjón áttu tvo syni, var annar þeirra tólf ára gamall, en hinn á fimtánda ári, þegar Eyvindur kom þangað, og urðu þeir strax mjög hændir að honum, og var það vafalaust að miklu leyti þeim að þakka, hvað hann var fljótur að læra að tala ensku.

Svo kom Eyvindur til nýlendunnar á Elgsheiðum á milli jóla og nýárs, til þess að sækja koffort, sem hann átti þar, og var eldri drengur Balfours með honum. Og aftur kom Eyvindur sem snöggvast til nýlendunnar um páskana (árið 1879). Heyrði hann þá, að nýlendubúar voru fastráðnir í því, að flytja sig burtu af Elgsheiðum, eins fljótt og auðið yrði, og taka sér bólfestu vestur í Rauðárdalnum. Vildi hann þá líka fara vestur, og einsetti sér að innvinna sér þá um sumarið svo mikið fé, að hann gæti lagt af stað fyrir veturnætur.

Sagði hann Balfour frá fyrirætlun sinni, og varð það til þess, að Balfour útvegaði honum vist hjá nágranna sínum, Lang að nafni, sem var gildur bóndi. Átti Eyvindur að vinna hjá Lang í þrjá mánuði (júlí, ágúst og september), og var kaupið, auk fæðis, fimtán dollarar um mánuðinn. Og fór Eyvindur í þá vist í júlímánaðar-byrjun.

Um sama leyti fór eg, sem vikadrengur, til Langs og átti að vera þar þangað til að skólinn í nýlendunni byrjaði um haustið. Eg var þá

þrettán ára gamall, og búinn að vera næstum fjögur ár í Nýja-Skotlandi.

Og nú kyntist eg Eyvindi ofurlítið og varð undir eins vel til hans. Við vorum oft saman, einkum á meðan heyskapurinn stóð yfir, og kornið var skorið upp. Eyvindur var ævinlega glaður og viðmótsþýður, og hann sagði mér marga skemtilega smásögu, og lét mig heyra margar fallegar vísur. Hann mintist oft á Balfour og konu hans, og kvaðst hann vera í stórri þakkarskuld við þau, því að þau hefðu verið sér svo alúðleg og velviljuð. Hann talaði líka oft um það, hvað synir þeirra hefðu verið sér góðir. Og á hverjum einasta sunnudegi, á meðan hann var vinnumaður hjá Lang, gekk hann yfir í hús Balfours-hjónanna og var þar jafnan góða stund í hvert sinn.

"Eg vil kalla hann Baldur — Baldur hinn góða," sagði Eyvindur á stundum, þegar hann mintist á Balfour, "því að hann vill öllum gott gjöra, og allir virðast unna honum hugástum."

Lang, húsbóndi okkar, var vænsti karl, iðjumaður mikill og útsjónarsamur. Hann hafði mesta rausnarbú, og hann var járnsmiður og var löngum í smiðjunni. Honum líkaði vel við Eyvind og þótti hann duglegur, en kallaði hann ævinlega dreng (*lad*), og sagði, að það yrði einhverntíma maður úr honum.

Þegar heyskap á bújörð Langs var að mestu lokið og heyið komið inn í hlöðuna, bað Eyvindur um að mega búa um sig í hlöðunni og sofa þar um nætur, því að þar væri svalara en inni í íveruhúsinu. Og var honum leyft það, þó að fólki Langs þætti það næsta kynlegt, að hann skyldi heldur vilja sofa úti í heyhlöðu en í góðu rúmi í stóru herbergi uppi á lofti í húsinu.

Það var einn morgun, þegar kornuppskeran í dalnum var rétt í þann veginn að byrja, að Lang kom til okkar Eyvindar, þar sem við vorum að gjöra við girðinguna, sem var í kringum heima-hagana.

"Hefirðu tekið eftir því, drengur," sagði hann við Eyvind, "að byggakurinn hans Balfours, vinar okkar, er að verða bleikur, og að bókhveitið hans er fullþroskað? Og eg fæ ekki betur séð, en að hann sé þegar byrjaður að skera upp bókhveitið. Eða hvað sýnist þér, drengur?"

Og Lang benti í áttina til búgarðsins hans Balfours.

Þar uppi á dalsbrúninni var allstór akur-rein. Og sást það glögt, þaðan sem við vorum, að þar var kornskurður þegar byrjaður. — Á þeim árum var alt korn skorið upp með sigðum í Hlynviðardal og á Elgsheiðum. Bygg- og hafrabindinin voru bundin með stráinu, og kornið var þreskt með þústi (flail) í hlöðunni, þegar fram á haustið kom. En bókhveitið var ekki bundið; það var reist upp í smáhrauka úti á akrinum og kornið barið þar af hálminum með þreski-þústi.

Eyvindur horfði um stund í áttina til Balfours-búgarðsins. Þangað var næstum míla frá okkur.

"Eg sé að bygg-akurinn er að verða bleikur," sagði hann, "og eg tók líka eftir því, þegar eg gekk þangað yfir um í gær."

"Vinur okkar, hann Balfour, er mikill og góður búmaður," sagði Lang; "hann á besta akurinn, sem

til er í þessum dal; hann er jafnan fyrstur til að sá bygginu og bókhveitinu á vorin, og fyrstur til að skera það upp á haustin. Og nú verður hann á undan okkur, eins og vant er. Sérðu ekki bókhveitishraukana í vestur-horni akursins?"

"Eg sé það ekki glögt," sagði Eyvindur og bar höndin fyrir augun.

"Sérðu það ekki, drengur, að það er verið að skera þar upp bókhveitið?"

"Það má vel vera, að svo sé," sagði Eyvindur.

"Þeir eru tveir, sem eru þar að skera kornið — að líkindum drengirnir hans Balfours — og eg sé, að það glampar á sigðirnar þeirra. — Sérðu það ekki, drengur?"

"Jú, mér sýnist þar vera einhver hreyfing," sagði Eyvindur.

"Jæja, drengir!" sagði Lang. "Í bítið á morgun verðum við að byrja að skera upp bókhveitið á akrinum mínum hérna í hlíðinni. Við verðum að láta hendur standa fram úr ermum, ef við viljum ekki verða langt á eftir vini okkar, honum Balfour. Hans akur er þó að stórum mun stærri en okkar."

Það var á mánudagsmorgun, sem Lang sagði þetta við okkur. Á þriðjudagsmorguninn snemma byrjuðum við Eyvindur að skera bókhveitið á akri Langs. Og kom Lang sjálfur til okkar um dagmálaskeiðið og hélt á beittri sigð. Hann var þá búinn að vera í smiðju sinni frá því um miðjan morgun.

"Vini okkar, honum Balfour, hefir drjúgum miðað áfram síðan í gærmorgun," sagði Lang við Eyvind. "Horfðu austur í hlíðina, drengur! Þeir eru búnir að skera bókhveitið á allri spildunni fyrir vestan göngustíginn."

Eyvindur leit upp og horfði austur í hlíðina.

"Svo er það!" sagði hann og hélt áfram við verk sitt.

"Í þessari þurkatíð er hætt við, að bókhveitið hrynji af stönglinum, ef það er ekki skorið strax og það er fullþroskað," sagði Lang; "og þetta veit vinur okkar, hann Balfour. Við verðum að fylgja hans góða eftirdæmi og ljúka við að skera alt kornið á þessum teig okkar áður en vikan er öll."

Og allan þann dag unnum við allir af kappi við kornskurðinn. En enginn okkar var eins afkastamikill og Eyvindur.

Á miðvikudagsmorguninn kom Lang út á akurinn til okkar öllu fyr en daginn áður, og það var töluverður asi á honum, að okkur virtist.

"Nú er okkur ekki til setunnar boðið," sagði hann við Eyvind. "Vinur okkar, hann Balfour, er altaf að færast í aukana. Með þessu áframhaldi verður hann búinn með akurteig sinn fyrir næstu helgi. Og þó eru ekki nema tveir, sem vinna á akri hans: að líkindum Balfour sjálfur og eldri drengurinn hans. Horfðu austur þangað, drengur, og vittu, hvort þú kemur auga á fleiri en tvo menn þar á akrinum."

Eyvindur horfði austur og sagði:

"Eg sé þar aðeins tvo menn."

"Og þeir tveir menn eru sannar hamhleypur við kornskurðinn," sagði Lang og tók til starfa og var mikilvirkur.

Við unnum af kappi þann dag, alt til kvölds. Og mér virtist Eyvindur ennþá duglegri en daginn áður.

Á fimtudagsmorgunn fórum við Eyvindur út á akurinn með fyrra móti, og kom Lang á eftir okkur stuttu síðar. Hann fékk okkur nýjar, hárbeittar sigðir, og sagði við Eyvind:

"Nú er gagn að sigðirnar bíta, því að við verðum að sýna rögg af okkur í dag við kornskurðinn. Það er undir hælinn lagt, að við verðum búnir með okkar litla akur jafnsnemma sem vinur okkar, hann Balfour, með sinn stóra akur. En heyrðu, drengur, sýnist þér ekki, að það vera drengir Balfours, sem eru á akrinum hans í dag?"

"Eg sé þar tvo menn," sagði Eyvindur, "og annar þeirra er vafalaust Balfour sjálfur."

"Eg efa það," sagði Lang. "Í morgun sýndist mér hann vera á ferð í kringum akurinn sinn. En þegar hann var að ganga heim að húsinu, komu tveir menn á móti honum og fóru út á akurinn. Þeir voru bersýnilega mikið minni vexti en hann.'"

"Einmitt það!" sagði Eyvindur.

"Það hafa verið drengir hans," sagði Lang.

"Einmitt það!" sagði Eyvindur lágt.

Og svo tókum við til starfa á ný og unnum rösklega alt til sólarlags, en hvíldum okkur samt rúman klukkutíma um hádegið.

Á föstudagsmorguninn byrjuðum við Eyvindur að vinna fyr en vanalega, og þá gekk Lang út á akurinn með okkur, og hafði hann brýnt allar sigðirnar litlu áður.

"Það dregur nú heldur sundur en saman með okkur og drengjunum hans Balfour," sagði Lang og leit austur til hlíðarinnar; "sjálfsagt hefir vinur okkar, hann Balfour, verið úti á akrinum sínum í alla nótt og unnið af kappi, því að nú er fult tungl og nóttin björt, eins og um hádag. Og Balfour veit það vel, að í þessari þurkatíð er betra að skera bókhveitið um nætur en um daga."

"Það má vel vera, að svo sé," sagði Eyvindur.

Og allan þann dag unnum við rösklega. Um kvöldið, þegar við hættum, var aðeins lítil spilda eftir af bókhveitis-akri Langs.

"Okkur hefir miðað vel áfram með verkið í dag," sagði Lang, "og við ljúkum við það, sem eftir er, um hádegið á morgun, að öllu forfallalausu. En Balfour-drengir eru líka næstum búnir með sinn bókhveitisakur. Hann er örlítill bletturinn, sem þeir eiga eftir. Þeir ljúka við hann efalaust löngu fyrir miðjan dag á morgun, og verða á undan okkur."

Við horfðum austur til hlíðarinnar og sáum, því að skygni var gott, að það var mjög lítið eftir óskorið af bókhveiti á akri Balfours.

"Þeir byrjuðu heilum degi á undan okkur," sagði Eyvindur.

"Satt er það, drengur," sagði Lang; "en þeirra akur er að stórum mun stærri en okkar akur."

Svo kom laugardagur, og þá fórum við Eyvindur út á akurinn öllu fyr en daginn áður. Lang kom til okkar stuttu síðar og var nú ofurlítið kímileitur.

"Jæja, drengur!" sagði hann við Eyvind. "Nú er það komið í ljós, að það er eins og eg gat til, að vinur okkar, hann Balfour, hefir unnið að því á hverri nóttu, alla þessa viku,

að skera akur sinn, og hefir nú lokið við bókhveitið. Sér er nú hver ákafinn! — Líttu austur í hlíðina, drengur, líttu austur!"

Það var eins og hann sagði: bókhveitis-akur Balfours var þegar skorinn, og því verki hafði verið lokið þá um nóttina.

"Svo er það!" sagði Eyvindur glaðlega. "Þeir hafa orðið á undan okkur, drengirnir!"

"Já, drengirnir og faðir þeirra," sagði Lang; "þar var vissulega við ramman reip að draga."

Nokkru fyrir hádegið vorum við búnir að skera bókhveitis-akur Langs. Og eftir miðjan daginn lukum við Eyvindur við verk það, sem við höfðum hætt við á mánudagskvöldið.

Á laugardagskvöldið komu tveir bændur úr nágrenninu, til þess að tala við Lang. Þeir sögðu honum, að Balfour væri veikur og væri búinn að liggja rúmfastur að mestu í heila viku, eða lengur, og væri enn þungt haldinn.

"Hvernig víkur þessu við?" sagði Lang. "Hefir hann ekki verið að skera akur sinn alla þessa viku?"

"Nei," sagði annar gesturinn; "en drengirnir hans byrjuðu á mánudagsmorguninn að skera bókhveitið, og þeir luku því verki í morgun. En nú er eftir að skera byggið og hafrana og þreskja bókhveitið, og ættum við nágrannar hans, að veita honum lið, nú strax eftir helgina."

"Á eg að trúa því," sagði Lang, "að drengirnir hans Balfours hafi einir saman skorið alt bókhveitið hans á fimm dögum? Hefir ekki einhver rétt þeim hjálparhönd?"

"Balfours-hjónin sögðu okkur í dag," sagði hinn gesturinn, að drengirnir hefðu orðið þess varir, nokkra morgna, að einhver góður maður hefði verið á akrinum á nóttunni og skorið bókhveitið á allstórum bletti."

"Hver gat sá góði maður hafa verið?" sagði Lang.

"Hjónin segjast ekki hafa hina minstu hugmynd um, hver það hafi verið," sagði gesturinn; "en við getum þess til, að það hafi verið annaðhvort hann Macpherson, svili Balfours, eða hann Sutherland, tengdabróðir hans. Þeir báðir eru næstu nágrannar hans að austan."

"Þetta er nokkuð undarlegt!" sagði Lang.

Svo var ekki meira um það talað í það skiftið. En á mánudaginn (og eins á þriðjudag og miðvikudag) var maður frá hverju einasta heimili í Hlynviðardal að skera upp hafrana og byggið á búgarði Balfours. Og sóttist það verk fljótt. Sumir skáru kornið, sumir bundu, og sumir þresktu bókhveitið og fluttu það inn í kornbyrðuna í hlöðunni. Ekki var Lang, húsbóndi minn, þar sjálfur, en hann bað Eyvind að vinna þar fyrir sig í þrjá daga. Og þótti öllum, sem þar voru, Eyvindur vera frábærlega duglegur verkmaður.

Um nokkurn tíma á eftir, heyrði eg fólk vera að giska á það, hver hann hefði verið, sem vann á bókhveitis-akri Balfours um nætur. Gátu flestir þess til, að það hefði verið Macpherson, eða Sutherland, eða þeir báðir. En "oft verður villur sá er geta skal," segir máltækið, og munu flestir, eða allir, í Hlynviðardal hafa getið rangt til um það.

Auðvitað sagðist Lang hafa allglögga hugmynd um það, en hann sagði ekki, hver hún væri.

Og eg hafði líka mína hugmynd um það. Eg tók eftir því einn morgun, þegar við vorum að skera upp bókhveitið á akri Langs, að Eyvindur hafði fingurtraf á vinstri hendi, og þóttist eg vita, að hann hefði skorið sig á sigðinni í fingur. En daginn áður hafði eg ekki tekið eftir því, að hann hefði fingurtraf, eða hefði meitt sig í fingri. — Það var oft hætt við því, að menn skæru sig í fingurna á vinstri hendi, þegar þeir voru að skera korn í miklum flýti.

"Það hefir verið *þú*," sagði eg við Eyvind einu sinni, þegar talað var um hinn dularfulla mann, sem skar akur Balfours á nóttunni.

"Hvaða vitleysa!" sagði Eyvindur ofurlítið byrstur.

Og eg áræddi aldrei framar að minnast á þetta við hann.

Eg fór heim til nýlendunnar á Elgsheiðum um miðjan septembermánuð; og eftir það kom eg aldrei í Hlynviðardal.

Eyvindur fór ekki vestur til Winnipeg, það haust, eins og hann hafði þó ráðgert. Hann vann hjá Lang til jóla, og fór svo aftur til Balfourshjónanna og var hjá þeim þangað til í maí 1880, að hann fluttist vestur í Rauðárdalinn.

Eg sá Balfour síðast, haustið 1880. Hann kom þá til nýlendunnar, eins og hann var vanur að gjöra vor og haust. Eg heyrði hann minnast á Eyvind við einn bóndann í nýlendunni, og var auðheyrt á orðum hans, að honum var vel til Eyvindar. Eg man glögt, að hann sagði:

"Að mínu áliti er Eyvindur Atli hógvært og drenglundað ungmenni. Og sé honum gjört eitthvað gott, fyllist hjarta hans innilegri þakklátsemi. En honum finst það ekki nóg, að láta þakklæti sitt í ljós með orðunum eingöngu. Hann þarf einnig að sýna það þegjandi í verki."

Þegar eg kom til Winnipeg í júnímánuði 1882, var Eyvindur farinn þaðan fyrir skömmu og kominn langt suður í Bandaríki. Eftir það heyrði eg hans sjaldan getið. Ef hann er enn á lífi, er hann rúmlega hálf-níræður að aldri.



# Landið hennar mömmu

Eftir Steingrím Arason

**Tileinkað þeim, sem elska Ísland, en ekki hafa séð það.**

---

Landið hennar mömmu mér verður kært,
um það hef eg ótalmargt af henni lært.

Minningin um draumalandið dýrðlega frítt
Leiddi helgan anda yfir andlitið blítt.

Hún var komin ung inn í ættjarðar vor,
æskudrauma minning þar geymdi hvert spor.



Sagði hún mér, að sólin þar sæist um nætur.
Henni gylta silkisæng sauma ægisdætur.

Dýrðin er svo draumahýr, að dalablómið grætur.

Landið klæðir gullofið guðvefjarskrúð.
Hátt bera þau höfuðin háfjöllin prúð.

Hærra ber þó svananna sólbjarta lið—
svífa þeir til heiða með samræman klið.

Hulduþjóð í hamraborg heldur aftansöng.
Heilög eru síðkvöldin sólbjört og löng.

Hæðir standa í loga, himinn og haf.
Margar ættjörð myndir minninu gaf.



Frásögnin var frábær, fögur og góð.
Hugfangin við sátum hlustandi hljóð.

Sáum við hún sá inn í sólfagra dýrð
unað, sem með orðunum ei verður skýrð.

Horfðum við í augun, himnesk og blá,
öðluðumst svo skygni, og eins máttum sjá

Helgidóminn insta, sem ár fá ei breytt,
þann sem æskuættjörðin ein getur veitt.

# Friðrik Sveinsson

**1864—1942**

Eftir Dr. Sig. Júl. Jóhannesson

*Engar sárar undir blæða—*
*Ævi lokið—vaxtað pund—*
*Hér er ekki um hrygð að ræða:—*
*Hér er glaðvær kveðjustund.*



Þegar eg kom til Winnipeg árið 1899, mætti eg gömlum vini, Ásmundi Björnssyni frá Svarfhóli; eg átti heima hjá foreldrum hans um alllangt skeið. Ásmundur var gáfaður maður og ágætlega hagorður. Hann kynti mig hér ýmsum "löndum", og lýsti þeim öllum að einhverju leyti, áður en eg mætti þeim:

"Nú ætla eg með þig á heimili, þar sem húsbóndinn er listrænasti maðurinn meðal Vestur-Íslendinga, og húsfreyjan gáfaðasta konan, sem við eigum." Þetta sagði hann við mig kveld eitt, þegar við lögðum af stað í heimsókn á 3—4 heimili.

Það var Friðrik Sveinsson og Sigríður kona hans, sem hann lýsti þannig.

Þegar við komum að heimili þeirra Sveinsson hjóna, mælti Ásmundur á þessa leið: "Hérna göngum við nú hiklaust inn; hér ber enginn að dyrum; hér eru allri eins og heima hjá sér."

Um leið og hann sagði þetta, lauk hann upp hurðinni og gekk rakleiðis inn; eg fylgdi honum. Okkur var tekið tveim höndum, og sátum við þar langt fram á nótt, ekki við öl né spil, heldur við samræður, sem voru einkennilega margbreyttar, og hefi eg sjaldan átt skemtilegri kveldstund.

Konan var mikil vexti og fríð sýnum, kát og eldfjörug; þuldi hún utanbókar löng kvæði eftir Þorstein Erlingsson, Guðmund Guðmundsson, Stephán G., Einar Benediktsson og fleiri. Og hér var um engan páfagauks lærdóm að ræða; áhersla og blæbrigði í framburði lýstu fylsta skilningi á öllu, sem þulið var. Eg hlustaði steinhissa á þennan óþrjótandi straum lærðra ljóða. Eg sannfærðist fljótt um það, að Ásmundur hafði ekki vilst langt frá sannleikanum, þegar hann lýsti húsmóðurinni á þessu heimili; hér var um óvenjulega gáfaða konu að ræða.

Að vexti og vallarsýn voru þau

hjónin ólík. Húsbóndinn var ekki meira en meðalmaður á hæð og sérlega grannur; hann var enginn fríðleiksmaður; nefið var stórt og kinnbeinin há; augun voru blágrá, djúp og tindruðu af eldfjöri; svo virtist stundum sem hann gæti beitt þeim til þess að horfa inst inn í hugskot þess, er hann talaði við. Hann var óvenjulega yfirlitsbjartur, svipurinn hreinn og vingjarnlegur.

Margt bar á góma þetta kveld, því auk þess, hversu létt þeim hjónum var um tungutakið, var Ásmundur einnig sérlega ræðinn maður og skilningsgóður á opinber mál.

Eftir þessa kveldstund var eg daglegur heimagangur hjá þeim hjónum, svo árum skifti. Þar kyntist eg nokkru síðar Stefáni Thorson; þeir voru aldavinir, hann og Friðrik, og urðum við allir þrír mjög nánir kunningjar — ekki altaf allir á sömu skoðun, en þó lágu okkar andlegu slóðir í flestu nálægt hver annari. Var það fyrir tillögur Friðriks og stuðning Stefáns, að eg byrjaði að gefa út blaðið "Dagskrá", og vorum við allir þrír í ritstjórnarnefnd, en William Anderson (Guðmundur Björnsson) faðir Victors Andersons bæjarráðsfulltrúa, var ráðsmaður blaðsins. Friðrik var einnig fyrsti hvatamaður til þess, að stofnað var jafnaðarmannafélag meðal Vestur-Íslendinga árið 1901; var hann öflugur starfs- og stuðningsmaður þess þau 3—4 ár, sem það lifði. Hann var eindreginn jafnaðarmaður í skoðunum, þótt hann lengstum fylgdi Liberal-flokknum.

Friðrik var frábærlega félagslyndur maður og ósérhlífinn, þegar um það var að ræða, að leggja fram starf og krafta fyrir góðan málstað. Við lát hans fórust ritstjóra Heimskringlu orð á þessa leið:

"Friðrik Sveinsson var fluggáfaður maður og svo félagslyndur, að þar munu fáir jafningjar hans finnast. Hefir ef til vill enginn Íslendingur tekið þátt í fleiri félagsstofnunum hér vestra en hann. Meðal þeirra félaga, sem hann átti beinan þátt í að stofna, má minnast þessara: "Hins fyrst íslenska Únítara safnaðar" í Winnipeg 1891; "Helga magra" klúbbs Eyfirðinga 1902; "Þjóðræknisfélags Íslendinga" 1919; "Jafnaðarmannafélags Íslendinga" 1901. Auk þess hafði hann árum saman starfað í Íslendingadagsnefndum; var ritari Únítara safnaðarins í 25 ár og ávalt mikill stuðningsmaður íslenskra leikfélaga. Friðrik var sólginn í allan fróðleik og kynti sér rækilega þær stefnur, sem efstar voru á baugi í það og það skiftið, bæði í trúmálum og stjórnmálum. Hann athugaði rækilega hvert nýtt mál, var fús á að kynnast þeim frá öllum hliðum; þegar hann hafði gert það, og sannfærst um sannleiksgildi þeirra, beitti hann sér fyrst fyrir þau, en fyr ekki.

Þrátt fyrir það þótt Friðrik gæfi ekki eftir þegar til baráttu kom, óx aldrei hatur til hans hjá andstæðingunum. Hann hafði ævinlega gnægð skemtilegra umtalsefna og vakti með því líf og fjör á mannamótum; gleymdist, að minsta kosti þá stundina, flokksrígurinn, sem á fyrri árum var hér svo gróðursæll í hugartúnum Íslendinga. Það var því ekki sökum þess, að hann slæi af skoðunum sínum, að hann naut víðtækari vinsælda en flestir aðrir, heldur

vegna hins frjóa andlega lífs, er hann átti í svo ríkum mæli."

Hér er svo rétt og satt sagt frá að eg vildi gera þessi orð að mínum eigin orðum ef eg mætti.

Auk þeirrar félagsmála starfsemi Friðriks, sem að ofan er getið, ætti það ekki að gleymast að hann var um langt skeið starfandi í Goodtemplara félaginu; skipaði þar æðstu sæti í stúkum og embætti í stórstúkunni.

Hann sat um nokkur ár í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins; og á sjötugasta aldursári var hann kjörinn heiðursfélagi þess.

Friðrik var lærður lyfjafræðingur, en honum hefir víst þótt það starf dauft og tilbreytingasnautt; hann undi sér ekki við stöðuga kyrsetu innan fjögurra veggja — hafði ekki geðsmuni til þess að vera fugl í búri; hann lærði því listamálningu og vann að henni alla ævi. Hann var frábærlega listfengur; teiknaði og málaði alls konar myndir, og mátti segja um hann, eins og Símon dalaskáld kvað forðum:

"Dró upp njörður hringa hýr
himinn, jörð og sjóinn."

Fjöldi íslenskra heimila er skreyttur málverkum eftir hann, ýmist af mönnum, bæjum eða héruðum. Sum leiktjöld hans eru sannnefnd listaverk, eins og t. d. "Álfheimar" í "Nýársnóttinni".

Með fáum undantekningum málaði hann öll leiktjöld Vestur-Íslendinga; eru þau fjölda mörg alls, og sum þeirra meistaraverk, sem ættu að geymast, en ekki glatast.

Friðrik var óvenjulega mörgum og miklum gáfum gæddur: hann var sjálfstæður og stefnufastur, en jafnframt þýður og sanngjarn; hann gat fúslega tekið höndum saman við hvern sem var, þar sem skoðanir þeirra mættust, þrátt fyrir það þótt hann væri andstæður þeim á öðrum svæðum. Framkoma hans heima jafnt sem á mannamótum stjórnaðist af sjaldgæfri prúðmensku. Hann var fluggáfaður maður, skilningsskarpur og rökfastur; hann sá glögt það, sem hlægilegt var og hafði gaman af því, þrátt fyrir það, að hann var hinn mesti alvörumaður. Hann var sérlega félagslyndur og gleðimaður mikill í orðsins fylstu og bestu merkingu. Þrátt fyrir það, þótt hann væri kominn fast að áttræðisaldri hélt hann öllum sínum hæfileikum, andlegum jafnt sem líkamlegum; hvar sem hann sást á gangi, jafnvel allra síðustu árin, gekk hann hratt og fjörlega — hljóp oft við fót.

Friðrik Sveinsson fylgdist flestum Íslendingum betur með öllu, sem að einhverju leyti var mentandi eða fræðandi; hann sótti allar samkomur, sem honum var mögulegt, þar sem eitthvað nýtt var á ferðinni, og alla merkustu sjónleika.

Þ. Þ. Þorsteinsson rithöfundur hefir bent mér á ummæli um föður Friðriks látinn. Þau birtust í Norðanfara 2. ágúst 1869 og eru þannig:

"Sveinn sál. var ágætlega gáfaður og vel að sér, smiður og bókbindari, skrifaði og stílaði manna best, enda mun amtmanni Hafstein hafa þótt Sveinn í stöðu sinni eiga fáa sína jafnoka, eigi aðeins hér á landi heldur einnig erlendis. Hann var líka einn hinn vandvirkasti og reglusam-

asti maður í öllum störfum sínum; hinn hreinlátasti og pössunarsamasti siðavandur, háttprúður, vandaður og glaðlyndur. Hann hafði mikla ánægju af söng og hljóðfæraslætti og lék ágæta vel á fiðlu, langspil og harmóníku. Fegurðartilfinning hans og smekkur lýstu sér og hvarvetna í smáu og stóru."

Þeir sem þektu Friðrik þekkja hér nálega orðrétta lýsing af honum; hefir því eplið hér ekki fallið langt frá eikinni. Sínum andlegu hæfileikum eins og þeim líkamlegu hélt Friðrik til síðustu stundar; sál hans var jafn heilbrigð, jafn björt og jafn lifandi seinasta daginn sem hann lifði og hún hafði verið allan hans aldur.

Friðrik Sveinsson var fæddur 4. nóvember 1864 að Möðruvöllum í Hörgárdal. Foreldrar hans voru þau Sveinn Þórarinsson amtsskrifari og umboðsmaður og Sigríður kona hans Jónsdóttir frá Vogum við Mývatn. Sveinn var sonur Þórarins bónda í Kílakoti, Þórarinssonar bónda að Víkingavatni í Kelduhverfi, Pálssonar bónda þar, Arngrímssonar sýslumanns að Stóru Laugum, Hrólfssonar sýslumanns að Grýtubakka, Sigurðssonar sýslumanns að Víðimýri í Skagafirði, Hrólfssonar sterka lögréttumanns að Álfgeirsvöllum.

Sigríður móðir Friðriks var systir Jóns Jónssonar óðalsbónda í Vogum, var hann fjölhæfur gáfumaður. Sigríður flutti til Canada 1876, að manni sínum látnum, og giftist þar í annað sinni William Taylor, bróður John Taylors, þess er best reyndist Íslendingum, er þeir fluttu norður, og fyrstu ár þeirra hér nyrðra. Var William með bróður sínum í þeim ferðum og við þau störf. Sigríður var þriðja kona Taylors. Hún lést í Winnipeg 31. mars 1910.

Friðrik átti sjö systkini, eitt þeirra er séra Jón, kaþólskur prestur, heimskunnur fræðimaður og rithöfundur. Systir þeirra, Sigríður Guðlaug, var yngst; hún kom hingað vestur og andaðist í Bellingham, Washington 1916.

Friðrik var alinn upp hjá hinum merka manni Ólafi Ólafssyni frænda sínum frá Espihóli í Eyjafirði og Ólöfu Jónsdóttur frá Lóni í Kelduhverfi. Með þeim fluttist hann vestur 1873. Var Friðrik hjá fóstru sinni í Milwaukee meðan Ólafur var í för norður til Alaska í landkönnunarerindum. Árið 1875 fluttist hann með þeim til Nýja Íslands, fjórum árum síðar til Norður Dakota og eftir nokkurra ára dvöl þar til Winnipeg, þar sem hann dvaldi alla ævi eftir það.

Friðrik var kvæntur Sigríði Laxdal Jónsdóttur, var hún dóttir Jóns Laxdals albróður Þorgríms Laxdals, er vestur flutti; var Sigríður ekkja er þau áttust. Hún var fluggáfuð kona og atkvæðimikil — látin fyrir nokkrum árum. Þau hjón eignuðust fimm dætur: Áróru, sem dó 14 ára; Ólöfu, konu Allan Jóhannessonar bróður Konna Jóhannessonar flugkennara; Rannveigu Sigríði, sem giftist dráttlistamanni C. Thorson, bróður J. T. Thorson dómara; Elínu, gifta George Cronn og Nönnu, Mrs. E. Bowers.

Friðrik Sveinsson andaðist 25. maí 1942, klukkan ellefu að kveldinu. Hann var staddur í Goodtemplarahúsinu á Frónsfundi; hafði hann

tekið fullan þátt í öllum skemtunum, sem þar fóru fram eins og hann var vanur. Hann leiddi danskonuna út á gólfið, glaður og brosandi, dansaði með fullu fjöri eins og ungur maður, leiddi hana til sætis aftur að dansinum loknum, hneigði sig með sinni venjulegu kurteisi og hneig niður — örendur.

Þetta er táknrænasti dauði, sem eg hefi heyrt getið um. — Svona ættu allir að deyja. —

*Hún smækkar óðum, okkar litla sveit,*
*hún ennþá leggur barn í kaldan reit;*
*í þögn og lotning hneigir höfuð sitt,*
*því hér í landi framtíð vor er stytt*
*við burtför eins vors allra besta manns—*
*og enginn til að skipa sætið hans.*



## "Hvítbláinn"

**Eftir Jakob J. Norman**

Blævar "Hvítbláinn" krýndur
Yfir kistunni hans.
Vaki heili "og hjarta"
Yfir hamingju manns:
Hún er gjald sem að gildir
Hverri gróinda þjóð,
Hún mun "lífgeisla" laða
Og í lifandi blóð.

Kyndir himinn um hrím-fjöll
Þetta hugsjóna-bál:
Sem að "Hvítbláinn" kunni
Fyrst að klæða í mál—
Risu "Hrannir" og "Hafblik"
Undir himninum þar:
Sem að "Hvítbláinn" blævar
Yfir bygðum og mar.

Ofar heimskauta-himni
Og á hrímfjalla-slóð,
Þar sem "lífgeislar" leitast
Við að "lífmagna" þjóð:
Þá var "Hvítbláinn" klæddur
Fyrir kjarnvala-mál,
Upp í heiðbláma himins,
Inn í hrímtára-bál.

# Hrossabresturinn

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson

I.

Vilhjálmur Vagn sýpur á aftur. Hann þrýstir tappanum niður í stútinn. Stingur flöskunni ofan í kistilinn og lítur um leið á hrossabrestinn. Læsir.

Blessaður King George fjórði! Alt af jafn ósvikinn undir kórónunni og gullna miðanum. "God save our gracious King". Verst að hann er hættur að fjörga og lífga eins og í gamla daga. Lífið er aðeins fyrir þá ungu. Það var ekki ætlað gömlum mönnum. Dauðinn átti að sjá um það. En svo svíkur hann skyldu sína, fyrri en þá seint og síðar meir. Það er aldar andinn. Allir reyna að tolla í tískunni. Hann líka.

Einu sinni var líf í landi. Þá var lífið og landið ungt. Þá var Vilhjálmur lífið og sálin í hinni nýju sóldýrkun landanna. — Sól og sviti, vinna og vonir, fagnandi framtíð. Hann var landið. Ungt blóð. Ung mold. Líkami og sál og King George rann saman í langa hláturskviðu. Hjartnæma. Sæla. Hún tók öllum hljómkviðum fram.

Nú er hann ekki lengur stórbóndinn mikli í Grundarbygð. Eigandi fjögurra jarða. *A whole section.* Og þar fyrir utan ýmsir smáskeklar.

Þegar bænda-*búmm* stríðsáranna, 1914—1918, stóð sem hæst, seldi hann allar eignir sínar í sveitinni með miklum hagnaði. Honum finst að stríðið hafi gert heiminn hálfvitlausan. Alla nema sig. Hann einn heldur við það gamla og heilbrigða eins og það var í góðan aldarfjórðung fyrir þetta vitlausa stríð. En stundum finst honum, að hann hafi svikið sjálfan sig og slitið sundur rót sína í annað sinn, þegar hann fór frá Grund. — Eða voru það árin og aldurinn?

Nú býr hann í borginni. Lifir á eignum sínum. *A retired gentleman.* Náðugir dagar. Innan tómir dagar. Biðdagar ellinnar. Grundarbygð var ævin. Winnipeg er legstaðurinn. Hér eru ráð hans að engu höfð. Þar var þó heldur hægt að stjórna stelpunum. Hér finst þeim hann bara fyrir. *Nuisance!* Gamalær karlskröggur. En hann er enginn kararkarl. *No, Sir!* Enn þá hefir hann meira vit í kollinum en alt þeirra vit saman lagt. Þeirra vit er bara skóla-fífa, sem fýkur fyrir vindi tískunnar. Hann býr að gömlum merg: Íslenskri Völuspá. Þingeysku trúleysi. Sjálfsmentun. Enskum og íslenskum bókum. En stelpurnar skilja hann ekki síðan aldurinn færðist yfir hann — og þær. Allir andæfa honum nema eldri bækurnar hans og King George.

*Yes, Sir!* Það er ungdómurinn móti ellinni. Uppreist englanna. Æskan vill ráða og *bosa* hann. *Confound it!* Hann, sem sjálfur er fæddur *bosi* og hefir alt af *bosað* aðra, er að verða að núlli. Bara peningaskápur, sem allir ganga í eins og hrafnar í hræi. Alt er af honum heimtað með sjálfskyldu og þakklætislaust. Höfuð ættarinnar og höfð-

inginn frá Grund, er að verða að útlendingi í sínu eigin reisulega, útborgaða heimili.

*"Home, sweet home!"*

Ný þjóð er runnin upp í landinu. Ung þjóð. Kven-þjóð. Nýir sigurvegarar. Nýir hermenn drottins — eða — ? Hárskeltir, hálfberir villimenn: *The New Wild Men of the New Wild West.* Ríðandi á bílum og strákum. Um alt og yfir alt. Stelpur! Stelpur í strákafötum. Stelpur í hjónabandi. Stelpur á gamals aldri. Ríðandi, dansandi, stökkvandi, trallandi stelpur! *Bosar!* Ráskandi kyn. *Lord!* Þyrnar og þistlar og viltur mustarður í akri hins aldna manns.

Þær bauna á hann enskunni — þessir grislingar. Hann sendir hana á þær aftur í gusum. Hann bjó ekki meðal enskra nágranna til einskis á ungdóms árunum, nýlega kominn að heiman. Þá gleypti hann í sig enskuna strax. Svalg hana í sig eins og pipraða rommblöndu, sem er beisk að renna niður en hitar notalega öllum líkamanum, þegar hún er komin á sinn rétta stað. Enskan veitti honum nýjan styrk. Sjálfstraust. Vald. Öryggi. Vígamóð. Hún var orustuöl aðkomnu hermannanna að heiman á stríðsvelli síns nýja lands.

Jú. Hann getur svarað fyrir sig á ensku. *You bet your boots.* Lesið ensku. Jafnvel hugsað stundum á ensku, þegar King George er annars vegar. Og hann kann að *bosa* á ensku. En það verður ekki nema tilraunin ein í seinni tíð. Þær skeyta hvorki íslensku né ensku, en fara sínu fram og syngja upp í opið geðið á honum gamla húsganginn:

*"Waltz me around again, Willie,*
*Around — around — around."*

Og svo heitir hann nú Vilhjálmur í þokkabót og var kallaður Villi þegar hann var lítill. Og auðvitað vita þær, að hann er fyrir löngu hættur að dansa. *Confound them!* En þetta er ungt og leikur sér. Hvað á hann að taka til bragðs? Hrista gráu lokkana og gretta sig? Bölva? Nei. Hver getur reiðst brosandi augum og hláturmildum munnum? Svo hlær hann líka. Ekki samt eins og í gamla daga. Ekki eins hjartanlega og þær. En hann hlær samt og þá er þeim skemt.

Þessar þær, eru dætur dóttur hans. Þrjár fallegar stelpur. Fjörugar. Lífsglaðar. Hraustar. Líkaminn og insta eðlið að mestu úr Grundarbygð og að heiman. Fasið og fötin og látalætin eru úr borginni.

Móðir þeirra, hún Ella, á að heita bústýra í húsinu. En hvort hún er orðin dætrum sínum samdauna, eða hún lætur bara undan þeim og lofar þeim að stjórna sér, veit hann ekki. En það gildir einu hvort er. Hann ræður ekkert heldur við hana nú orðið. Tvennir tímar. Önnur öld. Annað umhverfi.

Hún er líka farin að klæða sig í rósóttar línbuxur eins og þær. Karlmanna stáss. Þokkalegur fénaður! Skrítnar skepnur. *Survival of the fittest!* Kvenbuxur og bílar. Alt á hjólum. Sjálfsagt á leiðinni til eilífrar fullkomnunar! — *Ba——ah!*

Og nú er elsta dótturdóttir hans, hún Anna, orðin snar-hringlandi vit-

laus. Farin að eltast við Gyðing. Getur ekki beðið eftir því, að vera borin í faðm Abrahams seinna meir. Sú stutta! Sko. Hann heitir líka Abraham, Gyðingurinn. Abe er hann nefndur. . . .

II.

Hugurinn bar Vilhjálm aftur í tímann til Grundarbygðar.

Svona hafði Ella, móðir Önnu, líka ætlað að hafa það. En hennar ásækjandi átti þó víst að heita kristinn — og hvítur fyrir manna sjónum.

Hann var þorpari. Það er að segja: hann átti heima í þorpinu. Svona algengur smábæjar gláni. Búðarloka. *Good for nothing*. Slétt andlit. Hvítar hendur. Bara snoppufríður ráðleysingi. Félli fljótt á hann. Handónýtur til frambúðar.

Í faðminn á þessari kaupstaðar hengilmænu ætlaði Ella, elsta dóttir hans, að fleygja sér. En þá hafði Vilhjálmur völdin. Búhöldurinn mikli. Sveitarhöfðinginn. *The big boss*. Þá voru ráð undir hverju rifi. En hann þekti stelpuna. Það þarf að brúka lægni við ástfangna dóttur, sem velur af verri endanum.

Það er ekki til mikils gagns að segja eins og í Lærdómskverinu: Þú skalt, eða: Þú skalt ekki. Hún bara segir já og amen og meinar ekkert með því. Öll þau fögru loforð, eru brotin eins oft og boðorðin og amenið.

Stelpa í tilhugalífi er eins og silungsbranda undir lækjarbakka, sem þú reyndir að veiða með berum höndunum á drengjaárunum heima. Hún er sleip og spretthörð. Þú stappar á bakkann. Hún skýst í annan poll í læknum. Þegar þú kemur þangað skýst hún til baka. Þú setur á þig blettinn á bakkanum, sem hún leynist undir. Svo brettirðu skyrtuerminni þinni upp að öxl. Legst á magann fremst á bakkanum. Dýfir handleggnum hægt niður í pollinn og undir bakkann, neðar en þar sem brandan er. Svo þreifarðu fyrir þér með hendinni upp á móti straumnum. Ef þú nærð taki á henni neðan við tálknin, geturðu gert við hana hvað sem þér sýnist. Grípir þú neðar utan um hana, færist takið oftast nær niður að sporðinum, og þá verðurðu að halda fast ef hún á ekki að rykkja sér lausri, áður en þú getur kastað henni upp á bakkann.

Þannig var það og þannig er það með "skotna" dóttur. Það er að eins eitt tak, sem heldur henni fastri hjá þér: Hálsbragðið. Kverktakið.

Þú getur skammað hana liðlangann daginn fyrir vitleysuna, að vera að eltast við bráðónýtan bullustrokk. Þú mátt niðra manninum, sem henni þykir vænt um, niður fyrir allar hellur.

En hvað skeður?

Dótturinni finst hún vitrari en áður.

Ástmaðurinn verður enn hvítari engill í augum hennar.

En þú? — Frá hennar sjónarmiði ertu mesti og leiðinlegasti dúðadurtur landsins. Útlendur ódámur. Dóni í ofan á lag, sem lifir og hrærist langt fyrir utan og aftan og neðan alla nútíðar siðmenningu. Þú kant hvorki kristindóm né mannasiði.

Ef þú ætlar þér að sigra, verðurðu að láta eitthvert óhapp henda þenna ástmann dótturinnar. Þú mátt til

með að gera hann auvirðilegan eða hlægilegan í augum hennar. Þá dregur mannaumingiinn sig í hlé. En ástin gufar upp úr henni eins og soðinn spíritus.

Þú steinþegir en hugsar ráð þitt með stillingu. Þú talar ekki, en vinnur. Það er listin. Það er hálsbragðið á hana og kverktakið. Þá nærðu silungsbröndunni þinni upp úr lækjarpollinum.

Feðurnir eru ekki öfundisverðir af að fiska sín eigin afkvæmi upp úr heimsins hyljum: Elta dætur sínar.

*"Þá verður margur faðir fótasár,*
*og flestir hærast bæði um koll og vanga."*

Þau höfðu kynst í kaupstaðnum. Þar hafði stelpan þótst vera að læra eitthvað. Tvo sunnudaga í röð hafði hann komið keyrandi í leigðum eineykisvagni heim að Grund. Tvíhjóluðum léttivagni. *Buggy* hét það, þetta farartæki. Það var tinnusvart. Hesturinn var jarpur. Það gljáði á þau bæði. Það mátti spegla sig í báðum, en ekki eins vel og í sólglitrandi tjörnunum í Grundarbygð. .... Þá sváfu bílarnir austur í Paradís sakleysins. Hestarnir — bestu skepnur heimsins — þræluðu fyrir litlum launum. Fæddust. Kvöldust. Seinast voru þeir drepnir. Oftast með köldu blóði. — Hvort var betra: vera ævarandi þræll eða ævarandi dauður? Verða aldrei til. Hætta að lifa eins og löngu dauðar frumjurtir, dýr og mannflokkar: heilar þjóðir. Eins og hestarnir, þegar véldýrin rækju þá út á dauðans gadd? Gátu ekki bændur og verkamenn farið seinna sömu förina og hestarnir núna, þegar auðmenn heimsins — núverandi eigendur sköpunarinnar — fyndu upp á því, að kaupa vísindamennina til þess, að búa til vélmenn fyrir sig, sem framleiddu alt og ynnu alt, sem bændur og verkamenn gerðu nú? Eða ætlaði Mammon sér máske, að lóga þeim í nýrri styrjöld, sjö sinnum verri en þeirri seinustu?... Gat nokkur svarað því? Vissi nokkur maður nokkurn skapaðan hlut þegar á átti að herða og leysa þyngstu ráðgáturnar? Var ekki lífið hrossabrestur — óhljóð — skrölt, sem fældi sig sjálft? Sjálfsvitandi skarkali, sem hélt að heyrðist til sín alla leið til himna? Hver veit? Hljóðið berst svo sem nógu skrambi langt.

Tvo sunnudaga í röð hafði Tom Hunt keyrt í leiguvagni út um allar þorpagrundir með Ellu við hlið sér. Guð mátti vita hvert. Vilhjálmur vissi það ekki.

Mánudagsmorguninn eftir fyrri skemtiförina, talaði hann yfir hausamótunum á Ellu. Með vel völdum orðum lét hann álit sitt í ljósi á vagnfélaga hennar... Um hana sagði hann eins og satt var, að hún væri aðeins íslensk vegna þess, að formæður hennar í þrjátíu liði hefðu valið Íslendinga til undaneldis. En ef hún ætlaði að fara að taka saman við þenna enska, eða skoska, eða írska, eða canadiska strák, þá yrði það hennar ættardauði og íslenskur þjóðardauði, því þeir gætu ekki átt íslensk börn, þessir útlendingar. Og hann: húsfaðirinn sjálfur og höfðingi sveitarinnar, ætlaði sér ekki að láta það viðgangast, meðan hann gæti eitthvað, að afkomendur sínir

yrðu blendingar, eða skiftingar, eða allra þjóða skjákrummar.

En dóttirin bara glápti á hann eins og hann væri einhver stórglæpamaður og nafntogaður fantur. . . . Svo ók hún út með Tom Hunt næsta sunnudag eins og ekkert hefði í skorist.

Þær voru ekki lambið að leika sér við, sem fæddar voru í Grundarbygð.

Samt þagði faðirinn þá. Hans var vitið meira. En þegar hún kom ekki heim fyrr en eftir allan kristilegan háttatíma það sunnudagskvöldið, þá hugsaði hann margt. Og hann ákvarðaði, að ef sá á hvítu buxunum kæmi að sækja hana þriðja sunnudaginn, þá skyldi hún ekki fara fet með honum — jafnvel þó það kostaði sig æruna og hálft búið.

Vilhjálmur hugsaði vikuna alla.

Konan hans lét ekki sitt álit uppi. Hún gerði það sjaldan. Var ekki *bosi*. Meira að segja, þegar hún varð sjálf veik, löngu — löngu seinna, lét hún læknirinn ráða því hvort hún lifði eða dæi. Svo dó hún. En eftir það var enginn matur eins bragðgóður. Alt bragð breyttist þá nema King George. . . . Stelpurnar kunnu ekki handtök móðurinnar. Enginn átti hendurnar hennar — né hjartað. . . .

Laugardaginn fyrir þriðja sunnudaginn fór hann í kaupstaðinn. Þar keypti hann sér hressingu fyrir morgundaginn: King George — *An Eye-opener*.

Hann var búinn að hugsa málið. Svo kom framkvæmdin: sköpunin — smíðin. Þannig var öll góð smíði orðin til. . . . Jörðin skyldi þó aldrei hafa orðið til án umhugsunar. Án djúprar hugsunar. Það benti margt á það — því miður. Svo margt sem honum fanst, að hægt hefði verið að hafa öðru vísi og láta fara dálítið betur. Flýtis verk þessi jörð, þótt víða væri hún aðlaðandi moldarbörnum sínum. En tæpast von á meiru. Alt skapað á einni virkri viku.

En stórbóndinn á Grund smíðaði bara einn hrossabrest. Íslenskan hrossabrest. Ógurlegan þrumuskelli, sem skaut eldglæringum. Öskrandi. Hringlandi. Drynjandi. Tilvalin fjandafæla, sem reka átti hið útlenda hvata kyn frá dótturinni.

Vilhjálmur vildi halda íslenska kyninu hreinu í Vesturheimi. Það var svo lítið til af því á jörðinni, að honum fanst að það ekki mega fara að forgörðum.

Var það þröngsýni?

Nei. Fjandakornið!

Það var réttsýni — framsýni.

En eins og nokkur landi hugsaði þá fram í tímann fremur en nú. — "Guð náði okkur auma!" En þar verður enga náð að finna. Aðeins lífsins lög. Það geta engir snúið við til föðurhúsanna, sem þekkja þau ekki. . . .

Sunnudagurinn ljómaði yfir sveitina. Vilhjálmur fékk sér bragð. Svona rétt eins og núna nema að hann var þá úti í hlöðunni sinni, og sá alt sem gerðist á hlaðinu út um dyrnar.

Það er hásumar. Sól. Hiti. Landið ofurlítið öldumyndað. Tjörn á stöku stað. Dökkgræn skógarbelti. Tún. Engjar. Hagar. En mest ber á ökrunum: Bylgjandi hveitiakrar. Hafrar. Bygg. Maís. Hör. Rúgur. Óendanleg kornstanga móða. Gló-

andi uppspretta af gullnu korni, sem streymdi frá sléttunni miklu í allar áttir heims. Sveitin var yndislega hlýindaleg og gróðursæl. Ekki svipmikil en vinsamleg, ung og fögur.

*"Vonarland hins unga, sterka manns."*

Svo kom kaupstaðar-kussi, glentur út undir eyru af vellíðun og tilhlökkun, með átján þumlunga breiðan Panama-hatt á höfðinu og tveggja þumlunga háan kraga um hálsinn. Svört kamgarnstreyja. Hvítar buxur. Hvítir skór. Hvítt silkivesti. Hann var svo sem ekkert fantalegur. Nei, óekkí. Síður en svo. *A dandy. A snob.* Uppdubbaður *gentlemaður.* Tískan í spjátrungs stíl.

Samt kom hann heldur vel fyrir, strákurinn. Auðséð að hann var ekki dónalegur í fasi. Kunni flesta manna siði, en klæðnaðurinn var of áberandi fyrir Grundarbóndann og Grundarbygðina. Réttnefnd gildra fyrir unga dóttur, sem alt fallegt gekk í augun á.

Hann sté út úr vagninum rétt við hlöðuna og skildi þar við hestinn. Þá sá hann bóndann í hlöðudyrunum.

Aðkomumaðurinn bauð honum góðan daginn á ensku. Um leið lyfti hann hvíta stráhattinum af kollinum. Ekki vantaði svo sem hæverskuna. En stórbóndinn ygldi sig bara framan í hann. Þá leist hinum ekki á blikuna. Hann gekk heim að íbúðarhúsinu mikla án þess að mæla fleira. Þar hitti hann einhvern úti við, sem fór inn til Ellu með þau skilaboð, að hann biði hennar við forstofudyrnar.

Hesturinn stappaði fótunum af fjöri niður í hlaðið. Blessuð skepnan! Dásamlega var hún falleg.

Stórbóndinn gekk til hestsins. Lagaði taumana. Þeir skyldu ekki flækjast fyrir honum þótt hann tæki til fótanna einn síns liðs. Óflæktur skyldi hann vera, þó að hann saklaus yrði að líða fyrir þann seka. En það var nú ekki ný bóla.

Að því búnu gekk Vilhjálmur aftur inn í hlöðudyrnar. Hann varð að dreypa á aftur til þess að herða sig upp.

Alt í einu hvein og drundi í hrossabrestinum eins og hinum mikla lúðri dómsins — þegar hann rifnar.

Thom Hunt tók fyrir eyrun. Það var eins og þau væru að rifna sundur að innan. Öskrið líkast því sem öllu járnarusli jarðarinnar væri hringlað saman.

Hesturinn varð snarvitlaus. Blessuð skepnan! Augun ætluðu út úr höfðinu af skelfingunni, sem greip hann. Svo reis hann upp á afturfótunum og prjónaði framfótunum út í loftið eins og hann gerði óteljandi krossmörk fyrir sér. — Máske hefir hann beðið fyrir sér inst í sál sinni. — Við þekkjum dýrin svo lítið.

Innan fárra augnablika hrikti í vagninum. Hesturinn var þotinn af stað eins hratt og hann komst.

Þá fyrst rankaði búðarmaðurinn við sér. Hrópaði. Hamaðist. Kallaði á hestinn. Seinast hljóp hann öskrandi á eftir honum. Bölvaði. hljóðaði. — *A jumping Jupiter!*

Þetta skifti engum togum.

Þegar Ella kom út, sá hún bara aftan undir þá báða. En hesturinn fór fljótt í hvarf á leið heim til sín. Tom Hunt hljóp alt hvað hann komst en var þó langt á eftir. Hann hélt á stóra hattinum í hendinni. Allir angar á honum stóðu út í loftið. Loksins hvarf hann líka.

Ella gekk inn til sín. Lagðist upp í rúm. Þar grét hún lengi.

Konan og systurnar þögðu.

Vinnumaðurinn, vinnukonan og kaupamennirnir skellihlógu. Þetta hafði verið svo skrambi skoplegt.

Vilhjálmur bara brosti í kampinn. Hann hló ekki. Fanst hann þurfa að hressa sig á einhverju og það gerði hann. Hann kendi í brjósti um hestinn. Jú. Og Ellu líka. Hann mundi eftir sínum vormorgni ástarinnar. Þá urðu vonbrigðin sár.

En hann hafði líka lesið Mannkynssöguna og Fornaldarsögur Norðurlanda. Þar voru piltar, sem ekki létu sér alt fyrir brjósti brenna, þegar þeir voru að koma sínu fram. Drápu. Rændu. Drotnuðu. Fólkið nefndi nafn þeirra með lotningu. Stærstu hrossabrestirnir æra heilar þjóðir — stundum allan heiminn. Frægðarferill hvers voldugs manns, var stráður hauskúpum þeirra höfða, sem hann hafði troðið undir hæli sér á leiðinni upp að hásæti hefðarinnar.

*"Hjuggu vér með hjörvi;*
*hefir fimm tigum sinna*
*fólkorrostur framdar*
*fleinþings boði ok eina."*

Nei. Hann var betri en þeir. En hann yrði heldur aldrei eins frægur og Ragnar Loðbrók forfaðir hans, sem háði fimtíu og eina stórorustu.

Hrossabresturinn hans fældi einungis einn hest. Lét einn strák taka til fótanna, sem aldrei nenti að hlaupa. Kom út tárunum á einni stelpu, sem hafði gott af því að læra það strax, að lífið er enginn "útreiðartúr" með ókunnugum gleiðgosum.

Hann kendi ekki í brjósti um strákinn. Sá mátti nú fara. Hann kæmi aldrei aftur. Nú vissi hann að stórbóndanum var alvara. Það var þó til einn Íslendingur, sem ekki lét einn Stór-Breta snúa á sig. . . .

Bara að forfeðurnir hefðu kunnað að nota hrossabrestinn á Danskinn í gamla daga. Fælt hann burt úr landinu. . . .

Tom Hunt kom aldrei aftur að Grund. Hesturinn var ómeiddur. Vagninn lítið skemdur.

Ella litla jafnaði sig. Þær jafna sig allar þegar þær eru ekki komnar of langt. Seinna meir giftist hún bóndasyni þar í sveitinni. Hann var svo sem ekkert merkilegur. Bara íslenskur. Þau eignuðust þrjár dætur. Svo dó hann. Ella kom heim til pabba síns með börnin. *The whole damn family. God bless them all.*

Það var nú þegar það var.

III.

Nú er komin önnur öld. Elsta stelpa Ellu, að lenda í enn verra en hann frelsaði móðurina frá forðum daga. Nú er það Gyðingurinn Abe Goldberg, sem er að reyna að ná í hana eða hún í hann.

Hann er ættingi Abrahams, Ísaks og Jakobs. Getur hann ekki hundskast til Gyðingalands núna eftir stríðið heldur en að vera að eltast við Önnu litlu? Farið til sinnar gömlu

eða nýju Jerúsalem í Palestínu, fyrst stórveldin gáfu Gyðingnum gangandi landið sitt aftur?

En nú er hann orðinn ríðandi sá skratti. Að minsta kosti sá sem fer með Önnu í leikhúsin á kvöldin.

Satt best að segja þekkir Vilhjálmur Gyðinginn ekkert. Það er ómögulegt að *þekkja* nokkurn mann í þessum hundrað þúsunda borgum. Hann hefir aðeins séð honum bregða fyrir: Myndarmaður að sjá. Fölur. Dökkur. Smekklega klæddur. Gyðinglegt nefið ekki mjög áberandi. En þær stuttu eru ekki að trana svoleiðis gestum framan í hann.

Samt veit hann sínu viti.

Hann hefir reynt að spyrjast fyrir um hann. Það er gamall íslenskur siður. Máske hann viti meira um hann en Önnu grunar og hún veit sjálf?

Abe fór í stríðið. Barðist í djöfulæðinu í Flandralandi. Þar lenti hann í ógurlegri sprengju-skothríð, sem orsakaði ólæknandi veiklun. Og þar var hann nærri dauður úr eiturgasi. *Poor devil!* Hann hafði verið á annað ár á sjúkrahúsi í Englandi. Þar náði hann sér svo mikið, að ekkert bar á honum vanalega. En yrði hann fyrir snöggum hávaða: hvellum, skotum, eða jafnvel ef börn sprengdu púðurkerlingar rétt hjá honum, þá varð hann lamaður, ruglaður, eins og festur upp á þráð.

Þessu hafði sá gamli grafist eftir hjá Íslendingi, sem verið hafði með Abe um tíma í stríðinu. Það var hreint ekki víst að Anna vissi mikið um þetta. Það kæmi nú seinna í ljós.

Vilhjálmur lýkur upp kistlinum. King George er hafinn á loft. Nú þurfti hann sannarlega hans konunglegu náðar við:

*"Send him victorious"*

Klukkan er að verða átta. Hann flýtir sér að athafna sig. Gyðsi getur komið á hverri stundu.

King George er látinn niður en hrossabresturinn úr Grundarbygð tekinn upp úr kistlinum. Nú er hann orðinn þrítugur og hefir lítið farið aftur, þótt það sé löng ævi fyrir hrossabrest. Hann býr alt af í íslenska kistlinum hjá kónginum. Þar heldur hann náttúru sinni óspiltri eins og George.

. . . Ætlar hann að fæla bílinn með honum? Kemur nokkrum það við? En hann er ekki elliær, sá gamli! Nei. Hann veit vel að það er ekki eins auðvelt að fæla bíl eins og hest.

Fjandans bíllinn er í eðli sínu hrossabrestur sjálfur, sem fælir bæði menn og skepnur.

Eins og selnum, sem Sæmundur fróði sundreið yfir Íslands ála forðum daga, skýtur honum upp núna á tuttugustu öldinni, þessum þrímagnaða persónugervingi Ógautans, Gríms Ægis og Ögmundar Eyþjófsbana. — Þessi urrandi, hvæsandi eiturgasreið ungtímans með eldaugum: Dauðinn ríðandi á fjórum hjólum. — Blindur og heyrnarlaus böðull manna og málleysingja á þjóðvegum sveitanna og torgum borganna. Miljóna morðingi. Fleiri myndir prentaðar af honum en Napóleon. — En þægilegur reiðskjóti samt. Upplyftandi kunningi. Dýr vinur. Tískutæki. Ný mynd af niðursoðnum flýti og Kölska í sauðarleggnum.

*"Bílum ríða allir á*
*asnar nú á dögum."*

Máske er hann ómissandi mannlífinu eins og það er núna orðið. Líklega að verða partur þess. Vélin að verða lifandi. Trúuð. — Í framtíðinni endurfæðist bíllinn en maðurinn ekki. Hann missir sál sína í bílinn. Kanske ekki mikið að missa. Þá ræður bíllinn förinni. Sigrar heiminn.

*"Onward Christian soldiers."*

. . . Bíll Gyðingsins er rauðbrúnn. Nákvæmlega eins á litinn og gæðingurinn, sem Vilhjálmur fældi forðum daga í Grundarbygð. Og hann gljáir engu minna á skrokkinn en hann og léttivagninn.

Þegar Gyðsi sækir Önnu og tekur hana með sér á leikhúsið eins og í kvöld, stöðvar hann bílinn á strætinu, fyrir framan húsið. Hann situr kyrr í sætinu og lætur vélina vera í gangi. Hann þarf aldrei að bíða meira en eina mínútu eftir Önnu. Hún er alt af til.

Hann lætur bílinn kalla á hana og hún gegnir kalli hans miklu betur en þegar Vilhjálmur afi hennar kallar á hana.

Þessi bíll hefir líka einkennilegri rödd en nokkur annar bíll, sem afinn hefir heyrt í. Hann hvæsir ekki: *honk-onk-konk* eins og aðrir bílar, heldur syngur hann með sínu nefi þrjár nótur í djúpu samræmi. Það er angurblíðari tónn, en hægt er að hugsa sér, að komið geti upp úr nokkrum bílsbarka. Brot úr klukknahringing. Minnir örlítið á lag Griegs við Dauðasöng Ásu í Per Gynt Ibsens. — Gyðingurinn á alstaðar heima. — Máske lagbrotið sé hljómymur úr týndri hirðingja hljóðpípu Ísraelsmanna, eða löngu gleymdu hljóðfæri konunga þeirra eða úr óprentuðu lagi eftir Mendelsohn — hver veit? Eitt víst: Hann hefir þægileg áhrif á Önnu litlu þessi bílsöngur. Ef til vill töfrar hann hana meira en Gyðingurinn sjálfur.

Stelpur geta orðið "skotnar" í öllu: Demantshring. Nýjum bíl. Nýju húsi. Jafnvel í nýju tvíbreiðu hjónarúmi með stæltum fjöðrum en mjúkri dýnu.

Svona er að vera ungur.

Þarna stöðvast bíll fram á strætinu. Það er hann.

Kom-kom-kom! Kom-kom-kom! syngur bíllinn í bænarrómi.

Eftir svo sem eina mínútu, verður Anna tilbúin. Það eru allir "mínútumenn" í Winnipeg. — Jafnvel Íslendingar.

Vilhjálmur gengur hljóðlaust niður stigann. Stór og höfðinglegur enn þá. Bakið breitt. Örlítið lotinn í herðum. Anna stendur við spegilinn í forstofunni. Hún er að setja á sig hattinn. Hún á eftir að fara í kápuna.

Veður er hlýtt. Mr. Goldberg situr í framsætinu við stýrishjólið. Bílgluggarnir standa opnir. Geisla frá næsta götuljósi slær í andlit hans. Hann er víst að hugsa um að nú komi Anna. Svipurinn er friðsæll og áhyggjulaus eins og á óslátruðu páskalambi Gyðinga. En—

*"Þú veist ei hvern þú hittir þar."*

Svo er það hrossabresturinn, sem

hann hittir. Engin miskunn í hjarta þessa norræna heiðingja. . . Síðan árið eitt þúsund, hafa gyðinglegar náttúrur tvískift eðli Íslendinganna við hið ytsta haf. Nauðugir í fyrstu verða þeir óeinlægir sínu insta eðli. Þeirri opinberun, sem þeir þektu frá alda öðli. Því eina sem var þeim náttúrlegt. . . . Loks breyta aldirnar þessari söguþjóð í andlega skiftinga. Hlæjandi hetjuljóðin úrkynjast í grátandi píslarsöngva, uns hver blómbrosandi sveit verður að ímynduðum eymdadal volaðra syndara. . . . Hu! Nú fær hann, þessi Abraham, sonur hinnar útvöldu þjóðar í austri, sín gjöld. Samítinn. Arabinn. Faðir mannkynsins. Ha! Kynkvíslarnar tólf. Sandur á sjávarströnd. Umboðsmaður heimsins. Leiðtogi þjóðanna. Brakki og braskari.

Nú fær hann að heyra brothljóðin, orgið og stunurnar frá hvítu smáþjóðinni norður á heimsenda. . . . Hrossabresturinn er glymgjafinn, sem táknar brestina og bramlið í hug og hjarta, þegar tveim óskyldum lífstefnum er þröngvað að búa í sama brjósti. . . .

Auðvitað skilur hann Vilhjálmur gamli það vel, að Gyðingar áttu engan þátt í að neyða sögu sinni og fornum fræðum upp á nokkra þjóð — og síst þeim játningum, sem þeir sjálfir neita. En hann hugsar nú svona samt, þegar þessi gállinn er á honum, og hann þarf að bera í bætifláka fyrir það, að halda kyninu sínu hreinu í henni Ameríku — með hvaða brellum og brestum, sem það krefst.

Anna er að koma út úr dyrunum. Vilhjálmur stendur í skugga og hringsnýr hrossabrestinum í sífellu. Hendin er ekki svo stirð enn þá þótt gömul sé. Glymjandinn er hræðilegur. Drunurnar ógurlegar.

Alt í einu gerir bíllinn hnykk á sig eins hann hrökkvi við. Í skelfingunni sem kemur yfir Abe þegar brothljóðin saxa sundur taugar hans, setur hann ósjálfrátt bílinn í hreyfingu. Annars er hann ósjálfbjarga. Hniprar sig skjálfandi saman og veit hvorki upp né niður.

Bíllinn snýr við að húsinu og eldleg augu hans stara glampandi á Vilhjálm í skugganum. Eldrauður ósómi, sem skýtur eitruðum eldglæringum inn í augu Vilhjálms gegnum gleraugun. Hann stingur hrossabrestinum á sig.

Bíllinn lötrar stjórnlaust í hægðum sínum af asföltuðu strætinu, hlunkast yfir randsteininn, og upp á grasbalann milli gangstéttar og götu. Þar rennur hann á hægri ferð á voldugt og virðulegt álmtré og stöðvast við það. Hann laskast sama sem ekkert en situr þar fastur þótt vélin sé í gangi.

Vilhjálmi sýnist Anna senda óhýrt augnaráð í skuggann, þaðan, sem þrumuskellirnir komu frá, um leið og hún hleypur þangað, sem bíllinn stöðvast. Sjálf kann hún að keyra bíl eins og tískutelpu sæmir. Hún opnar bílhurðina, stöðvar vélina og starir agndofa á Abraham sinn.

Vilhjálmur röltir í humátt á eftir. Bærilega dugði hrossabresturinn enn. En þeir eru ekki til þess að leika sér að, þessir bílar. Þeir eru svo vitlausir. Þeir rata ekki heim til sín ef þeir fælast. Skilja hvorki upp-

runa sinn né endalok. Tilfinningalausir déskotar eins og dönsku kaupmennirnir heima og íslensku eignasalarnir í Winnipeg.

En Vilhjálmur er hepnismaður, að ekki hlaust verra af í þetta skifti. — Hu! — Hann hefir alt af verið heppinn maður. Lánsmaður. Maður í æðsta skilningi orðsins. . . . Trúin á mátt sinn og megin og skilningur á umhverfinu — Það er lífsgæfan.

Anna reisir Abe upp í sætinu. En ekki eins og þegar móðir hagræðir veiku barni sínu. Það er ekki nokkur viðkvæmni ástarinnar í handatilburðunum. Það eru fáir vinir þess volaða. Engin elskurík brjóstgæði heyrast í röddinni þegar hún eys yfir hann spurningunum og enskunni:

"Good God! — What in the thunder is the matter with you? — Drunk? — Crazy? — Trying to have a runaway?!! — Eh?"

Þarna kemur skapið úr ættinni í ljós.

En Abe skelfur. Hristist. Þjáist. Hún setur hann við stýrið og ætlast auðvitað til að hann fari með hana strax á leikhúsið. Alt, sem hún hugsar um, stelpan, er að skemta sér. Þær eru svona allar. En Abe fer þangað ekki með hana þetta kvöldið. Hann bara hristist og skelfur.

Það er þessi hristingur á Abe, sem ætlar að gera Önnu litlu alveg vitlausa. Hún þolir ekki að horfa upp á hann svona. Skjálftinn fer í taugar hennar.

"Ertu þetta ómenni, Abe?! — Bara ræfill?! — Læturðu gamlan karlfauskinn, hann afa, hræða þig svona með meinlausum hrossabresti?!" hrópar Anna spyrjandi. Auðvitað á ensku.

Veslings Gyðingurinn skelfur. Hann kemur ekki upp einu orði.

"Jesus Christ!"

Og enn þá hristist hann.

"Holy Moses!"

Hann er eins og festur upp á þráð. Nú í fyrsta skifti lítur hann á hana — þegar hún nefnir Moses. Eins og hann núna fyrst heyri til hennar. En það eru angistar augu, sem hann rekur upp á hana.

Anna tekur eftir augnaráðinu.

"For the love of Pete!" segir hún og hristir kliptan kollinn, sem er dásamlegur á nútíðar vísu.

Afi hennar líður næstum því önn fyrir hana, núna, þegar hann sér í anda, að allir sínir spádómar eru að rætast. . . . Ofurlítið gæti hún þó verið mildari við hann — jafnvel þótt hún þekki ekki orsökina til vanmáttar hans. En hann þekkir Önnu. Þekkir ungdóminn. Dæmið er rétt reiknað. Æskan er miskunnarlaus eins og lífið. Hún er lífið. Hún þekkir einungis þörfina að gleypa, þroskast, stækka. Ástin er hennar ær og kýr og daglegt brauð: Útflúrað laufabrauð, lummur, kleinur og pönnukökur. Sætabrauð með sykurrósum. Það er hennar líf. En hún lítur ekki við ólseigu flatbrauði og brendri pottköku.

Gyðingurinn er orðinn vesalings aumingi í augum Önnu. Vilhjálmur veit að hún muni skoða þetta óhapp vott um ómensku og bleyðiskap. En Anna lítur stærra á sig en svo, að hún giftist aumingja. Héðan af hefir það ekkert gildi þótt hann segi henni satt og rétt frá veiklun sinni.

Vilhjálmur þekkir alt sitt heimafólk.

En nú vaknar meðumkvunin í brjósti gamla vesturfarans. Nei, það er ekki iðran. Því síður samviskubit. Hann kennir einungis í brjósti um Abraham. En nú er svo málum komið, að það er ekki margt, sem hann getur gert fyrir hann.

Vilhjálmur gengur rösklega inn í húsið og upp á loft. Lýkur upp kistlinum. Fyrst leggur hann hrossabrestinn kirfilega niður í gamla staðinn. Hann veit að þetta er í annað og síðasta skiftið, sem hann verður notaður í þarfir íslenskra þjóðræknismála í Vesturheimi. Einungis tvisvar á þrjátíu árum. Að eins örfá augnablik í hvert skifti. En hvílík augnablik! — örlögum þrungin og ættarfylgjum. Æviferli fjögurra mannvera gerbreytt. Ruglað óteljandi óskrifuðum ættatölum og ævisögum. Komið í veg fyrir kynblöndun þriggja þjóða. . . . Bara hrossabrestur!

Hann grípur King George úr kistlinum og gengur til Abrahams. Setur stútinn á munn hans. Hann læst ekki heyra það sem Anna segir. Þykist ekki sjá augnaráðið, sem hún sendir honum. Gyðingurinn sýpur á og hressist ofurlítið. Það er steindauður maður, sem King George getur ekki lífgað við.

*"God save the King."*

"Nú keyrir þú Abraham heim til sín, Anna. Þú sérð að honum er ilt," segir afinn á íslensku. Ekkert annað. Hún sendir honum tóninn á ensku. Óþvegin orð. Hún hefir hann fyrir neðan nefið eins og afinn á hennar aldri. Orð hennar bíta ekki á hann. Hann veit hún flytur Abraham heim til sín strax sem hann er kominn inn í húsið.

Vilhjálmur Vagn stendur við kistilinn sinn. Hann dreypir á King George að skilnaði — fyrir kvöldið.

*"Nú er eg mátlegur."*

Enn er hann sigurvegarinn. Gamli höfðinginn úr Grundarbygð. *The* big boss! Það er fagnaðarkend öldnum víkingi.

Hann stingur pytlunni niður í kistilinn — á sinn stað hjá hrossabrestinum. Leggur lokið aftur. Læsir.



# Merkileg hugsjón

## Brot úr "Locksley Hall"

### Eftir Alfred Tennyson

Athugasemd: Þessar vísur eru þýddar úr löngu kvæði eftir Alfred Tennyson lávarð, sem var þá lárviðarskáld Breta. Kvæðið heitir "Locksley Hall" og þessi stutti kafli úr því er merkilegur sökum þess að hann er svo greinileg og nákvæm lýsing á því, sem nú á sér stað, að ekki verður nánar komist.

Skáldið var uppi milli 1809 og 1892; þetta kvæði orti hann 1853, það er því níutíu ára gamalt og sést á því, hversu mikill spámaður Tennyson var.—Þýð.

Hrifinn, skygnum hugaraugum horfði eg fram um tíma og rúm,
þar sem engin þoka huldi, þar sem ekkert skygði húm.

Horfði um alla heima og geima, hátt og lágt, og vítt og breitt;
sá þar alt, sem á að verða, öllum mannsins krafti beitt.

Sá eg fljúga í öllum áttum ótal skip um loftin blá;
vörur flytja land úr landi, líða töfravængjum á.

Jörð og haf, sem héngju á þræði, hristust fyrir ógnum þeim,
hátt í lofti þegar þjóðir þreyttu stríð um allan heim.

Þá var eins og alheims sálin ekki lengur héldi vörð;
elds og kúlna reiðiregni rigndi úr lofti niður á jörð.

Lágt, en glögt eg heyrði hvíslað—Hug minn vermdi sunnanblær—
Guðrænt afl úr geysi fjarlægð gegn um stríðið færðist nær.

Hélt á lofti fólksins fána: "Frið á jörðu!" sást þar skráð.
Stríðs og haturs flöggin féllu, fæddist aftur vit og ráð.

Horfði eg yfir alla jörðu endurfædda—Loksins var
stofnað Alþing allra þjóða, öllum málum ráðið þar.

Skal þar vit í skefjum halda skálki, — hvar sem upp hann rís,
jörðin friðar vængjum vefjast, verða mannsins paradís.

**Sig. Júl. Jóhannesson þýddi**

Þetta stórmerka kvæði, sem er víst um hundrað tveggja lína samstæður, als, var þýtt á íslensku fyrir 25 árum, og birtist í Eimreiðinni, að mig minnir, sumarið 1918. Þýðandinn var hið hagvirka og rómþýða skáld, Guðmundur Guðmundsson í Reykjavík. Hann dó úr "flúnni" þá um haustið.—Ritstj.

# Leifsbúðir í Ameríku

Eftir Jón J. Bíldfell

Mikið hefir verið rætt og ritað um Ameríkufund Leifs hepna og Vínland, en þó ein bókin eftir aðra hafi verið um það efni rituð, og mesti aragrúi af ritgerðum um Ameríkuferðir Íslendinga til forna samdar, þá hefir enginn, enn sem komið er, getað bent á með neinni vissu, hvar Vínland var; né heldur hvar Leifsbúðir stóðu. Þetta er og eðlilegt, því að engin gögn eru fyrir hendi, sem gefa ábyggilegar bendingar um, hvar þessir tveir staðir voru, á meginlandi Ameríku.

Fyrst framan af héldu menn þeir, er mest hugsuðu um þau efni, því fram, að Vínland og þá auðvitað Leifsbúðir hefðu verið suður í Massachusetts, eða nálægt þeim stöðvum, en á síðari árum hefir sú skoðun breytst, einkanlega fyrir atbeina tveggja sagnfræðinga — þeirra John Fiske og Dr. Gustav Storm.

Prófessor Fiske hefir ritað með meira valdi og af meiri þekkingu um Vínlandsfund Leifs, en nokkur annar fræðimaður, sem eg þekki til. Hann tekur þær litlu upplýsingar sem sagan leggur til og gagnskoðar þær og lætur þær ná landfestu, þar sem kringumstæður og umhverfi krefjast, án þess að reyna til þess að halla því, sem hann álítur rétta niðurstöðu. Hann tekur t. d. frásögn sögunnar um eyktarmörkin í skammdeginu í Vínlandi og bendir á staðinn, sem sú daglengd eigi við, og með þeim útreikningi sínum kemst hann að raun um, að Leifur og menn hans, hafi verið staddir einhverstaðar á milli Breton skagans í Nova Scotia og Judeth-nessins í Rhode Island þegar að þeir gjörðu þessa athugun. En á milli þeirra tveggja



Rúnasteinn í Yarmouth, N. S.

staða er alllangur vegur, um 900 enskar mílur.

Aðra athugun gjörði prófessor Fiske í sambandi við sjálfsána hveitið, sem sagan segir að þau Haki og Hekja hafi komið með úr skoðunarferð sinni um landið nýja. Fiske heldur fram að það hafi ekki verið hveitistangir sem þau hafi komið með, heldur maís og bendir á að á 16. öld hafi maís ekki vaxið norðar en við mynni Kemebec árinnar en þessi á er á 44. gr. norðurbreiddar,

sem aftur bendir til þess að Vínland hafi ekki verið norðar en Massachusetts flóinn.

Í samband við vínberin sem sagan segir frá, bendir próf. Fiske á að þau hafi ekki vaxið vilt í Canada fyrir norðan 47. breiddarstig, en það liggur yfir Prince Edward eyjarnar og norðurhluta Breton skagans. Hann bendir á, því til sönnunar, að Dr. Gustav Storm, sem ítarlega hafi rannsakað vínberjavöxt á því svæði í sambandi við þá sannfæringu sína að Vínland, og þá lendingarstaður Leifs, hafi verið í suður Nova Scotia, hafi gengið úr skugga um, að á því svæði, það er norður undir og norður við 47. breiddarstig, hafi lítið verið um vöxt óræktaðra vínberja og því hafi Vínland hlotið að vera þar fyrir sunnan, því að vínberjaföng Leifs og manna hans bendi sterklega á að vínberjatekja hafi verið mikil þar sem búðir þeirra voru, samkvæmt ummælum sögunnar, og sem aftur bendi frekar til Massachusetts strandarinnar, en suðvestur Nova Scotia. En þrátt fyrir bendingar þessara tveggja manna og annara, sem um þessi mál hafa ritað og rætt, þá eru Leifsbúðir enn ófundnar, þó að bendingar þeirra og niðurstöður hafi skapað þá skoðun, að líklegast sé, að Vínland hafi verið í Nova Scotia og þar með takmarkað svæðið sem um geti verið að ræða, í þeim efnum.

Látum oss nú fylgja Leifi á Vínlandsferð sinni, eins og frá henni er sagt í Grænlandsþætti, og sjá hvar við lendum. Leifur segir, þegar hann fer af stað frá Brattahlíð: Látum oss sigla fyrst til þess lands sem Bjarni fann síðast. Þeir sigla því í vestur frá Eiríksfirði á Grænlandi og koma til lands þar þeir sáu ekkert gras, heldur jökla mikla hið efra og var sem ein hella væri alt frá sjónum til jöklanna. Enginn sá, sem séð hefir Labrador fyrir norðan þar sem tré vaxa, getur vilst á, eða verið í vafa um þessa lýsingu. Hún er svo laukrétt og sönn, á norður Labrador, að betur verður ekki gjört, og ekkert annað land er til, sem gat verið á vegi Leifs, er hún átti við. Leifur og menn hans sigla í haf frá þessu landi, Labrador.

Það er eftirtektavert, að þeir sigla ekki meðfram ströndum landsins nýfundna, heldur halda þeir til hafs og sjá ekkert land um tíma, — hvað lengi er ekki sagt — en það hefir hlotið að vera fleiri dagar, sem þeir voru úr landsýn, því frá þeim stað, sem lýsing Leifs á við Labrador, og vestur til Bell sundsins eru um sex hundruð mílur enskar. Eftir að Leifur og þeir félagar höfðu siglt þessar sex hundruð mílur koma þeir að öðru landi, það land var slétt, skógi vaxið, sandar hvítir og ósæbratt. Hér hafa margir álitið, að átt sé við Newfoundland, og var eg einn í þeirra tölu, en eftir því sem eg hefi hugsað meira um það mál og kynt mér allar kringumstæður, er eg farinn að efast um réttmæti þeirrar skoðunar. Eg efast um að lýsingin sem Leifur gefur af þessu landi, geti átt við Newfoundland, nema að nokkru leyti. Það er sagt að landið hafi verið ósæbratt. Til að sjá er Newfoundland alt annað en ósæbratt. Ströndin rís upp úr sjónum víðast hvar frá 2—300 fet og upp frá ströndinni sýnist landið hæðótt og hrjóstrugt. Fjallgarður liggur að

vestanverðu á landinu, sem er 200 mílur á lengd og víða 2,000 fet á hæð, sem naumast er hægt að komast hjá að sjá, þegar siglt er að, eða meðfram því. Það í lýsing Leifs sem getur átt við Newfoundland er, að það var og er skógi vaxið og víða eru hvítar sandfjörur.

En það er annað og fleira, en þær samstæður við lýsing Leifs á þessu landi, sem kemur hér til greina og sem mér finst vera aðal atriði í þessu máli, og það er sú staðhæfing sögunnar, að Leifur og menn hans hafi siglt í tvö dægur frá þessu landi sem Leifur nefndi Markland og til staðar þess er hann lenti á og bygði búðir sínar.

Ef maður gengur út frá því, að það hafi verið Newfoundland sem Leifur sá eftir að hann sigldi frá Labrador og nefndi Markland, er líklegt að hann hafi fyrst séð Bauld skagann, því hann gengur lengst til hafs af nokkrum parti þess lands, en frá þeim skaga og til suður oddans á Newfoundland eru eitt hundrað og sjötíu mílur enskar, og frá suðuroddanum á Newfoundland og til Cape Breton, eða nyrsta tangans á Breton skaganum, eru fjörutíu og átta mílur, í alt 218 mílur, og til suðuroddans á Breton skaganum eru aðrar níutíu mílur, eða þar um bil. Hvað gat Leifur, og menn hans, siglt langt á tuttugu og fjórum klukkustundum?

Eg hefi einhvers staðar séð því haldið fram, að í sæmilegu leiði, hefðu fornmenn siglt sjötíu og fimm mílur á dag — það gjörir sex og einn fjórða part úr mílu á klukkutímanum. Með þeirri sigling hefðu þeir Leifur og félagar hans átt að sigla eitt hundrað og fimtíu mílur á tuttugu og fjórum klukkutímum, en nú er tekið fram í sögunni, að leiðið hafi verið bæði hagstætt og gott. Þar segir: "Nú sigla þeir þaðan (frá Marklandi) í haf landnyrðingsveðr." Segjum, að það hagstæða leiði hafi tvöfaldað hina vanalegu siglingaferð þeirra, og að þeir hafi siglt frá tólf til þrettán mílur á klukkutímanum, þá hefðu þeir samt ekki getað komist sunnar en til suður oddans á Breton skaganum í Nova Scotia á þessum tuttugu og fjórum kl.st. eða liðlega það. Með öllu er óhugsanlegt, að þeir hefðu getað komist til Massachusetts-flóans, eða til vesturhluta Nova Scotia-fylkis. En öllum, sem grandgæfilegast hafa rannsakað þetta spursmál, kemur saman um, að Leifsbúðir eða Vínland geti ekki með nokkru móti hafa verið á Breton skaganum. Hver er þá ráðningin á þessu spursmáli?

Hún er sú, frá mínu sjónarmiði, að Leifur kom ekki á þessari ferð sinni til Newfoundlands, heldur til Breton skagans og að það var Breton eyjan, sem hann nefndi Markland. Og þegar maður fer nákvæmlega að athuga ferð Leifs er margt, sem styður þá niðurstöðu.

Eftir að Leifur leggur út frá Labrador, sem hefir verið, ef hann hefir siglt beint í vestur frá Eiríksfirði, frá þeim parti Labrador þar sem þorpið Heborn stendur nú eða úr því nágrenni, siglir hann til hafs. En ekkert er sagt um ferð hans — hvort hann hafi haft byr, eða hvað lengi hann hafi siglt, þar til að hann finnur land annað, svo hann hafði nægan tíma til að sigla þessar níu

hundruð mílur sem liggja á milli Heborn á Labrador og suður-oddans á Breton skaganum.

Lýsing Leifs á betur við Breton skagann, heldur en Newfoundland, þó einkum suðaustur strönd hans. Þar er land skógi vaxið, ósæbratt og sandar hvítir víða. Og þar er landið slétt, en hækkar smátt og smátt, eftir því sem innan dregur í landið, og efast eg um að nokkurs staðar á austurströnd Canada, eða Newfoundlandi, sé að finna stað, sem eins vel fullnægir kröfum sögunnar eins og suðausturströnd Cape Breton eyjunnar. Látum því Cape Breton eyjuna vera Markland og sjáum hvert heimildir Grænlands þáttar taka mann þaðan.

Leifur og menn hans stansa lítið, eða ekkert í Marklandi. Fóru ofan til skips sem fljótast og sigla í haf landnyrðingsveður, í tvö dægur. Þegar sagan talar um að sigla "í haf" meinar að minni hyggju, ekki nauðsynlega að þeir hafi haldið til hafs, eins og það hugtak er nú vanalegast skilið. Þeir héldu út á haf, héldu frá landi og svo áfram ferð sinni í vestur, nógu langt frá landi, til þess að vera úr hættu fyrir grynningum — máske úr landsýn, en naumast svo langt frá landi, að þeir hafi mist sjónar á því, legu þess og afstöðu sinni gagnvart því. Þannig sigla þeir í tuttugu og fjóra klukkutíma í ágætis leiði. — Hvert gátu þeir komist á þeim tíma, segjum að ekkert hafi tafið þá eða truflað?

Ef við leggjum sama mælikvarðann á ferð þeirra nú, og við gjörðum frá Newfoundland til Breton eyjunnar, tólf mílur enskar á klukkutímanum, sem mun vera full mikið, þó leiðið væri gott og skip þeirra hraðskreitt, þá hefðu þeir siglt aðeins tvö hundruð áttatíu og átta mílur, sem tekur Leif og menn hans vestur að, eða vestur á móts við Sable höfðann í Nova Scotia, í mesta lagi. Sagan segir að þeir hafi siglt að landi, er þeir sáu land eftir tveggja dægra útivist. Svo eftir mínum útreikningi og frásögn sögunnar, þá áttu þeir að lenda einhvers staðar í nánd við Sable höfðann. Látum okkur því litast enn um, og sjá hvort hægt er að fullnægja kröfum sögunnar á því svæði.

Í austur frá Sable höfðanum er naumast til nokkurs að leita, þar er ströndin há, brött, bergrisin alla leið austur að Canso höfðanum, sem þeir liðsforingi C. H. L. Jones og Thomas Raddall segja í Marklands sögu sinni, að hafi verið Kjalarnes hið forna. En eg sleppi að tala um niðurstöður þeirra hér að mestu og eins að leita Leifsbúða á því svæði, því bæði er ströndin óvistleg til að sjá, og svo var eg kominn sjálfur með Leif, vestur að Sable höfðanum.

Í vestur frá Sable höfðanum breytist landið, það er ströndin, hún lækkar. Firðir skerast margir inn í hana og ár renna af landi ofan, og fram í sjó. En þó eg lítist um þarna við höfðann sé eg hvergi afstöðu þá, sem sagan segir að skip Leifs hafi verið í, er þeir sigldu að landi. Eg sé hvergi ey þar sem gengur norður af landinu. Landið sjálft er fyrir norðan mig hvar sem eg lít. En ef eg skyldi hafa feilað um frá 20—30 mílur í útreikning mínum og þeir hafi komið það mikið vestar upp að landinu — komið upp að nesinu, þar

sem Chebogue höfnin er nú, þá getur aðstaðan lagast. Þá er hægt að sjá eyju norður af landinu, — það er í norður frá því nesi, og líka hægt að sigla á milli þeirrar eyju og ness, sem gengur út í sjóinn í norður frá nesinu, eða tanganum sem Chebogue höfnin er við; og frá eyjunni og nesinu er hægt að sigla beint inn í mynnið á Tusket-ánni og upp eftir henni. Það eina sem á vantar, að hægt sé að fylgja fyrirmælum sögunnar út í ytstu æsar á þessari leið er, að sagan segir að þeir hafi stefnt í "vesturátt fyrir nesið." En á þessari leið minni, urðu þeir að stefna í norðvestur.

Önnur fyrirmæli sögunnar eru líka fyrir hendi á þessum stað. Sagan segir að grunnsævi mikið hafi verið þar: "at fjöru sjávar." Tusket fjörðurinn liggur eiginlega á austurströnd Fundy-flóans, en í þeim flóa eru föll sjávar geysimikil. Flóðaldan rís þar 53 fet, að meðaltali 42 fet, og er því útfiri alstaðar, er það sjávarfall nær til, óvanalega mikið. Það er því útfall mikið í Tusket firðinum og fjörur miklar um það, og ófært skipum slíkum þeim, sem þeir Leifur og hans menn hafa haft til uppsiglingar, nema um háflóð.

Tusket áin, sem rennur út í fjörðinn, virðist nokkurn veginn fullnægja lýsingu sögunnar. Skamt fyrir ofan, þar sem hún rennur út í fjörðinn, breikkar hún og myndar eins og vatn, ekki breitt en frá 3—4 mílur á lengd.

Hún er ein af betri láxám í Nova Scotia og er enn ágæt laxveiði í ánni og vatninu. Eggvarp er í Tusket eyjunni og öðrum eyjum í firðinum, og segir Wilson fuglafræðingur í hinum ágætu fuglafræðibókum sínum, að það hafi ekki aðeins verið æður á því svæði, heldur alla leið suður til Delaware, svo þessi staður getur að því leyti fullnægt því sem sagt er um æðurinn í sögu Þorfinns karlsefnis. En þó þetta alt styðji þá skoðun mína að Leifur hafi lent nálægt Sable höfðanum, eða þar rétt fyrir vestan í Tusket firðinum, þá er enn eftir að segja frá sterkustu líkunum.

Það er sagt í Grænlandsþætti, að Leifur og þeir félagar hafi tekið skip sitt upp ána, síðan í vatnið, kastað þar akkerum, borið upp húðföt sín og gert þar búðir, að sjálfsögðu við vatnið. Hvernig voru þær búðir gjörðar? Sagan segir að það hafi verið "hús mikil", það er rúm mikil og sterklega bygð. Aðal byggingarefnið, sem fyrir hendi var, var timbur, nóg af ágætu timbri svo það má ganga út frá því sem sjálfsögðu, að þeir hafi notað það til byggingarinnar, en engin tegund af timbri, er varanleg þegar það er óvarið fyrir vindi og vatni, svo þess er ekki að vænta, að neinar leifar þess geti verið til leiðbeiningar nú.

En það er annað, sem getur komið til greina í sambandi við byggingar — að minsta kosti aðalbyggingar landa vorra á fyrri árum, og sem byggingar þeirra í fjörðunum á Grænlandi sýna berlega, eins og líka fornar rústir á Íslandi, — þeir bygðu steingrunna, eða grunna úr torfi og grjóti undir aðal byggingar sínar, og eru slík merki varanlegri en nokkuð annað, sem menn geta eftir sig látið, eftirkomendum sínum til leiðbeiningar.

Eg skil hér við Leif og menn hans

við búðir sínar í Vínlandi í bili, til þess að minnast á aðra frásögn í Grænlandsþætti, en það er koma þeirra bræðra, Helga og Finnboga, til Vínlands og Freydísar Eiríksdóttur.

Áður en Freydís fór frá Grænlandi bað hún Leif, hálfbróður sinn, leyfa sér búðir sínar í Vínlandi og sagðist Leifur skyldi lána henni þær. Þeir Helgi og Finnbogi urðu ofurlítið á undan Freydísi og hennar mönnum til búða Leifs, og voru búnir að bera föng sín af skipi og til búðanna, því svo hafði samist með þeim og Freydísi, sem öllu réði í sambandi við ferðasamninga þeirra, að öllum gæðum og gróða ferðarinnar skyldi jafnt skifta á milli þeirra. En þegar Freydís kom, rak hún þá Helga og Finnboga í burt úr búðum Leifs og sagði: "Mér léði Leifr húsanna en eigi yðr." Þeir urðu því, til þess að forðast illgirni og yfirgang Freydísar, að bera alt sitt góss á skip aftur og byggja sér skála fjær sjónum á vesturströnd vatnsins, sem Leifsbúðir stóðu við. "Ok bjuggu vel um," segir sagan. Hér er því um að ræða tvennskonar merki um það hvar Leifsbúðir og Vínland hafi verið. Þessir skálar, sem staðið hafa ekki alllangt hvor frá öðrum, finst mér líklegir til að hafa skilið eftir einhver þau merki, ef vel er að gætt, sem bendingu geti gefið um, hvar þessi staður var, en sannleikurinn er sá, að þótt ósköpin öll hafi verið talað og ritað um Leif Eiríksson, Leifsbúðir og Vínland, þá hefir engin hagkvæm tilraun verið gjörð til þess að finna þá staði — engin verkleg rannsókn farið fram, undir umsjón hæfra manna, á stöðum þeim, sem líklegastir eru. Að vísu komu þeir Dr. Valtýr Guðmundsson og Þorsteinn skáld Erlingsson vestur til Massachusetts í rannsóknar erindum í sambandi við Ameríkufund Leifs árið 1896 og rannsökuðu rústir í útjaðri borgarinnar Boston sem þeir þó gátu ekki komist að neinni niðurstöðu um. Sögðu að þær gætu verið frá tíð Íslendinga, því þær væru hlaðnar úr grjóti og torfi og að um þær hefði verið bætt af seinni tíðar mönnum. Svo er þögn — dauðaþögn, í þessu rannsóknarmáli um bústað Leifs eða bygðir Íslendinga á austurströnd Ameríku til forna. Og getur maður búist við öðru? Hvað er unnið við að finna þessa staði, þó það væri hægt? Þar er ekki um neinn auð að ræða. Engar gullkistur, sem geyma líkami mannanna, sem hún Freydís lét drepa, né heldur konanna sem hún sjálf drap — ekkert nema að lyfta óvissunni, sem yfir



Grunnur Leifsbúða frá árinu 1000
1 mílu fyrir ofan Tusket, N. S.

þessu atriði sögunnar hvílir, og draga blæjuna frá sannleikanum sjálfum, er hulinn liggur á bak við það ský hennar. En þó að fólk alment, láti sig slík lítilræði litlu skifta, og þær raddir, sem til sín láta heyra um þörf á rannsókn slíkra atriða, eins og vind um eyru þjóta, þá eru altaf einhverjir, sem sannleikans vegna láta sér hugar haldið um, að svifta hulunni af slíkum málum og þessu, sem hér um ræðir, og einn á meðal þeirra er Gordon I. Lewis prestur í Nova Scotia. Hann er, að því er eg best veit, af norskum ættum. Hefir kynt sér þessi Vínlandsmál manna best. Er að safna gögnum til sögu Leifs Eiríkssonar, sem hann hygst að gefa út á sínum tíma.

Í bréfi til mín dagsettu 23. maí 1942, farast séra Lewis þannig orð: "Eg var að hvíla mig yfir helgi hjá kunningja mínum í Tusket, varð mér þá ljóst af lestri mínum, og vitnisburði sögunnar, að eg var staddur á stöðvum þeim, er bygð og athafnalíf norrænu mannanna er til þessa lands komu, fyrst stóð. Fiske, (það er prófessor John Fiske) kemst að þeirri niðurstöðu, að bygð þeirra hafi verið í vesturhluta Nova Scotia. Eg er staddur í vestur Nova Scotia, þar sem ákveðin norræn vegsummerki eru alt í kringum mig, sem vitnisburðir sögunnar staðfesta, og enginn er til að mótmæla niðurstöðum mínum. Eg held að aðstaðan sé nú orðin mér nokkuð ljós, og eftir því sem eg athuga málið betur og kynni mér heimildirnar, því ljósara verður það fyrir mér, og það sem sannfærði mig alveg um, að eg hefði rétt fyrir mér, var að eg fann rústir sem svara til svæðis þess, er þeir Helgi og Finnbogi, er Freydís Eiríksdóttir hálfsystir Leifs drap, ásamt mönnum þeirra, bygðu skála sinn á.

Eg var oft búinn að segja við sjálfan mig: 'Ef eg get fundið rústir, sem geta svarað til staðar þess, er þeir Helgi og Finnbogi voru líklegir til að byggja á, þá er nú þetta orðið nokkurn vegin víst.' Áður voru fundnar rústir, sem geta vel svarað til rústa Leifsbúðanna. Þær eru sjávarmegin við endann á mjóu en löngu vatni og sendi eg þér mynd af þeim. Eg fór svo að leita og fann rústir, sem vel gætu verið rústir skála þeirra Helga og Finnboga. Þær eru við sama vatnið og rústir þær, sem settar hafa verið í samband við Leifsbúðir — við efri enda þess vatns eða endann sem fjær er sjónum. Á milli þessara tveggja rústa eru hér um bil 3½ míla og er nálega hægt að sjá annan staðinn frá hinum."

Það er fleira á þessum stöðvum sem dregur huga manns að Leifi og Leifsbúðum. Rúnasteinar tveir hafa fundist á þeim, og eru geymdir í bókasafni í Yarmouth, sem er bær skamt frá Tusket. Á öðrum þessum steini, sem nefndur er Fletcher steinn, af því, að maðurinn sem fann hann bar það nafn, er sagt að standi: "Leifur Eiríksson reisti." Á hinum: "Hakasson ávarpaði mennina". Um ráðningarvissu á þessu rúnaletri veit eg ekki, en það er mönnum kunnugt, að sögufélag Yarmouth bæjar, hefir lagt alla stund á, að vera sér úti um hæfustu menn, sem völ er á hér, til þess, og má ganga út frá því sem vissu, að í þeim efnum sé ekki um

neina vísvitandi blekking að ræða, og ef hér er um virkilega staðreynd að tala, bæði að því, að hér sé um norrænt rúnaletur að ræða, og eins hitt, að rúnirnar hafi verið rétt ráðnar, þá sannar það tvímælalítið, að báðir mennirnir sem nefndir eru hafa komið á þessar stöðvar, og staðnæmst þar lengri eða skemri tíma.

Leifs-nafnið kannast allir við sem sögur vorar hafa lesið. Hitt nafnið, Hakasson, er ekki eins kunnugt, sem heldur er ekki að búast við, því Haki er ekki eins víðfrægur og Leifur, en hann kemur þó ákveðið við Vínlands ferðirnar í sögu Þorfinns Karlefnis. Hvers son að Haki var segir sagan ekki, en hún segir að hann og Hekja hafi verið skosk að ætt, verið hverju dýri fljótari á fæti og að Ólafur konungur Tryggvason hafi gefið Leifi Eiríkssyni þau. Hvort Haki sá, er Ólafur konungur gaf Leifi, hefir verið Hakasson, eða Hakason sá, er rúnirnar á steini þessum geta um, hefir verið son þeirra Haka og Hekju sem sagan getur um er ekki gott að segja. Steinninn bindur aðeins Haka nafnið við suðvestur Nova Scotia.

Ennfremur segir Rev. Gordon Lewis í bréfi sínu til mín, að hann hafi einnig fundið stein all stóran með tveimur rúna — eða letur línum, þvers yfir steininn. Í annari línunni eru fjörutíu og sjö stafir, í hinni þrjátíu og fimm. Letrið, eða rúnirnar á þeim steini sýnast fornar og veður eyddar, og á honum má líka sjá handamörk hugsunarlítilla og kærulausra seinni tíðar manna.



Rúnasteinn, 1 mílu neðan við Tusket, N. S.

Steinn sá stendur við Tusket-ána hér um bil eina mílu niður með henni, frá Tusket bænum.

Eg hefi nú ekki miklu við þetta mál að bæta, öðru en því, að hér er um svo sterkar líkur að ræða, að Leifsbúðir hafi staðið við Tusketána í Nova Scotia, að mér finst full ástæða að rannsaka þær stöðvar ítarlega. En hver mun verða til þess?



# Draumur ástarinnar

Eftir S. B. Benedictsson

Mín draumsýn hafði raskað minni ró,
eg rumskaðist, en vissi ei hvar eg bjó.
Með opnum augum umhverfis eg sá,
að alt var breytt frá því er sál mín dó.

Mig felmtur greip, mér féllu tár um kinn;
eg fast mig grúfði niður í koddann minn.
Hvort eru svona syndarinnar gjöld?
Mun sorg og angur, þetta sem eg finn?

Hvort er eg hér svo einn er fyr eg var,—
alt eintómt lífsins stríð—eins hér og þar.
Er hverjum goldin hér hans lífsins laun,
og launin—sami kross, er fyr eg bar?

Með tárvot augu upp eg leit og sá,
að æskufegurð mínum dögum frá
var ekki þar, en eitthvað svipað því,
er ímynd mín í draumi vildi sjá.

Eg blómajurtir þar í svipan sá—
og sumar þeirra mínum dögum frá.
Var Íslands fegurð einnig hér að sjá,
eða aðeins hilling til að ginnast á?

Eg hélt mig staddan hér á eyði-ey,
hvar illri lending brotið lífs míns fley
hér hefði náð, hvar Norðurlanda blóm
ei næðu vexti—svo sem "Gleym-mér-ei".

Eg fann mig vera að öðlast afl og þrótt.
Kom endurfæðing til mín svona fljótt?
Eg spratt á fætur, fór að litast um
og fann, að hér var glóbjört sumar-nótt.

Eg fann, að hvar eg hafði lending náð,
var höfn svo góð og landið blómum stráð.
Og "Gleym-mér-ei" þar óx í aldin-reit,
og alt var hér, er sál mín hafði þráð.

Hér stóð eg einn í heilagleikans heim,
mig hrollur greip að mæta kjörum þeim.
Svo einn og sér, í flóði fegra lífs—
að finna engan vin í lífsins geim.

Hér einn eg stóð í straumi fegra lífs,
þó streymdu um hjartað öldur sorgar-kífs,
Mér glæddist von um veruleikans blys,
sem vaknar þrátt í hjarta manns og vífs.

Eg var ei einn, því alt var lífi stráð,
og alt var bundið sama lífsins þráð,
og endurminning átti hér sinn draum,
og æska og gleði sömu lögum háð.

Þá kom hún þar—hún kom þar beint til mín,
sú kæra ástarinnar töfra sýn.—
Já, það var hún sem hafði eg aldrei gleymt—
sú heilagleikans mynd, er fegurst skín.

"Eg kom til þín, því ávalt ert þú minn,
eg einatt þráði blíðleiks faðminn þinn.
Já, með þér vil eg ávalt elska og þrá—
í örmum þínum dýpstu sælu eg finn.

"Í þínum heimi ástarfró eg finn,
eg fann að hér var griðastaður minn.
Í mínum heimi glóði "Gleym-mér-ei",
sem gaf mér nýja von um huga þinn.

"Þó væri eg dæmd í hærra himin-svið,
hvar heyrði eg engil-blíðan tónaklið,
og fegurð lífs og sætan helgi-hljóm,
eg hlotið gat ei sannan innri frið."

"Ó, kom þú sæl!—Hér lífið manni og mey,
er munarblítt í ástar-sælu þey.
Hér minninganna varir vonar-rós
og vorblóm ástarinnar—"Gleym-mér-ei."



# Um meðferð Vopna

Eftir Dr. M. B. Halldórson

Gamall vinur minn, af norskum ættum, sem nú er kominn undir græna torfu, sagði mér eftirfylgjandi sögu:

"Faðir minn var hermaður í liði norðan manna í innanríkisstríði Bandaríkjanna. Eftir stríðið tók hann sér heimilisréttarland í Rauðárdalnum, skamt fyrir norðan Fargo, N. Dak., þar sem Gæsaá (Goose River) fellur í Rauðána. Stríðsriffil sinn átti hann ekki, en byssustinginn átti hann, og hafði miklar mætur á vopninu.

Einu sinni kom nágranni hans og bað hann, að lána sér byssustinginn, og gjörði hann það. Svo leið nokkur tími, og ekki var byssustingnum skilað, svo gamli maðurinn fór að ámálga það við nágrannann, og lofaði hann því, en samt dróst það nokkuð lengur, þangað til loksins að hann kom með vopnið, alt löðrandi í blóði, hári og öðrum óþverra. Hafði það verið notað til að hreinsa með húðir, en ekki verið hirt um að fægja það á eftir.

Aldrei sá eg föður minn tryllast svo af reiði sem í það sinn, og aldrei heyrði eg hann skamma nokkurn mann sem þá. Og þegar hann hafði ausið úr sér öllum þeim illyrðum, sem honum komu til hugar á norsku og ensku, enti hann með því, að kasta vopninu svo langt út á ána sem hann gat."

Þessi saga sýnir þær tilfinningar sem mannskapsmenn bera til vopna sinna, sem þeir hafa vegið með í návígi og eiga líf sitt að launa. Vopnin verða þeim eðlilega afar kær, og þeir fara með þau eins og sjáaldur auga síns. Þessu hefi eg þráfaldlega tekið eftir með þá menn er góð vopn áttu, hvort sem þau voru ætluð til veiða eða víga.

Íslendingar eru nú búnir að ganga vopnlausir (að nokkum byssuhólkum undanteknum) í svo langan tíma, að þessi tilfinning er að mestu eða öllu leyti horfin, þó lengi hafi á henni borið, því ekki eru nú nema rúmlega 70 ár síðan Matthías Jochumsson ritaði "Útilegumennina", þar sem fjórði þáttur byrjar með eintali Skugga-Sveins við atgeir sinn, meðan hann var að brýna hann og fægja. Og enn seinna var það, að Hannes Hafstein kvað: "Skarphéðinn klappaði skínandi stálinu" o. s. frv., í sínu alkunna kvæði "Skarphéðinn í Brennunni."

En því eðlilegra sem manni finst það, að hafa miklar mætur á vopnum, eins og svo víða er sýnt í fornsögum vorum, því meira finst manni til um það, þegar því er dróttað að frægum mönnum fornaldarinnar, að þeir hafi verið hirðulausir um þau, eins og eftirfylgjandi dæmi sýna.

Fyrir nokkrum árum las eg kvæði um siglingu Kveldúlfs, nafni höfundarins hefi eg gleymt, en minnir að kvæðið sé að finna í *Nýjum kvöldvökum.* Það er heldur vel ort og greinileg mynd dregin af gamla manninum, Kveldúlfi, þar sem hann á hafinu liggur í rúmi sínu og bíður

dauða síns. En hjá rúminu, segir höf., að hafi staðið "blóðug öxi". Það var engin þörf á lýsingarorðinu "blóðug", "blikandi" hefði farið alveg eins vel í ríminu, en það á víst að setja einhvern voðasvip á myndina með þessu, en verður að óþverra klessu sem spillir öllu kvæðinu, því það dróttar að mikilmenninu, Kveldúlfi, að hann hafi verið það ómenni og trassi, að hreinsa ekki eða láta hreinsa öxina sína eftir síðasta bardagann í Noregi, þar sem hann hefndi Þórólfs sonar síns. Sú aðdróttan er bæði ómakleg og heimskuleg eins og síðar mun sýnt verða.

Annað tilfelli þessu líkt kom fyrir í grein sem Steingrímur læknir Matthíasson ritaði fyrir nokkrum árum um benrögn og sem birtist í *Tímariti* Þjóðræknisfélagsins.

Greinin byrjar á sögninni í *Njálu* um það, þegar þeir Gunnar á Hlíðarenda og Kolskeggur bróðir hans, riðu upp með Rangá, og alt í einu kemur blóð á atgeir Gunnars. Þegar Kolskeggur spyr, hverju þetta sæti, segir Gunnar, að í útlöndum séu slík fyrirbrigði kölluð benrögn og að þau boði stórtíðindi. En læknirinn bætir því við að "nútíma vantrúarmenn" geti þess til að Gunnar hafi gleymt að þvo atgeirinn eftir að hann hafði síðast vegið með honum.

Ekki getur læknirinn um hvort hann fallist á þessa útskýringu eða ekki, en heldur hefði eg kosið að hann hefði neitað henni algerlega, því að hún ber vott um frámunalega fávisku og vanþekkingu þessara "vantrúarmanna". Hún ásakar höfðingjann og glæsimennið, Gunnar á Hlíðarenda, um tvent:

Fyrst: að vera sá amlóði og sóði, að hafa ekki þann mannskap, eða nóga þekkingu á eðli stálsins, til að hreinsa blóðið af vopni sínu eftir að hafa vegið með því. — Annað: að vera svo skyni skroppinn, að þekkja ekki blóð frá ryðbletti, því blóð er ekki blóð nema örstutta stund eftir að það hefir komið á stál. Það storknar óðara og verður fljótlega að ryði sem étur sig inn í stálið, tekur úr alla egg og ónýtir vopnið. Því er þessi útskýring svo afskaplega heimskuleg. Það að vopnum varð að halda hreinum ef þau áttu nokkuð að endast, var mannkynið búið að læra mörgum öldum áður en vorar sögur hefjast; lærði það mjög skömmu eftir að járnöldin byrjaði. Meðan stein- eða brons-vopn voru notuð var lítil þörf á hreinlæti, því hvorug ryðguðu. En það var alt annað með járn og stál — þeim vopnum varð að halda hreinum, eins og hver bóndi veit, sem nokkurntíma hefir tekið höfuð af lambi. Þetta er svo sjálfsagt, þegar Norðurlandasögur byrja, að um það er aldrei getið, að menn hreinsi blóð af vopnum, nema undir sérstökum kringumstæðum, eins og þegar Laxdæla segir frá því að Helgi Harðbeinson þurkaði á skikkjufaldi Guðrúnar Ósvífrsdóttur blóðið af sverðinu, er hann hafði vegið Bolla mann hennar með. Þjóstólfur, fóstri Hallgerðar Höskuldsdóttur kemur heim með blóðuga öxina í bæði skiftin, er hann hafði vegið menn hennar, Þorvald og Glúm, en það er aðeins gjört til að vekja athygli hennar á því, er hann hafði aðhafst, og ekkert er getið um, að hann hafi þvegið af henni blóðið á eftir, það er svo sjálfsagt.

Eg hefi ritað þessar línur aðeins

til að bera af tveim frægum fornmönnum ásakanir sem þeir ekki áttu skilið og sem þar að auki sýndu ótrúlega vanþekkingu.

Mér dettur auðvitað ekki í hug að halda því fram, að benrögn hafi nokkurntíma átt sér stað, eða að nokkur fótur sé fyrir sögninni í *Njálu* um, að blóð hafi fallið á atgeir Gunnars. *Njála* er of lík sögulegri skáldsögu (historical novel) til þess, að hverju atriði hennar sé hægt að trúa bókstaflega; en hinu neita eg þverlega, að Gunnar á Hlíðarenda hafi verið sá auli að þekkja ekki blóð frá ryðklessu eða sá trassi, að vanrækja að hreinsa vopn sín, eftir að hafa vegið með þeim.



# Smávegis í eyðuna

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGIÐ Á ÍSLANDI

---

Tímaritið má ekki fara svo úr hlaði, að það ekki taki með sér kveðjur og þakkir félags vors og allra þjóðrækinna "landa" til Þjóðræknisfélagsins á Íslandi.

Síðan það fyrst komst á laggirnar hefir það eigi dulið hlýhug sinn til vor né heldur látið sitt eftir liggja í samvinnutilraunum sínum við oss. Þarf aðeins að minna á hljómplötur þær, er það hefir sent oss með kveðjum ríkisstjóra, biskups og annara, og hreyfimyndina, sem fjölda fólks gafst kostur á að sjá. En mestan sóma til vor teljum vér þó afskifti þess af tímariti voru.

Í fyrra vetur, um það bil að Tímaritið var fullprentað, barst félagsstjórn vorri það virðingar tilboð frá heimafélaginu, að taka af henni til sölu eins mörg eintök Tímaritsins og samsvaraði meðlimafjölda þess, og var tilgangurinn sá, að láta hvern félagsmann hafa eintak af því fyrir ársgjaldi sínu.

Salan á Íslandi hafði aldrei verið mikil, og því ekki gjört ráð fyrir henni hærri en að undanförnu, svo færri eintök var hægt að senda, en æskt var eftir. Nú hefir þetta tilboð verið endurnýjað, og verður væntanlega sendur heim nægilegur forði að þessa árs riti.

Vér viljum sérstaklega leggja áherslu á heiðurinn og ánægjuna, sem félagið á Íslandi veitir oss með þessu — að gjöra Tímarit vort að sínu félagsriti. Fjárhagshliðin er í sjálfu sér ekki eins þýðingarmikil, þó henni megi að sjálfsögðu ekki gleyma.

Það hefir verið skoðun vor og stefna til þessa, að Tímaritið ætti sem mest að vera skrifað af Vestur-Íslendingum. En nú, þegar það er orðið að félagsriti tveggja félaga — á Íslandi og í Vesturálfu — væri ekki úr vegi að skáldin og rithöfundarnir heima á Íslandi sendu oss eitthvað úr pokahorni sínu í næsta ársrit. Skilyrðin: Enginn áróður um flokkapólitík eða trúmál. Ekkert áður prentað. Stutt.

## RITDÓMAR

Ritgjörðin um ritdóma hér framar í Tímaritinu minnir á spurningu, sem því hefir stundum borist: Hversvegna flytur ekki Tímaritið ritdóma um bækur og rit, eins og önnur íslensk tímarit?

Eg veit auðvitað ekki hvað vakað hefir fyrir fyrverandi ritstjóra, og svara því aðeins fyrir sjálfan mig.

Í fyrsta lagi hafa ritinu ekki borist neinar bækur til umtals, svo eg til viti. En það mun vera venja, að minnast aðeins þeirra bóka eða rita, sem útgefendur senda í því skyni. Og tel eg víst, að aðal ástæðan fyrir því sé, að bókasala hér sé orðin svo takmörkuð, að slíkt þyki ekki ómaksins eða bókarverðsins vert.

Hefði mér verið það áhugamál, að verja nokkrum síðum árlega til umtals um bækur, myndi eg þó eigi álíta þetta eitt gilda ástæðu. Ef eg hefði það á meðvitundinni, að eg gæti ekki gefið einhverri bók meðmæli, en langaði þó til að minnast á hana, væri ánægjulegra að vita til þess, að hafa borgað hana fullu verði í stað þess, að hafa þegið hana að gjöf.

Þeir menn eru vitanlega til meðal allra þjóða, sem eignast stóreflis bókasöfn á ótrúlega stuttum tíma með hrósinu einu. Aðrir virðast hafa mesta ánægju af að bölsótast yfir öllum og öllu. En eitt er sameiginlegt með mörgum þessum mönnum. Þeir lesa ekki bækurnar — stundum kanske vegna annríkis — stikla aðeins á steinum.

Af þessu leiðir, að fjöldi bókhnýsinna manna er farinn að efast um nytsemi og sannleiksgildi ritdóma — hafa þá grunaða um, að vera annaðhvort dularklæddar skrumauglýsingar, eða þá óverðskuldaðar niðranir til þess, að ná sér niðri á andstæðingum sínum.

Svo er eitthvað ógeðfelt við nafnið — dómar! Enda hliðra líka mörg rit sér við að viðhafa það — jafnvel þau sem leggja það í vanda sinn að dæma. Ritsjá, bókfregn, gagnrýni og fleira kalla þau það. Jón Sigurðsson mun oftast hafa látið sér nægja að nefna það *álit* — álit um bækur eða rit. Og lætur það mun betur í eyrum en *dómur*.

Og öllu þessu lýkur svo með því, sem vel hefði mátt segja í upphafi: Tímaritið heldur uppteknum hætti — dæmir ekki — og það án tillits til þess, hvort það sjálft verður dæmt eða ekki.

Með þessu er þó ekki sagt, að það ekki vilji flytja framvegis heildaryfirlit yfir verk ýmissa höfunda, eins og að undanförnu, þegar svo ber undir.

En eitt væri mjög æskilegt, og varla til of mikils mælst: Að tímaritin á Íslandi hefðu gagnskifti við þetta tímarit í framtíðinni.

# Tuttugasta og þriðja ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var sett í Good Templarahúsinu á Sargent Avenue í Winnipeg, kl. rúmlega 10 f. h. mánudaginn 23. febrúar 1942, að viðstöddu fjölmenni úr borg og bygðum. Forseti, Dr. Richard Beck setti þingið með því að láta syngja sálminn: **Faðir andanna**, með aðstoð Gunnars Erlendssonar við hljóðfærið. Þvínæst flutti skrifari bæn fyrir ættjörðinni, kjörlöndunum beggja megin línunnar, og fyrir störfum þingsins. Las hann þá fundarboð þingsins eins og það hafði birtst í báðum vikublöðunum íslensku, á þessa leið:

Dagskár nefndin leggur til, að dagskrá þingsins eins og hún hefir verið áætluð og auglýst sé viðtekin, þannig:

1. Þingsetning.
2. Ávarp forseta.
3. Kosning kjörbréfanefndar.
4. Kosning dagskrárnefndar.
5. Skýrsla embættismanna.
6. Skýrslur deilda.
7. Skýrslur milliþinganefnda.
8. Útbreiðslumál.
9. Fjármál.
10. Samvinnumál.
11. Fræðslumál.
12. Útgáfumál.
13. Bókasafnið.
14. Kosning embættismanna.

15 Ný mál.

16. Ólokin störf.

Ennfremur leggjum vér til að þriggja manna fjármála þingnefnd sé kosin.

J. J. Bíldfell
E. Elíasson
Thorst. J. Gíslason

Þá las skrifari eftirfarandi kveðjur til þingsins frá Thor Thors, sendih. Íslands í Washington, D. C., frá Agnari Kl. Jónsson settum aðalræðismanni í New York, frá J. T. Thorson, ráðherra í Ottawa, frá séra Albera Kristjánsson í Blaine, Wash., og frá A. G. Eggertson, K.C., í Winnipeg.

Washington, D.C., 16. febr. 1942

Til forseta Þjóðræknisfélags Íslendinga,
Hr. prófessor Dr. phil. Richard Beck.
Herra forseti:

Eg vil leyfa mér að biðja þig að flytja Þjóðræknisfélagi Íslendinga mínar alúðarfylstu kveðjur og árnaðaróskir. Hinn geigvænlegi ófriður, sem nú heltekur gjörvallan heiminn, hefir tengt Íslendinga beggja megin hafsins nánari böndum en nokkru sinni fyr. Gamla landið hefir verið dregið inn í hringiðu ófriðarins, og enginn veit hvernig það mun rísa úr ölduróti tímanna. Eitt er þó víst, að hugir allra Íslendinga sameinast um sigur frelsis og mannréttinda í heiminum og um velferð og sjálfstæði Íslands nú og á öllum ókomnum tímum.

Gifta fylgi ykkur og ykkar störfum.

Innilegar kveðjur,
Thor Thors

New York City, 18. febr. 1942

Þjóðræknisþing Íslendinga,
Winnipeg

Í tilefni Þjóðræknisþingsins sem nú kemur saman í Winnipeg leyfi eg mér að senda því hugheilar kveðjur og óskir um áframhaldandi farsæla starfsemi þess meðal Íslendinga í Vesturheimi til að viðhalda íslensku þjóðerni og tryggja böndin yfir hafið meðal Íslendinga vestan hafs og austan.

Á þessum erfiðu tímum er ánægjulegt að vita til þess að hið góða og nýta starf Þjóðræknisfélagsins stendur í fullum blóma.

Með bestu kveðjum til ykkar allra.

Agnar Kl. Jónsson,
Settur aðalræðismaður

Ottawa, Feb. 17, 1942

I should like to take this opportunity of extending my cordial greetings to

the members of the Icelandic National League, who will be holding their annual convention in Winnipeg in the last week of this month.

If there is any quality that characterizes the people of our race more than any other, it is that of independence and love of personal freedom and liberty, for our nation was born in the cradle of liberty and has valued freedom above everything else.

The island in the northern seas from which we trace our origin, now plays an important part in the defences which the United Nations have erected in their struggle against the forces of aggression. While we all know that the people of Iceland did not relish the idea of the occupation of their land by foreign troops, I think we are now all agreed that if the occupation had not been by the British and Canadians in the first place, and latterly by the Americans, the occupation would have been a Nazi occupation. Such an occupation would have constituted a terrible menace to the cause for which our own country fights in partnership with Great Britain and now with the United States.

The members of the Icelandic National League may perhaps be interested in a personal matter. I had the honor of being the Government host at a dinner given to certain visiting United States newspapermen. It so happened that this dinner took place on the day that the American Marines landed in Reykjavik. I commented on the fact, and expressed the view that perhaps it was appropriate that I, a Canadian of Icelandic origin, should preside at a dinner in honor of Americans on this occasion. I pointed out to our guests that their country had been born in liberty, and that the country of my forefathers had been settled by people who preferred liberty to submission to the conqueror of Norway. I thought it augured well for the future that this old nation, Iceland, and the great new republic of the United States, should now be united in the cause of liberty.

I am sure that we shall all watch with anxious eyes the course of developments in the northern seas.

I would also like to stress the importance of this conflict to all our people. We have lived in the New World, both in Canada and the United States, and have earned for ourselves the respect of our fellow citizens in our two countries. We have asserted our right to speak freely and independently, and our right to do so has been freely recognized. I have always felt that we must not speak of rights without thinking of the corresponding duties that attach to such rights. Indeed, as we have asserted our rights, so should we particularly, of all people, recognize our duties to the nations of which we form a part, and support to the utmost of our capacity the respective war efforts of our two countries. May I express to the members of the League who are gathered in this convention, whether they come from south of the line or are fellow citizens of Canada, my best wishes for the success of the convention, and my confidence that its deliberations will do credit to our race and result in a useful contribution to the communities in which our people live.

J. T. THORSON.

Blaine, Wash., 19. febr., 1942

Dr. Richard Beck,
Forseti Þjóðræknisfélags
Íslendinga í Vesturheimi:

Kæri vinur:

Heilsaðu frá mér frændunum öllum, mættum á þjóðræknisþingi í Winnipeg 23.—25. þ. m.

Úr fjarlægðinni sendi eg óskir mínar um athafnaauðugt og ávaxtaríkt þing.

Hér vestur við hafið hefi eg leitast við að beina hugum einstaklinga og horfum félagsmálanna í áttina til sameiningar um ættarböndin og ættararfinn góða. Því miður get eg ekki, að sinni, flutt þinginu fregnir um ákveðinn, sýnilegan árangur af þeirri við-

leitni; en "vatnið holar steininn", og hefi eg ásett mér að láta dropana halda áfram að detta.

Hér er aðstaðan, í þessum efnum sérstaklega erfið, bæði vegna þess að landarnir eru hér í meiri dreifingu en í sléttufylkjunum og Dakota, og einnig vegna þess, að þeir hafa verið að smátínast hingað, yfir margra ára skeið. Þó tel eg það engan vegin vonlaust, að takast mætti að afla félaginu liðs hér með einhverjum hætti, og vildi eg gjarnan enn að því vinna.

Í raun og veru eru Íslendingar hér á ströndinni engu síður þjóðræknir, "inn við beinið" en annars staðar og engan landa þekki eg hér, sem skammast sín fyrir þjóðerni sitt. Hitt er alment, að þeir séu stoltir af því, og noti hvert tækifæri til að láta aðra menn vita það. Þetta ber okkur að örva, en kenna mönnum þó um leið að fara með það með þeirri skynsemi og hófstillingu, sem vekur virðingu en ekki hið gagnstæða.

En hvernig eigum við að fara að því, að halda þjóðrækninni við hjá hinum yngri kynslóðum, sem þegar hafa tapað íslensku tungutaki? Þetta er, að mínu áliti, okkar mest aðkallandi vandamál nú. Í þessu efni hafið þið þegar nokkuð gjört, en helst til seint var hafist handa. Það er engin ástæða til að ætla, að íslensk þjóðrækni hverfi nauðsynlega með íslensku máli. Rétt mat á íslenskum ættararfi, bygt á þekkingu á honum, getur haldið ættarböndunum ófúnum margar kynslóðir, ef vel er á haldið. Og það er ekki þýðingarlaust. Við, eldri Íslendingar, verðum að læra að fylgjast með tímanum í þessu efni eins og öðrum og vera sífelt reiðubúnir að taka upp nýjar starfsaðferðir, sem svari þörfum nýrra aðstæðna. Við megum ekki steinrenna, því þá erum við dauðir. Um þetta mál vildi eg gjarnan flytja langt erindi, svo þýðingarmikið virðist mér það vera. Eg mun sérstaklega fagna hverju því heillaráði, sem þið kunnið að finna í þessu efni.

Þetta er nú þegar orðið lengra bréf en eg bjóst við að skrifa, en gaman hefði mér þótt að geta enn tekið þátt í þingum ykkar og gleðimótum, en vængirnir eru nú til annars notaðir en flytja mig og mína líka á Þjóðræknisþing Íslendinga. Þó getur enginn varnað mér þess að vera með ykkur í anda — og það verð eg.

Nú sækja að mér ómar ótal íslenskra ættjarðar ljóða. En, hvernig sem á því stendur, verður einn þeirra greinilegastur. Það er þungur og dimmur rómur, eins og fossaniður í fjarlægð og eg kenni rödd Hjálmars frá Bólu. Hann mælir fram með þungum áherslum:

"Aldin móðir eðalborna,
Ísland, konan heiðarleg!
Eg í prýðifang þitt forna
Fallast læt og kyssi þig,
Skrípislæti skapanorna
Skulu ei frá þér villa mig."

Blessist störf ykkar á þessu þingi, og Guð gefi ykkur glaðar og góðar stundir.

Þinn einlægur,
A. E. Kristjánsson

Winnipeg, Man., Feb. 21, 1942.

Reverend V. J. Eylands,
Secretary,
Icelandic National League,
776 Victor St., Winnipeg.

Dear Reverend Eylands:

I have been requested by Mrs. Thorey Eggertson to express to you her sincere thanks for the expression of sympathy extended to her in her great bereavement.

Mrs. Eggertson and the members of the family fully realize that father's main interest in life was in the perpetuation of Icelandic culture and tradition and any service that he may have rendered to your Society was performed with that end in view.

We are very grateful to the members of your Society for having given him the opportunity of serving you so long and continuously.

Yours very sincerely,
A. G. Eggertson

Flutti þá forseti skýrslu sína. Mintist hann fyrst félagsmanna sem látist höfðu á árinu. Stóðu menn á fætur í hljóðlátri minningu og þökk fyrir starf hinna horfnu starfssystkina. Var skýrslan annars yfirlit yfir helstu viðburði hins nýliðna árs bæði hjá heimaþjóðinni og hér vestra á starfssviði Þjóðræknisfélagsins, ásamt brennandi herhvöt til framsóknar á sviði þjóðræknismála vorra í landi hér. Var forseta að loknu erindi óspart klappað lof í lófa.

## ÁVARP FORSETA

Góðir Íslendingar,
heiðruðu þingmenn og gestir!

"Eg finn til skarðs við auðu ræðin allra,
sem áttu rúm á sama aldarfari."

Þessi orð hins spaka Klettafjallaskálds, um látna samferðamenn á lífsleiðinni, hverfa mér í hug, þegar eg í byrjun þessa þings tel það sjálfsagða ræktarsemi að minnast þeirra félagssystkina vorra, sem látist hafa á árinu, og þá sérstaklega hins vinsæla og velmetna féhirðis félags vors, Árna Eggertssonar. Má oss öllum, eigi síst meðnefndarmönnum hans í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, vera mikil eftirsjá að honum úr vorum hópi, þá er í minni er borið, að hann hafði um 17 ára skeið átt sæti í stjórnarnefndinni og haft með höndum fjárgæslu félagsins í 15 ár. Auk þess vann hann mörg önnur nytjaverk í þágu þess. Geymist minning hans þessvegna í þakklátum huga vor samherja hans í stjórnarnefndinni og annara félagssystkina hans og mun hann jafnan verða talinn í flokki þeirra, sem reynst hafa félaginu dyggastir stuðningsmenn og formælendur, og einn hinn allra ágætasti Íslendingur í landi hér.

En auk féhirðis vors hörmum vér missi þessara mætu félagssystkina vorra á liðnu ári: J. K. Einarson, Cavalier, N. Dak.; Geirmundur B. Olgeirsson, Edinburg, N. Dak.; Mrs. Anna H. Björnsson, Edinburg, N. Dak.; Jón Kernested, Winnipeg Beach, Man.; Finnbogi Finnbogason, Árborg, Man.; Mrs. Kristín Sigurðsson, Red Deer, Alta.; Jónas Jónasson, Winnipeg, Man.; Mrs. Dorothea Pétursson, Winnipeg, Man.; Mrs. María Baldvinsson, Lundar, Man.; Jónas Jónasson, Reykjavík, Ísland; Guðmundur Jónsson, Siglunes, Man.; Mrs. H. S. Freeman, Paulsbo, Wash.; J. J. Henry, Petersfield, Man.; Sigurjón Eiríksson, Winnipeg, Man.; Ólafur Hall, Wynyard, Sask.; Jósep Gillies, Wynyard, Sask.; og Kristján Kristjánsson, Churchbridge, Sask.

Er sjónarsviftir að þeim öllum frá starfinu að vorum sameiginlegu áhugamálum. Minnumst vér þakklátlega þátttöku þeirra í þeim málum og vottum aðstandendum þeirra einlæga samúð vora.

Að svo mæltu vil eg biðja þingmenn og gesti að rísa úr sætum sínum í virðingarskyni við féhirði vorn og önnur látin félagssystkin.

★

En nú liggur nærri að spyrja: Hversvegna bundu þeir menn og þær konur, sem vér nú höfum minst, trygð við þennan félagsskap og studdu hann með mörgum hætti, jafnvel áratugum saman? Svarsins er ekki langt að leita, og það getur verið oss bæði efni íhugunar og áminningar. Þessi félagssystkin vor lögðu þjóðræknismálum vorum lið, af því að þau unnu íslensku þjóðerni, tungu vorri og sögu af heilum huga. Þau verðmæti voru þeim helgir dómar, dýrmætur arfur, sem varðveita ber, en eigi láta hverfa úr greipum sér, líkt og regn í sand, er engin varanleg spor skilur eftir. Sú sjálfsvirðing og sá skilningur á skuld sinni við fortíð og framtíð, sem fram kemur í slíku viðhorfi til ættar sinnar og uppruna, eru af hinum heilbrigðasta toga spunnin og bera ósjaldan fagran ávöxt í lífi þeirra, sem þannig bregðast við skyldum sínum. Það er í rauninni gamla kenningin um að vera sjálfum sér trúr, og enn standa þau sannindi óhögguð — þó hversdagsleg kunni að þykja —, að þeir, sem þannig eru skapi farnir, eru jafnframt manna líklegastir til þess að

reynast öðrum trúir, bæði mönnum og málefnum. Annars er það æði hlálegt —Þó að það sé einnig oft sárgrætilegt — að sjá suma menn leggja alt kapp á það að flýja sjálfa sig og uppruna sinn, og verða svo að lokum hvorki fugl né fiskur þjóðernislega, því að Jón skáld Magnússon færði löngu viðurkendan sannleik í kröftugan búning, er hann komst svo að orði í einu hinna nýrri ágætiskvæða sinna:

"Hvar sem fer þú yfir unn,
eða ber þitt flak á grunn,
öll þín von og vilji logar
við þinn djúpa upphafsbrunn."

Aldrei hefir þegnleg skylda vor íslenskra Canada- og Bandaríkjamanna gert til vor meiri eða sterkari kröfur heldur en nú, og gengur hún vitanlega fyrir öllu öðru. Hitt verð eg sannfærðari um með hverju ári, sem líður, að vér greiðum borgaralega skuld vora áreiðanlega best og varanlegast með því, að reynast trúir þeim menningarhugsjónum, þeim frelsis- og framsóknaranda, sem verið hefir kjarninn í norrænni og íslenskri lífsskoðun um aldaraðir.

Hinir söguríku atburðir, sem gerðust heima á Íslandi síðastliðið sumar, þegar Alþingi samþykti að endurreisa hið forna íslenska lýðríki eigi síðar en í styrjaldarlok og kaus íslenskan mann til að fara með æðsta vald í málefnum þjóðarinnar, var hvorutveggja í senn hámark aldarlangrar sjálfstæðisbaráttu hennar og staðfesting þeirrar ríku frelsisástar og frelsistrúar, sem knúið hefir hana til framsóknar og búið með henni frá upphafi vega hennar, þó lágt hafi stundum logað á þeim eldi á kúgunaröldum hennar.

Nú er því eigi að leyna, að Ísland er hernumið land, og nýtur því eigi sem stendur "fylsta frelsis og fullveldis í athöfnum", eins og Sveinn Björnsson ríkisstjóri tók fram í hinni tímabæru og íturhugsuðu ræðu sinni til þings og þjóðar, er hann tók við virðulegu embætti sínu. Veldur hernámið eins og óhjákvæmilegt er, ættþjóð vorri ýmsum örðugleikum; en eigi sýnist mér þó gild ástæða til að örvænta um það, að hún gangi sigri hrósandi af þeim hólmi, jafn traustum fótum og hún stendur sögulega og menningarlega, enda hefir hún áður sigrast á hinum andvígustu kjörum og örlögum.

Jafnframt trúum vér því fastlega, með löndum vorum heima fyrir, að hinar voldugu lýðræðisþjóðir, Bretland og Bandaríkin, sem tekið hafa Ísland undir verndarvæng sinn meðan á styrjöldinni stendur, hverfi þaðan með hersveitir sínar að henni lokinni og efni öll sín heit um það, að skerða eigi á neinn hátt frelsi ættþjóðar vorrar. Heimsókn Winston Churchill, forsætisráðherra Breta, til Íslands að loknum Atlantshafsfundinum sögufræga, var hið mesta virðingar -og vináttumerki í garð þjóðar vorrar; sú heimsókn var, eins og eitt íslenska dagblaðið sagði um hana, eftirminnilegur og mikilvægur atburður í sögu Íslands, "atburður, sem hver einasti frelsiselskandi Íslendingur hefir ástæðu til að fagna." Og svo munu flestir mæla, að hinn mikli frelsisvinur og forystumaður bretska heimsveldisins hafi eigi talað út í bláinn, þegar hann mælti þessum orðum til Íslendinga af svölum Alþingishússins í Reykjavík:

"Eftir að þeirri viðureign er lokið, sem nú stendur yfir, munum við, ásamt með Bandaríkjamönnum, sjá um, að Ísland fái sitt fullkomna frelsi. Við sækjum ykkur heim sem menningarþjóð, og það er takmark okkar, að menningarfortíð ykkar megi tengjast framtíðarmenning ykkar sem frjálsrar þjóðar."

Sú vinátta og virðing, sem Churchill forsætisráðherra sýndi Íslandi með heimsókn sinni þangað, ætti að auka sonum hennar og dætrum í landi hér hollan ættarmetnað og sjálfsvirðingu, ekki síst þeim í þeirra hópi, sem kunna að hafa fundið til vanmáttarkendar yfir því að vera af smáþjóð komnir að höfðatölu. En afstöðu vora til ættþjóðar vorrar á þessum hættu og erfiðleikatímum, og vonir þær, sem vér berum í brjósti um framtíð hennar, hefir Davíð skáld Stefánsson túlkað fagurlega fyrir oss í eftirfarandi ljóðlínum:

"Vér hlutum margt af fögrum guðagjöfum,
sem geta orðið björg og hlíf.
Á eynni góðu ytst í norðurhöfum
er altaf von um líf.
Þótt yfir bygðum vofi vígabrandar
þá verður jörðin aftur græn,
Á miklum stundum mætast þjáðir andar
í minningum — og bæn."

Skal þá með nokkrum orðum vikið að öðrum atburðum á Íslandi árið sem leið, er vel eru til þess fallnir að gefa þjóðarmetnaði vorum og framsóknarhug byr í seglin og hvetja oss til stærri verka á sviði þjóðræknismála vorra. Á eg þar við dánarafmæli þriggja þeirra manna, sem hver í ríki afreka sinna — og þeir eru ólíkir um margt — gnæfa sem fjallatindar við söguhiminn hinnar íslensku þjóðar, og auðguðu hana að þeim menningarverðmætum og þeirri hugsjónaauðlegð, sem vér teljum réttilega vora dýrustu eign, og ber skylda til að varðveita í lengstu lög.

Fyrst ber að nefna sjö alda dánarafmæli sagnfræðingsins og ritsnillingsins Snorra Sturlusonar, er haldið var hátíðlegt í september í haust, en honum eigum vér hina mestu menningarskuld að gjalda, því að hann gaf oss **Heimskringlu** og **Eddu**, ótæmandi uppsprettulindir þekkingar um fortíð kynstofns vors og þjóðar. Rit hans eru oss í senn kröftug áminning um þá miklu bókmentaauðlegð sem vér höfum í arf þegið, og um orðgnótt og fegurð íslenskrar tungu, en hvorutveggja, bókmentirnar og tunguna, ber oss að varðveita sem lengst og ávaxta sem best.

Tveir af fremstu viðreisnarmönnum þjóðar vorrar frá síðustu öld áttu einnig 100 ára dánarafmæli síðastliðið ár. Bjarni skáld Thorarensen, 24. ágúst, og séra Tómas Sæmundsson, 17. júní. Báðir lyftu þeir andlegu lífi hinnar íslensku þjóðar um skör, Bjarni með ódauðlegum kvæðum sínum, þar sem djúpir vitsmunir og hrein karlmenska haldast í hendur, og Tómas með eldmóði sínum og umbótastarfi, uns hann hneig að hvítum bólstri dauðans um aldur fram. Eru þessir andans höfðingjar þjóðar vorrar af einhverri allra glæsilegustu kynslóð, sem land vort hefir borið, og stöndum vér í ómetanlegri skuld við þá og samherja þeirra að viðreisnarmálum hennar á 19. öld. Líf þeirra og starf ætti að vera oss hvatning til dáða og hrinda oss af augum svefnmóki og doða í þjóðræknismálum vorum. Minningin um þá ætti að vera oss lögeggjan og brennandi viti. Eiga þar við orð Ólafs Lárussonar prófessors um Tómas Sæmundsson:

"Rödd Tómasar á enn erindi til vor, brýnt erindi og mikilvægt. Ást hans til lands og þjóðar, hugsjónir þær, sem hann helgaði þeim, áhuginn og ósérplægnin, er hann sýndi í baráttunni fyrir þeim, verða ávalt sígildar fyrirmyndir, þeim sem í fótspor hans vilja feta."

★

Skal þá rakin starfssaga félagsins á árinu í höfuðdráttum. Hefir stjórnarnefnd þess leitast við að vinna sem trúlegast þau verk, sem síðasta þing fól henni, og þakka eg meðnefndarmönnum mínum góða samvinnu.

**Útbreiðslumál**

Með ýmsum hætti hefir því máli verið haldið vakandi á árinu, enda má það öllum ljóst vera, hvert grundvallaratriði það er í starfi félagsins og viðgangi. Ber þá fyrst að geta þess, að fyrir atbeina vara-forseta dr. S. E. Björnson, hefir Lestrarfélagið í Árborg sameinast þjóðræknisdeildinni þar, og jók það að drjúgum mun félagatölu hennar. Vara-forseti flutti einnig ávarp af hálfu félagsins á Íslendingadeginum að Hnausum; ritari, séra Valdimar J. Eylands, hefir og talað máli félagsins við ýms tækifæri, sem enn mun sagt verða.

Forseti fór á sumrinu fyrirlestraferð um Vestur-Canada og Kyrrahafsströndina; flutti hann 17 ræður og erindi, á íslensku og ensku, og nær eingöngu um íslensk efni, á því ferðalagi. Var hann aðalræðumaður á Íslendingadögum í Churchbridge, Blaine og Vancouv-

er, en flutti auk þess ræður um íslensk menningar- og þjóðrækismál á þessum stöðum: Leslie, Wynyard, Markerville, Point Roberts og Seattle. Heimsótti hann allar deildir félagsins í Saskatchewan og sambandsdeild þess í Bellingham. Var honum hvarvetna ágætlega tekið, og er þess að vænta, að málum vorum hafi verið nokkur styrkur að ferðum þessum og fyrirlestrahaldi; en séra Albert E. Kristjánsson, fyrv. forseti félags vors, hefir nú með höndum umboðsstarf af vorri hálfu á Vesturströndinni, sem vér vonum að beri árangur áður langt líður.

Forseti heimsótti einnig á árinu deild félagsins í N. Dak. og sambandsdeild þess í Chicago, og flutti erindi á samkomum þeirra beggja. Hann hefir einnig flutt kveðjur félagsins við ýms opinber tækifæri, svo sem á 50 ára minningarhátíð Sambands (únítara) safnaðar í Winnipeg, en bréflegar kveðjur félagsins sendi hann Íslendingadögunum að Gimli, í Seattle og Spanish Fork, Utah. Hann hefir einnig unnið að söfnun nýrra félaga með bréfaskriftum og orðið nokkuð ágengt, en fjármálaritari Guðmann Levy mun greina frá árangrinum af þeirri viðleitni í skýrslu sinni.

Loks hefir forseti síðastliðið ár, sem áður, flutt margar ræður um íslensk efni á ensku, utan þeirra er fyr voru nefndar, meðal annars fjórar útvarpsræður, og ritað greinar og ritdóma um þau efni í amerísk og canadisk blöð og tímarit.

Þá skal þess getið með þakklæti, að ýmsir félagsmenn hafa stutt að útbreiðslustarfinu með ræðuhöldum um íslensk efni, svo sem Soffonías Thorkelsson, verksmiðjustjóri og forseti deildarinnar "Frón", með erindum um Íslandsferð sína á ýmsum stöðum, og Mrs. Einar P. Jónsson, forstöðukona Laugardagsskóla félagsins í Winnipeg, með þörfum þjóðræknishvatningum á samkomum allvíða.

**Gagnkvæmar heimsóknir deilda**

Á þinginu í fyrra var stjórnarnefnd falið að kjósa fimm manna nefnd, tvo úr sínum hópi og þrjá frá deildum, til þess að vinna að gagnkvæmum heimsóknum þeirra. Kosnir voru í nefndina: forseti, er vera skyldi formaður, varafjármálaritari Sveinn Thorvaldson, Soffonías Thorkelsson, S. S. Laxdal og Rósmundur Árnason. Þó að áliðið væri orðið ársins, þegar nefndin var kosin, hefir skipun hennar borið þann árangur, að félagsmenn úr deildinni "Báran" í N. Dak. heimsóttu deildina "Ísland" í Brown, Man., og skemtu á fundi hennar með ræðum og söng; með svipuðum hætti heimsóttu félagsmenn deildarinnar "Iðunn" í Leslie deildina "Snæfell" í Churchbridge, og hafa í huga að heimsækja deildina "Fjallkonan" í Wynyard; einnig flutti Soffonías Thorkelsson erindi á fundi deildarinnar "Esjan" í Árborg. Hefi eg fengið margar sannanir fyrir því, að þessi nýbreytni sem eg tel mjög þarfa og merkilega, hafi gefist ágætlega, og hvet eg eindregið til þess, að slíkum heimsóknum verði haldið áfram, hvar sem því verður við komið. Þakka eg kærlega meðnefndarmönnum mínum samstarfið, sérstaklega þeim S. S. Laxdal og Rósmundi Árnasyni, er beittu sér fyrir heimsóknum af hálfu deilda sinna.

**Fræðslumál**

Laugardagsskólinn í Winnipeg hefir starfað að íslenskukenslu með sama hætti og áður, og hefir aðsókn verið mjög sæmileg, en stórum betri hefði hún þó getað verið ef fólk hefði almennar fært sér í nyt hina ágætu, og ókeypis, fræðslu, sem börnum þeirra stendur hér til boða. Kennarar hafa þessir verið: Mrs. Einar P. Jónsson, sem veitt hefir skólanum forstöðu; Miss Vala Jónasson, Miss Vilborg Eyjólfsson, Mrs. Kristín Jefferson, er kom í stað Mrs. S. E. Sigurðsson, er varð að hætta sökum veikinda; og unglingspilturinn John Butler. Er hann íslenskur í móðurætt, hefir stundað nám á skólanum stöðugt í 10 ár, og er nú orðinn einn af kennurum hans, og gefst vel. Er það fagurt dæmi til eftirbreytni og nokkur sönnun um gildi skólans og gagn. Er félagið í mikilli þakkarskuld við kenn-

ara þessa fyrir vel unnið starf. Ásmundur P. Jóhannson hefir, eins og að undanförnu, borið hag skólans sérstaklega fyrir brjósti og haft mestan veg og vanda af honum, og haft það starf með höndum í samfleytt 9 ár. Hinir skólanefndarmennirnir eru Bergthór E. Johnson og Guðmann Levy.

Einar P. Jónsson ritstjóri var hjálplegur við útvegun kennara. Hafi þeir allir þökk, sem hér hafa lagt hönd að hinu þarfasta þjóðræknisverki. Þá hafa deildir félagsins haldið uppi íslenskukenslu með góðum árangri; hefir það starf staðið með sérstökum blóma í Riverton, undir forystu Sveins Thorvaldsonar, og í Árborg, en vafalaust hefir vara-forseti hlynt að þeirri starfsemi í heimadeild sinni.

Eg veit, að eg mæli fyrir munn stjórnarnefndar, þegar eg segi, að það hafi verið oss mikil vonbrigði, að Steingrímur kennari Arason hefir eigi ennþá getað komið á vorar slóðir til aðstoðar við íslenskukanslu barna og unglinga og til fyrirlestrahalda um íslensk efni. Hefir stjórnarnefndin staðið í stöðugum bréfaskiftum við hann, er þeir vararitari dr. S. J. Jóhannesson og Ásmundur P. Jóhannson hafa haft með höndum, en fram að þessu hefir Steingrím brostið þýðingarmikil skilríki til fararinnar. Svo var einnig til ætlast, að hann fengi frá Íslandi hentugar bækur til kenslunnar, en á því hefir einnig orðið langur dráttur. Hitt fæ eg ekki lagt nógsamlega áherslu á, að hin bráðasta nauðsyn er á því að fá íslenskukennurum vorum í hendur betri gögn, handhægari kenslubækur, en gert hefir verið fram að þessu. Má það hreint ekki lengur dragast úr hömlu, ef kennararnir eiga ekki að þreytast á því að vinna verk sitt svo tómum höndum, en það gerir þeim starfið erfiðara og notaminna.

**Samvinnumál við Ísland**

Eðlilega er það oss hið mesta harmsefni, að ættland vort hefir dregist inn í hringiðu æðandi heimsstyrjaldarinnar, og hefir það gert oss erfiðara fyrir með samband við heimaþjóðina, einkum hinar seinu póstgöngur. Á hinn bóginn hefir þessi breytta aðstaða Íslands fært það nær oss í vissum skilningi, vegna aukinna verslunarviðskifta við Vesturheim, og þá eigi síður með því, að straumur íslenskra háskólastúdenta fellur nú hingað vestur um haf. Treystir það eitt út af fyrir sig bræðraböndin milli vor og heimaþjóðarinnar, og mun verða báðum aðilum til gagnsemdar. Fögnum vér því, að hópur íslenskra háskólastúdenta er nú staddur hér á þinginu og bjóðum þá velkomna í frændahópinn.

Fagrar bróðurkveðjur og mikilvægar í sambandi við samstarf vort hafa oss einnig borist heiman um haf á liðnu ári. Þar sem voru ávörp þau, er Sveinn Björnsson, ríkisstjóri Íslands, og herra Sigurgeir Sigurðsson, biskup Íslands, töluðu á hljómplötu að tilhlutun Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík, og sendu oss. Var kveðja ríkisstjórans, eins og hún ber með sér, að nokkru leyti svar við heillaóskum, sem eg hafði sent honum og heimaþjóðinni í nafni félags vors og Íslendinga hérlendis; en ávarpi biskups hefi eg svarað fyrir vora hönd með nýárskveðju þeirri til Íslendinga austan hafs, sem nýlega birtist í vikublöðunum íslensku. Hjartanlega þökkum vér þessar bróðurkveðjur leiðtoga hinnar íslensku þjóðar og munum þær lengi í minni geyma.

En Þjóðræknisfélagið heima hefir sannarlega ekki gert endasleppar við oss góðgerðirnar á liðnu ári. Stuttu fyrir hátíðarnar barst stjórnarnefnd félags vors bréf frá Þjóðræknisfélaginu á Íslandi, svohljóðandi að meginmáli:

"Svo hefir samist um milli félags vors og Sambands ísl. samvinnufélaga, að það eftirléti oss eina eftirmynd af Íslandskvikmynd þeirri, er það hefir látið gera. Biðjum við yður að taka við henni sem lítilli gjöf frá oss til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Það er ósk vor, að filman verði sýnd fyrsta sinni á þingi Þjóðræknisfélagsins í vetur, en síðan eins og félagi yðar hentar og til vinst.

Það er von vor og trú, að hin um-

rædda filma geti þar sem hún verður sýnd gert nokkurt gagn, rifjað upp minningar um Ísland hjá þeim sem þær eiga, og verið nokkur fræðsla um ættlandið, þeim sem af íslensku bergi eru brotnir, en hafa Ísland aldrei augum litið. Fræðsla um land og þjóð, atvinnuhætti og atvinnumöguleika.

Þessari sendingu fylgja hugheilar óskir til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, frá félagi voru og öllum þeim góðu aðilum, er við sendingu hennar hafa verið riðnir. Vér vonum að filman komist vel í hendur yðar og að gagn það og gleði sem þér hafið af henni verði í samræmi við þann hug og þær óskir er fylgja henni til yðar.

Með vinsemd og virðingu,

Árni G. Eylands,
Forseti Þjóðræknisfélags
Íslendinga."

Í samræmi við óskir gefenda, verður Íslandskvikmynd þessi sýnd fyrsta sinni hér vestra á hinni almennu samkomu síðasta þingkvöldið núna í vikunni. Gríp eg þetta tækifæri til þess, fyrir hönd félagsins, að þakka öllum, er hlut áttu að þessari fögru og nytsömu gjöf. En það þakklæti fáum vér best sýnt í verki með framhaldandi ræktarsemi við íslenskar erfðir og vaxandi árvekni í varðveislu þeirra.

Þá skal þess þakklátlega getið, að fulltrúi Sambands ísl. samvinnufélaga í New York, herra Helgi Thorsteinsson, hefir verið hinn hjálplegasti við að koma kvikmyndinni í vorar hendur í tæka tíð, og þá eigi síður félagsbróðir vor, Hon. J. T. Thorson ráðherra, sem brást þegar við, er til hans var leitað um aðstoð við að fá innflutningsleyfi á myndinni hingað til Canada. Eigum vér þar hauk í horni sem hann er.

Enn annað vináttumerki barst oss rétt nýlega frá herra Árna G. Eylands, forseta Þjóðræknisfélagsins á Íslandi, en það eru einkar snotur íslensk veggalmanök, sem útbýtt verður hér á þinginu.

Af gestum heiman af Íslandi, sem gist hafa vorar slóðir á árinu, ber fyrst að nefna Maríu Markan söngkonu, er fór hingað hina mestu sigurför. Kom hún hingað á vegum Þjóðræknisfélagsins og hélt hina rómuðu samkomu sína í sönghöll þessarar borgar að tilhlutun þess. Tel eg félaginu það hinn mesta sóma, að hafa átt hlut að komu hennar, og vil nú þakka þeirri nefnd, sem hafði undirbúning samkomu hennar með höndum fyrir ágætt starf, en nefndarmen voru, ritari sr. Valdimar Eylands, fjármálaritari Guðmann Levy, Gísli Jónsson, fyrv. vara-forseti, og Grettir L. Jóhannson ræðismaður.

Öðrum góðum gesti frá Íslandi áttum vér að fagna fyrir stuttu síðan, er Sigurður Jónasson framkvæmdarstjóri kom skyndiferð hingað og bar oss hlýjar kveðjur Þjóðræknisfélagsins heima og ættþjóðar vorrar. Þá er öllum í fersku minni, að heiðursfélagi vor, Thor Thors, sendiherra Íslands í Washington, var ræðumaður á Íslendingadeginum að Gimli, en vér erum nú farin að skoða hann sem "einn af oss", enda er hann oss jafnan kærkominn.

Eigi hafa þó heimsóknirnar milli heimaþjóðarinnar og vor verið allar frá þeirra hlið, enda varð eitthvað þar á móti að koma. Félagsbróðir vor Soffonías Thorkelsson dvaldi, sem löngu er kunnugt, nokkuð fram á nýliðið ár heima á Íslandi, og fór þar ýmsum erindum vorum. Fullyrði eg, að gott eitt hafi samstarfið austur yfir hafið haft af dvöl hans heima og ræðuhöldum hans um þjóðræknismálin. Þá hefir það komið á daginn, að vér eigum ágætan fulltrúa á Íslandi, þar sem er félagsbróðir vor og fyrverandi samkennari minn, Björn Björnson blaðamaður. Hin ágæta og hressilega ræða, er hann flutti í nóvember sem þátt í útvarpsskemtiskrá Þjóðræknisfél. í Reykjavík, ber því órækan vott, að svo er. Loks er eigi nema skylt að geta þess, að Þjóðræknisfélagið heima bauð þeim Dr. B. J. Brandson og frú hans í heimsókn til Íslands síðastliðið sumar, en því miður gat eigi orðið af ferð þeirra að því sinni.

**Mannfagnaðir**

Þjóðræknisfélagið, félag yngri Íslendinga og Karlakór Íslendinga í Winnipeg gengust fyrir samsæti í heiðursskyni við Maríu Markan söngkonu; flutti ritari Þjóðræknisfélagsins þar ávarp af félagsins hálfu, en forseti var samkvæmisstjóri. Einnig stofnaði félagið til miðdegisverðar fyrir Sigurð Jónasson. Hafði ritari samkomustjórn með höndum í fjarveru forseta og vara-forseta, enda var samsæti þetta haldið með litlum fyrirvara.

Það gaf metnaði vorum byr undir vængi, er það vitnaðist í júní síðastliðnum, að J. T. Thorson, K.C., sambandsþingmaður, hefði verið skipaður upplýsingaráðherra í sambandi við stríðssóknina (Minister of National War Services) og jafnframt fyrstur íslenskur ráðherra í sambandsstjórn Canada. — Efndi stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins og aðrir velunnarar ráðherrans til heiðurssamsætis fyrir hann, og hafði forseti veislustjórn með höndum. Annar félagsbróðir vor, W. J. Líndal, K.C., hlaut þann heiður að vera á árinu skipaður héraðsréttardómari í Manitoba, fyrstur landa sinna, og hélt félag yngri Íslendinga honum samsæti í tilefni af því. Ritari flutti þar ávarp fyrir hönd félags vors, en í undirbúningsnefndinni áttu þeir sæti hinn nýlátni féhirðir vor og skjalavörður Ólafur Pétursson. Skal þess að lokum getið, að ritari flutti kveðjumál og þakka af félagsins hálfu í samsæti, sem deildin "Frón" hélt Ragnari H. Ragnar, söngstjóra og þáverandi forseta deildarinnar, er hann fluttist alfarinn til N. Dakota fyrir stuttu síðan. Söknum vér hans úr hópnum og minnumst ágæts starfs hans að söngmálum og þjóðræknismálum, en jafnhliða fögnum vér því, að tap vort hefir orðið gróði íslensku nágrannabygðinni sunnan landamæranna.

**Saga Ísl. í Vesturheimi**

Stjórnarnefnd og sögunefnd var á síðasta þingi falið það mál til sameiginlegra framkvæmda. Hafa þær unnið að því eftir föngum, en breyttar aðstæður hafa gert það að verkum, að eigi hefir verið fylgt fyrirmælum þingsins um fjárbænir til almennings í því sambandi, enda hafa verið skiftar skoðanir um það atriði innan nefndarinnar. Ýmsum kann að þykja sem lítið hafi áunnist í þessu máli á árinu, en áhersla hefir verið lögð á það að hraða verkinu eigi um skör fram. Ekki er þó nema sanngjarnt og sjálfsagt að geta þess, að söguritarinn lauk handritinu að næsta bindi sögunnar fyrir nokkru síðan. En ritnefnd hefir eigi, af ýmsum ástæðum, lokið við lestur þess fyr en rétt nú um helgina. Að öðru leyti vísa eg til væntanlegrar skýrslu sögunefndar um málið.

Skýrslur munu einnig verða lagðar fram, eða gefnar munnlega, frá **minjasafnsnefnd**, nefnd þeirri, er safna skal **Þjóðlegum** fróðleik, **rithöfundasjóðs**nefnd og **Leifs styttu** nefndinni.

**Tímaritið**

Það er nú fullprentað og verður afhent skuldlausum félagsmönnum síðar á þinginu. Gísli Jónsson prentsmiðjustjóri hefir aftur í ár haft ritstjórnina með höndum, enda leysti hann það verk vel af hendi í fyrra, og mun svo aftur reynast. Fyrir ítrekaðar áskoranir stjórnarnefndar tók Ásmundur P. Jóhannson enn að nýju að sér söfnun auglýsinga í ritið, og einkum vegna þess, að enginn reyndist fáanlegur til þess starfs. Og mun árangurinn bera fagurt vitni löngu viðurkendum dugnaði hans í því starfi. Má félagið vera honum stórþakklátt fyrir að hlaupa þar enn einu sinni undir bagga. Þá mun þingheimi þykja það góðar fregnir, að 400 eintök af **Tímaritinu** fara til Íslands í ár, og er það mest að þakka ágætum stuðningi frá Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík, er lætur félögum sínum ritið í hendur.

**Þjóðrækinsfélagið og stríðssóknin**

Illa sæmdi það, ef félag vort hefði eigi á neinn hátt sýnt góða þegnhollustu vora með einhverju framlagi til þátttöku Canada í stríðssókninni, enda hefir það sýnt nokkurn lit á því. Fyrst

er þess að geta, að félagið hefir keypt stríðsverðbréf (Victory Bond) 500 dollara að upphæð. Einnig voru á þinginu í fyrra seld stríðssparnaðar skírteini (War Savings Certificates) fyrir álitlega upphæð, og hafði Árni G. Eggertson, K.C., aðalumsjón með sölu þeirra. Félagið átti einnig hlut að því, að Ísl lendingar tóku þátt í hinni fjölþættu og merkilegu samkomu, er nefndist "Salute to Britain"; söng Karlakór Íslendinga í Winnipeg þar og skeyti var lesið frá forseta félagsins. Fulltrúanefnd frá félaginu, í því sambandi, skipuðu ritari, Árni Eggertson og Ásmundur P. Jóhannson. Þá þykir mér hlýða að geta þess hér, að félagið tók að sér sölu á hljómplötu þeirri, er María Markan óperusöngkona hafði sungið íslensk lög á, og gengur helmingur andvirðis þeirra til Rauðakross deildar Manitobafylkis. Fyrir atbeina ritara hefir Davíð Björnsson bóksali annast um sölu þessa, og 130 hljómplötur selst fram að þessu.

**Fjármál**

Um þau gerist engin þörf að fjölyrða, því að ítarleg grein verður gerð fyrir þeim í hinum prentuðu skýrslum um þau mál. Í því sambandi mun einnig greint frá þeim ráðstöfunum, sem stjórnarnefnd gerði viðvíkjandi kaupum á skólahúsi Jóns Bjarnasonar skóla og nauðsynlegum breytingum á því. Hafði Ólafur Pétursson umsjón með því verki, félaginu að kostnaðarlausu, og ber að þakka það. Hann er nú einnig umsjónarmaður hússins.

★

Yfirlit þetta sýnir, að eigi hefir með öllu verið sofið á verðinum á árinu, þó að sitthvað hafi vafalaust verið ógert látið eða betur mátt úr hendi fara. Þó ætla eg eigi ofmælt að segja það, að eigi hafi félagsskapnum hrakað á árinu, enda væri slíkt ilt afspurnar og með öllu ósæmandi fólki með jafn söguríka fortíð og auðuga menningararfleifð að baki og vér erum. Óneitanlega stendur félag vort einnig víða fótum í landi hér og á sér marga vini og velunnara. En betur má, ef duga skal. Fyrst og fremst verðum vér að leggja aukna áherslu á það, að ná til yngri kynslóðarinnar með einhverjum ráðum. Þar er ennþá lítt ræktaður akur. Eigi er með því lítið gert úr starfsemi yngri deildar Þjóðræknisfélagsins hér í Winnipeg, sem er hin þakkarverðasta. Hinn nýi enski lesmálsbálkur, sem félagið stendur að, er t. d. mjög athyglisverð viðleitni, en hitt skyldi jafnframt í minni borið, að ábyrgð fylgir því, er vér, eldri sem yngri, förum að túlka menningarerfðir vorar og bókmenta á sjálfu heimsmálinu.

En það er önnur hlið á víkkun starfssviðs þessa félagsskapar, sem eg kemst eigi hjá að benda á: **hið ónumda land í bygðum** vorum, þar sem er fjöldi ágætra Íslendinga, svo sem í Argyle, að Gimli, og á Lundar, að nokkrir staðir séu nefndir. Sannarlega ætti félagsskapur vor að eiga erindi þangað og geta átt þar griðland. Þá hefir komið til orða að stofna deild í Mikley, og mun það eigi lengi dragast, að alvara verði gerð úr tilraun í þá átt. Nú er eg mér þessa fyllilega meðvitandi, að starfi þessa félagsskapar verður eigi haldið áfram, hvað þá heldur gert víðtækara, án mikillar fyrirhafnar. Ýmsa örðugleika verður að yfirstíga áður en þeim áfanga er náð; sameiginlegra og drengilegra átaka er þörf í þessum málum vorum, ef vel á að fara. En eg tel oss eiga bæði mannafla og hæfileika til þess að halda vakandi um langt skeið í landi hér víðtækri þjóðræknisstarfsemi, ef vér látum eigi klaka tómlætisins og óttans setjast oss um hjartarætur, draga oss móðu á augu og kjark úr huga. Látum oss verða til áminningar lífshvöt hins mikla skálds:

"Líf er nauðsyn, lát þig hvetja
líkst ei gauði, berstu djarft,
vert ei sauður, heldur hetja,
hníg ei dauður, fyrr en þarft."

Varðveisla vorrar menningarlegu arfleifðar, frelsisástar og framsóknaranda kynstofns vors, gerir oss áreiðanlega glöggskygnari á hvað í húfi er í því úrslitastríði, sem einræðisandinn og lýð-

ræðishugsjónin heyja nú í heimi vorum. Slík varðveisla gerir oss að sama skapi fúsari til þess, að verða örlátlega og hreystilega við hinum þungu, vaxandi kvöðum, sem þegnleg skylda vor leggur oss á herðar í sambandi við stríðssóknina af hálfu þeirra lýðræðisþjóða, sem vér eigum því láni að fagna að vera hluti af. Frelsið hefir jafnan verið öllum sönnum Íslendingum dýrmætast allra hluta, og mun svo enn reynast. Einhuga tökum vér undir þessi orð norska skáldsins Nordahl Grieg í snjallri þýðingu Magnúsar Ásgeirssonar:

"Sú fullvissa er fædd í oss öllum,
að frelsið sé **líf** hvers manns,
jafn einfalt og eðlisbundið
sem andardráttur hans.
Vér fundum, er áþjánin ægði,
hve andþrengslin sóttu oss heim
sem köfnum í sokknum kafbát.
Vér kunnum ei dauða þeim.

Göngum svo heil til starfa á þessu þingi, og megi það verða oss til gagnsemdar og sumarauki vetrargleði vorri.

Ásm. P. Jóhannson og H. I. Hjaltalín lögðu til að skýrsla forsetans sé viðtekin með þakklæti. Skrifari bar upp tillöguna og var hún samþykt í einu hljóði.

A. P. J. og Jón Húnfjörð gerðu tillögu um að forseti skipi 3 menn í **kjörbréfanefnd**. Var tillagan samþykt og þessir nefndir af forseta:

Guðmann Levy
Bergþór Johnson
Friðrik Swanson

H. I. Hjaltalín og Guðmundur Jónasson gjörðu tillögu um að forseti skipi 3 manna dagskrárnefnd. Var tillagan samþykt og þessir tilnefndir af forseta:

J. J. Bíldfell
Þorsteinn Gíslason
Elías Elíasson

Skrifari lagði þá fram skýrslu sína. Höfðu tíu fundir verið haldnir á árinu í stjórnarnefnd félagsins, flestir þeirra á heimilum nefndarmanna, en annars í byggingu þeirri er áður var Jóns Bjarnasonar skóli. Kvað skrifari almenn starfsmál félagsins hafa verið rædd á fundum þessum, samkomulag ágætt og gestrisni nefndarmanna í besta lagi.

Sveinn Thorvaldson og Dr. Sveinn E. Björnson, vara-forseti gjörðu tillögu um að skýrsla skrifara skyldi viðtekin, og var hún samþykt.

Lagði þá féhirðir fram skýrslu sína. Var henni útbýtt prentaðri meðal þinggesta, áður en framsögumaður, Ásm. P. J. vara-gjaldkeri hóf mál sitt. Þá las fjármálaritari Guðmann Levy skýrslu sína, sem einnig var prentuð á sama hátt og skýrsla féhirðis. Gjörði hann einnig grein fyrir nýjum meðlimum sem gengið hefðu í félagið. Kvað hann tuttugu og fimm manns hafa bæst félaginu á þessu ári, og væri það mest fyrir atbeina og dugnað forseta félagsins. Las hann þá um leið nöfn nokkurra hinna nýju meðlima. Allar deildir félagsins kvað hann hafa starfað vel á árinu, og hefðu þær einnig gjört góð skil hinnar fjárhagslegu ráðmensku sinnar. Varaféhirðir las þá skýrslu **Baldursbrár**, og Ólafur Pétursson bar fram skýrslu **Skjalavarðar.**

**Reikningur féhirðis**

yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 18. febr. 1941 til 18. febr. 1942.

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| 18. febr. 1941: | |
| Á Landsbanka Íslands | $ 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 167.84 |
| Á Can. Bank of Commerce | 418.36 |
| | $ 688.00 |
| Gjafir í Rithöfundasjóð | $ 39.95 |
| Frá fjármálaritara | 438.25 |
| Fyrir auglýsingar í Tímaritið | 2,181.00 |
| Fyrir Barnasamkomu og Baldursbrá | 61.44 |
| Bankavextir og ágóði á veðbréfum | 57.97 |
| Borgað af dánarbúi E. G. Jóhannsons | 75.00 |
| Fyrir seldar myndir af Jóni Sigurðssyni | 3.60 |
| Samskot til Sögu-útgáfu | 505.00 |

Fyrir seld Dominion of Canada veðbréf ..... 500.00
Fyrir seld Prov. of Manitoba veðbréf ..... 1,004.10

Samtals ..... $5,454.31

ÚTGJÖLD:

18. febr. 1941:

| | |
|---|---|
| Eftirstöðvar af kaupverði 652 Home St., og reksturskostnaður frá 1. maí 1940 til 1. júlí 1941 | $2,315.46 |
| Kostnaður við ársþing og aukaþing | 115.15 |
| Ritstjórn og ritlaun Tímaritsins | 296.00 |
| Prentun 22. árg. Tímaritsins | 631.10 |
| Kostnaður við að safna auglýsingum | 545.22 |
| Ábyrgð á gjaldkera og fjármálaritara | 10.00 |
| Veitt úr Rithöfundasjóði | 25.00 |
| Ferðakostnaður forseta | 46.11 |
| Ferðakostnaður vara-forseta | 32.00 |
| Prentun og skriffföng | 51.63 |
| Laugardagsskólinn | 99.75 |
| Símskeyti, víxilgjöld og póstsendingar | 24.13 |
| Fjárframlög til Sögunefndarinnar | 700.00 |
| Til Ragnars H. Ragnar | 25.00 |
| Starfslaun Fjármálaritara | 45.10 |
| | $4,961.65 |
| Á Landsbanka Íslands | 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 438.19 |
| Á Can. Bank of Commerce | 30.88 |
| Í vörslum vara-féhirðis | 21.79 |
| Samtals | $5,454.31 |

Ásmundur P. Jóhannson, vara-féh.

Framanritaðan reikning höfum vér endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Manitoba, 20. febr. 1942.

G. L. Jóhannson S. Jakobson

**Yfirlit yfir sjóði félagsins**

15. febr. 1941:
Í byggingarsjóði ..... $ 32.38
15. febr. 1942:
Vextir ..... .16
—— $ 32.54

15. febr. 1941:
Í Ingólfssjóði ..... $ 884.80
15. febr. 1942:
Vextir ..... 4.42
—— $ 889.22

15. febr. 1941:
Í Leifs Eiríkssonar sjóði ..... $ 68.42
15. febr. 1942:
Vextir ..... .34
—— $ 68.76

15. febr. 1941:
Í Rithöfundasjóði ..... $ 90.71
15. febr. 1942:
Borgað í sjóðinn ..... 39.95
Vextir ..... .54

$ 131.20
Útborgað á árinu ..... 25.00
—— $ 106.20

15. febr. 1942:
Sjóðir samtals ..... $1,096.72
Á bönkum og hjá féhirði ..... 492.66

Innstæða hjá félaginu ..... $ 604.06

Lán til Sögunefndar árið 1940 ..... $ 600.00
Lán til Sögunefndar árið 1941 ..... 195.00
—— $ 795.00

Niðurborgun í byggingu, 652 Home St., 1940 ..... $2,000.00
Borgað á árinu 1941 ..... 2,315.46
Kostnaður við að breyta byggingunni ..... 5,969.19

Samtals ..... $10,284.65

31. des. 1941: Skuld,
fyrsti veðréttur ..... $5,000.00
Privat lán ..... 154.12

$5,154.12
—— $5,130.53

Ásmundur P. Jóhannson, vara-féh.

**Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1941**

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Á hendi frá fyrra ári | $ .25 |
| Frá meðlimum aðalfélagsins | 161.92 |
| Frá deildum | 268.10 |

| | |
|---|---|
| Frá sambandsdeildum | 21.00 |
| Seld Tímarit til utanfélagsm. | 12.65 |
| | $ 463.92 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Póstgjöld undir Tímarit og bréf | $ 17.03 |
| Umslög fyrir Tímarit | 8.64 |
| Afhent féhirði | 438.25 |
| | $ 463.92 |

Guðmann Levy

Framanritaðan reikning höfum vér endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Manitoba, 20. febr. 1942.

G. L. Jóhannson S. Jakobson

**Skýrsla "Baldursbrár"**

Frá 15. febr. 1941 til 15. febr. 1942

| | | |
|---|---|---|
| 19 bækur seldar | | $ 19.00 |
| Póstgjald | $ .56 | |
| Víxilgjald | .25 | |
| Afhent féhirði | 18.19 | |
| | $ 19.00 | $ 19.00 |

B. E. Johnson

**Ársskýrsla skjalavarðar**

yfir árið 1941

Tímarit óseld í Winnipeg:

| | |
|---|---|
| I-XXI árg. Hjá skjalav., eint. | 5538 |
| Hjá fjármálaritara | 15 |
| XXII árg. Hjá skjalav., eint. | 104 |
| Hjá fjármálaritara | 18 |
| | 5675 |

Tímarit á Íslandi:

| | |
|---|---|
| Samkv. síðustu skýrslu voru á Íslandi, eintök | 1415 |
| XIX árg. send til Íslands, eint. (1940) | 20 |
| XXI árg. send til Íslands, eint. (1940) | 188 |
| XXII. árg. send til Íslands, eint. (1941) | 200 |
| Samtals | 7498 |

XXII. árg. allur seldur og talsvert af eldri árg. hefir verið selt, en engin skýrsla yfir það borist til skjalavarðar frá Íslandi.

Skýrsla yfir XXII árg. Tímaritsins:

| | | |
|---|---|---|
| Til heiðursfélaga, rithöf. o. fl. | 35 | |
| Til umboðssölu á Íslandi | 200 | |
| Til augl. Tímaritsins | 130 | |
| Til fjármálaritara | 781 | |
| Hjá skjalaverði | 104 | |
| | | 1250 |
| Selt og útbýtt af eldri árg. | | 13 |

| | | |
|---|---|---|
| Þjóðaréttarstaða Íslands (sérprentun): Skýrsla frá 1939 | | 300 |
| Svipleiftur samtíðarmanna: Skýrsla frá 1940 óbreytt | | 133 |

Baldursbrá:

| | | |
|---|---|---|
| Hjá skjalaverði, I bók | 150 | |
| Hjá ráðsmanni, I bók | 8 | |
| Hjá skjalaverði, II bók | 172 | |
| Hjá ráðsmanni, II bók | 11 | |
| | | 341 |

Bókasafn:

Deildin "Frón" hefir umsjón yfir aðalbókasafni félagsins og mun leggja fram skýrslu því viðvíkjandi.

Winnipeg, 19. febrúar 1942.

Ólafur Pétursson, skjalavörður

Framanritaða reikninga höfum vér endurskoðað og höfum ekkert að athuga við þá.

Winnipeg, Manitoba, 20. febr. 1942.

G. L. Jóhannson S. Jakobson

Er allar þessar skýrslur voru framkomnar gjörðu þeir Sveinn Thorvaldson og Dr. S. E. Björnson tillögu um að vísa þessum skýrslum til væntanlegrar fjármálanefndar. Var sú tillaga samþykt.

Var nú liðið nær hádegi og var fundi frestað til kl. 1.30 e. h. samkvæmt tillögu frá Guðmann Levy og Elías Elíasson.

ANNAR FUNDUR

Annar fundur settur kl. 2 e. h. Fundarbók lesin og samþykt. J. J. Bíldfell gerði tillögu að öll bréf og kveðjur skyldu framkoma á sama stað í fundargerðunum, og samþykt þessa fundargernings frestað þar til fleiri bréf og kveðjur hefðu verið lesnar. Ólafur Pétursson studdi, og var það samþykt.

Las skrifari þá bréf og kveðjur frá Steingrími Jónssyni raffræðingi í New York, Ólafi Ólafssyni forseta Íslendingafélagsins í New York, Páli Guðmundsyni, Leslie, Rósmundi Árnasyni Leslie, Sigurði Helgason, Bellingham, Sigfúsi Benediktsson í Langruth ásamt kvæði sem forseti las. Einnig flutti hann kveðju og las kvæði frá séra N. S. Thorláksson, Canton, S. D. Ásm. P. Jóhannson bar þá fram árnaðaróskir og kveðju frá Guðmundi Grímsson dómara og Steingrími Jónssyni. Gat hann þess að þeir mundu koma síðar.

**Bréf og kveðjur**

Chicago, Ill., 17. febr. 1942

Það er í fyrsta skifti er eg kem hingað til Ameríku. Hefir mér þótt sérstaklega ánægjulegt að hitta marga Vestur-Íslendinga hér. Eg hefi verið á Íslendinga félagsfundum í New York í nóv. í haust og í Chicago í febr. og hafði mikla ánægju af því og hefði eg gjarna viljað geta komið á fund Þjóðræknisfélagsins núna en þannig hefir atvikast að eg hefi ekki geta komið því við, en vil þó með þessum fáu línum senda kveðju til Þjóðræknisfélagsins og árnaðaróskir um heillaríkt starf. Árni G. Eylands, formaður íslenska félagsins bað mig um að skila kveðju félagsins frá sér og félaginu með bestu árnaðaróskum.

Við Íslendingarnir, sem komið höfum vestur um haf á s. l. vetri í ýmsum verslunarerindum höfum komið líkt og í fyrra ófriði af því að verslunarsamböndin við önnur Norðurálfulönd hafa lokast. Áður en þessi ófriður hófst, hafði verið unnið að auknum verslunarviðskiftum milli Íslands og Norður-Ameríku með góðum árangri, svo að vænta má að varanleg viðskifti geti haldist í framtíðinni á ýmsum sviðum. Það sem um er að ræða í því sambandi eru einkum ýmsar daglegar nauðsynjar svo sem matvæli, ýms hráefni o. fl. En það sem okkur hefir legið mest á hjarta, er hingað höfum komið í vetur, eru kaup á ýmiskonar vélum til að fullnægja vaxandi þörfum heima fyrir. Það hafa orðið geysimiklar verklegar framfarir á Íslandi hina síðustu áratugina. Aðdragandi þeirra framfara er í raun og veru langur og er ekki hægt að rekja það hér hvernig lífskjör manna heima á Íslandi hafa smámsaman breytst úr hinni mestu niðurlægingu í verklegum efnum til þeirra verklegu framkvæmda, er átt hafa sér stað síðustu áratugina á nær öllum sviðum. Samt erum við enn á eftir mörgum þjóðum í verklegum efnum, einkum iðnaði, en furðulegt er þó hve mikið hefir sótst á í þá átt upp á síðkastið. Nokkur dæmi í sambandi við erindi okkar félaga sýna þetta best.

Erindi mitt hingað er að kaupa vélar og efni til aukninga í rafstöðvar okkar heima. Reykjavíkurbær tók ekki raforkuvinslu í sínar hendur fyr en eftir fyrra ófrið og var fyrsta stöðin bygð við Elliðaárnar 1920 og 1921, 1500 hestöfl, er síðan hafa verið smá aukin upp í 4500 hestöfl í þeirri stöð. Þá voru í Reykjavík tæpar 20 þús. íbúa.

Á árunum 1935-37 var bygð næsta stöðin við Ljósafoss í Sogi og þar sett upp 12,500 hestöfl. Þótti þetta allálitleg aukning. Nú eru þær vélar einnig fullnotaðar og vel og er því í ráði að bæta við 8000 hestöflum í þeirri stöð og fá vélar til þess héðan frá Ameríku eins fljótt og við verður komið. Hafa málaleitanir um það hér fengið hinar bestu undirtektir. Eru nú í Reykjavík tæpar 40 þús. íbúa.

Á sama hátt og farið hefir í Reykjavík hefir farið á Akureyri. Akureyrarbær bygði sína fyrstu almennings rafstöð í Glerá 1922 og 23 og síðan aðra stöð í Laxá frá Mývatni 1938. Hefir bærinn nærri 3000 hestöfl sem eru fullnotuð og er nú í ráði að kaupa 9000 hestafla vélar til viðbótar héðan frá Ameríku eins fljótt og hægt er. Svipað er að segja um Ísafjarðarkaupstað og fleiri staði.

Við teljum að vatnsafl á Íslandi sé um 4 miljón hestöfl og eru 2.7 milj. hestöfl af því talið í stóránum vel til þess fallið að virkja í stórum stíl til iðnaðar. Var þegar fyrir síðustu aldamót farið að hugsa um hvernig hagnýta mætti alt þetta afl og gera það að

verðmæti fyrir landið. Kunnastur þeirra manna er mest um þetta hugsuðu var Einar skáld Benediktsson. Þá var litið svo á að eina leiðin til þess að Íslendingar gætu haft gagn af hagnýtingu vatnsaflsins væri sú að fá útlend stóriðjufyrirtæki til að virkja vatnsaflið og setja upp iðjurekstur í sambandi við það. Þegar eitt þessara félaga sótti um sérleyfi árið 1917 til að virkja fossa í Sogi eignaðist Reykjavíkurbær þar sín fyrstu vatnsréttindi, til þess að geta notið góðs af væntanlegri virkjun félagsins. Var álitið að á annan hátt gæti bærinn ekki orðið aðnjótandi vatnsaflsins, því honum myndi um megn að virkja sjálfur.

Það varð ekkert úr því að hin útlendu félög réðust í virkjun á Íslandi og nú er svo komið að telja má víst að Íslendingar geti sjálfir virkjað alt það vatnsafl er möguleikar eru til að virkja yfirleitt. Úr Soginu öllu er hægt að fá yfir 100 þús. hestöfl og sú byrjun sem þar hefir verið gerð bendir á að ekki muni líða margir áratugir áður en það er notað alt. Frá þeirri einu stöð er auðvelt að teygja línur og leggja rafveitur um Suðurlandsundirlendi og Faxaflóa héruðin frá Reykjanesi og norður eftir, eftir því sem hagfeldast kann að þykja, en víða eru smærri fallvötn er virkja má eins hagfelt, svo sem Andakílsá úr Skorradalsvatni í Borgarfirði vestast eða nyrst á þessu orkuveitusvæði og Tungufoss í Eystri Rangá austast á svæðinu, á móts við Vestmannaeyjar. Er ekkert líklegra en mörg þessara fallvatna verði virkjuð og látin starfa við sameiginlegt veitukerfi um þenna landshluta, en þar býr fullur helmingur landsmanna frá Vestmannaeyjum til Borgarness. Þaðan eru mestar fiskveiðarnar reknar einkum togaraveiðar.

Á sama hátt og Sogið verður miðstöð fyrir raforkuvinslu á Suðvesturlandi, má búast við að Laxá úr Mývatni geti orðið fyrir Norðurland frá Húsavík að minsta kosti til Eyjafjarðar og Siglufjarðar. Úr Laxá má væntanlega fá yfir 100 þús. hestöfl. Heildaráætlanir hafa raunar ekki verið gerðar um það enn, enda er mannfjöldi á orkuveitusvæði því er nefnt var miklu minni en á Suðvesturlandi, ekki nema um 15,000 manns, sem stendur er notið gæti þessarar orku. En þarna eru allar aðal síldveiðistöðvar á landinu og hefir síldveiðin vaxið með ótrúlegum hraða þarna á hinum síðari árum og munu miklir möguleikar vera bundnir við þá atvinnugrein í framtíðinni.

Möguleikarnir til hagnýtingar á raforkunni eru eins og séð verður af þessu, bundnir einkum við kaupstaðina og þéttbýlið, en þaðan eiga að geta opnast möguleikar fyrir dreifingu raforkunnar út um sveitirnar svo að þær geti orðið sömu hlunninda aðnjótandi, en telja má að það verði landbúnaðinum lífsnauðsyn er frá líður. Nú er svo komið vinnuafli í landinu að taka verður vélar miklu meira í notkun en verið hefir. Í sveitum verða t. d. heyannir að fara fram með vélum miklu meira en gert hefir verið, enda þótt víða sé góð byrjun þegar gerð og þurkun heys þarf einnig að fara fram með vélum til að losna undan erfiðleikum veðráttunnar og til að fá betri afurðir.

Um kornræktina er það vitað að korn þroskast vel á Íslandi, en oft ekki fyr en svo síðla sumars að erfitt eða ógerlegt er að þurka það öðruvísi en með vélum. Sama gegnir um garðræktina er tekið hefir miklum framförum hin síðari árin. Þessi þurkunarmál eru teknisk atriði er ekki verða fyllilega leyst fyr en raforkuveiturnar ná til sveitanna. Nauðsyn þess er nú að verða brýn. Er í ráði nú að kaupa efni í rafveitur um nokkurn hluta Suðurlandsundirlendis og Reykjanes, ásamt vélakaupunum.

Það er ekki langt síðan farið var að leggja akvegi á Íslandi. Þegar rætt var um að leggja fyrsta spottann fyrir almanna fé vakti það nokkurn óhug manna og ótta um að það yrði til þess að setja landið á höfuðið fjárhagslega, ef einu sinni yrði byrjað á þessu. Var send bænarskrá til landshöfðingja, er þá var, um að hann sæi til þess að ekkert yrði úr þessu. En hann gerði það ekki. Síðan eru 50 ár. Nú eru ak-

vegir taldir 2,500 mílur, malarvegir bílfærir sumarlangt. Bestu vegirnir eru næst kaupstöðunum enda hefir vegakerfið vaxið út frá þeim; eru þeir vegir greiðfærir alt árið. Hönd í hönd við vegagerðina hefir brúargerðinni miðað áfram. Mér var einu sinni sögð sú saga úr Skagafirði nokkru fyrir aldamót. Þar var vaknaður áhugi manna fyrir því að brúa á eina í héraðinu og var leitað samskota innan héraðs í því skyni. Var meðal annara leitað til karls eins er var vel efnum búinn og áhugasamur um framkvæmdir er hann áleit horfa til framfara. En í brúargerðina vildi hann ekki leggja. Hvílík vitleysa að ætla sér að brúa allar ár á Íslandi eins og sumir töluðu um og að fara að brúa þessa einu á en skilja hinar eftir væru engar framfarir.

Nú er svo komið að brúargerðin er líklega það eina af framkvæmdum er byrjað hefir verið á á Íslandi sem sjá má fyrir endan á að lokið verði á fyrirsjáanlegum tíma.

Fyrir nokkrum árum síðan (1936) lét ríkisstjórnin að tilhlutun Sigurðar Jónassonar, forstjóra tóbakseinkasölu ríkisins, gera athugun á möguleikum fyrir byggingu áburðarverksmiðju á Íslandi og sementsverksmiðju. Sigurður heimsótti ykkur fyrir mánuði síðan og flutti þá ágætt erindi um Ísland og fréttir frá Íslandi. Í þessum verksmiðju áætlunum kom í ljós að áburðarverksmiðjan var fjárhagslega gott fyrirtæki og má vænta þess að hún verði reist undir eins og tímar leyfa að ófriðnum loknum. Sementverksmiðjan gaf ekki eins góða fjárhagsafkomu, en síðan hefir rannsóknum verið haldið áfram og má vænta þess að viðunandi árangur náist, þannig að verksmiðjan geti komist upp, en það má telja mikilsvert atriði í byggingariðnaði í landinu og vegagerð í framtíðinni. Við höfum engar járnbrautir. Allir flutningar á landi fara fram á bílvegum, en erfiðleikarnir eru miklir við malarvegina í okkar loftslagi, sem mikinn hluta árs sveiflast um frostmark ýmist yfir eða undir á víxl og úrkomudagar eru margir.

Eg þykist viss um að það verða ekki hinar venjulegu umferðatölur frá þéttbýlinu í öðrum löndum, sem ráða því hvort vegur verður sementssteyptur eða ekki.

Þar sem alt er í óvissu um hvernig umhorfs verður eftir ófriðinn er ekki gott að vita hversu fljótt þessar verksmiðjur komast upp, en þær verða væntanlega hinar fyrstu af því tagi er notað geta vatnsaflið á Íslandi í tiltölulega stórum stíl og fer þá svo um iðnaðinn eins og hagnýtingu sjálfs vatnsaflsins að það verða ekki útlend iðjufélög er starfrækja þetta fyrir okkur, heldur verður það þá fyrst að veruleika er við getum ráðið við að leysa það sjálfir.

Þeir félagar mínir er komu hingað vestur um leið og eg og nú eru nýlega farnir heim, voru í öðrum erindum en eg. Við vorum allir sendir af Reykjavíkurbæ eða á hans vegum. Þeir voru Tómas Jónsson borgarritari, Valgeir Björnsson bæjarverkfræðingur og K. Langvad hitaveituverkfræðingur. Þeir voru sendir til að kaupa efni í hitaveitu handa Reykjavík. Þegar Ljósafoss-stöðin var virkjuð var hún talin stærsta mannvirki er þá hafði verið ráðist í á Íslandi; kostaði hún 7 milj. ísl. kr. þá. Hitaveitan er enn stærra fyrirtæki og þykir útlendingum það all furðulegt fyrirtæki, miklu meira en okkur finst sjálfum.

Laugarnar á Íslandi hafa verið hagnýttar allmikið hina síðari áratugina til hitunar íbúðarhúsa, skólahúsa, sundlauga, gróðurhúsa o. fl., víða um land. Þvottalaugarnar gömlu í Reykjavík hafa verið notaðar á þann hátt í hitaveitu síðan 1930, er hitar stærsta barnaskólann með sundlaug, sundhöll bæjarins, Landspítalann og ein 50 íbúðarhús.

Áður en þvottalaugarnar voru teknar þannig í notkun voru gerðar boranir alt niður í 246 metra dýpi til að rannsaka vatnsmagnið og hitastigið. Tókst að auka vatnsmagnið 50% úr 2.2 gallóna rensli á sekúndu upp í 3.3 gallóna og hitastigið úr 192 stigum upp í 198. — Þvottalaugarnar eru um 2 mílur frá

þéttbýli Reykjavíkur. Reykjavíkurbær eignaðist síðan hitaréttindi tilheyrandi Suður Reykjum og Reykjahvoli í Mosfellssveit um 12 mílur frá bænum. Hefir verið borað þar í nokkur ár alt niður í 500—600 metra dýpi og hefir fengist upp um borholur oft 50 gallóna rensli á sekúndu eða það sem talið er að nægja muni til að hita öll hús í bænum. Vatnið er 189—198 stiga heitt upp úr holunum og er gert ráð fyrir að það verði leitt 180 stiga heitt inn í húsin. Verður því dælt frá borholunum í vatnsþrær í námunda við bæinn og þaðan rennur það inn í húsin. Í flestum húsum eru vatnshitunar miðstöðvar svo litlu þarf að breyta innanhúss, aðeins tengja hitalögu hússins við heitvatns götuæðina. Þetta mál hefir verið nokkuð lengi á leiðinni eftir að ákveðið var að framkvæma það. Hefir ófriðurinn valdið ýmsum töfum. Það var komið svo langt haustið 1939 að alt efni var keypt til þessarar hitaveitu og komst einn farmur heim vorið 1940, en eftir að sambandið lokaðist milli Íslands og Norðurlanda teptust aftur vörurnar sem eftir voru á hafnarbakka í Kaupmannahöfn. Stóð lengi í samningum um að fá þær með sérstöku leyfi hernaðarþjóðanna, en það mistókst. Var þá næst fyrir að reyna að fá vörurnar keyptar að nýju í Englandi, en það tókst ekki heldur og var komið fram yfir mitt sumar 1941, þegar um það var vitað. Síðan hefir verið unnið að því að fá vörunar keyptar hér og hefir það fengið góðar undirtektir svo að nú er von um að verkið komist upp á þessu ári.

Við það sparast innflutningur á 40 þús. tonnum kola árlega.

Möguleikarnir á hagnýtingu hitaorkunnar úr laugunum eru miklu meiri en aðeins til húsahitunar. Er enginn vafi á að til þeirrar þurkunar á heyi, korni eða garðávöxtum, er vikið var að hér að framan, á hitun með þessu móti mikla framtíð fyrir sér víða um landið þar sem hvera er að finna.

Hefir ríkisstjórnin tekið að sér að rannsaka möguleikana víða um landið með smáborunum og er þess að vænta að ekki líði á löngu áður en hún ræðst í mikilvægari boranir í rannsókna skyni.

Ísland hefir alla tíð verið fátækt af fjármunum og hefir því þurft að taka fé að láni erlendis til að koma á fót mörgum af þeim framkvæmdum er vikið hefir verið að hér að framan. Á þessu virðist nú vera skyndileg breyting af völdum ófriðarins. Ísland er nú komið inn í ófriðarsvæðið og tekur virkan þátt í vörn Norður Atlantshafsins. Íslendingar fiska um 80% af þeim fiski sem fluttur er inn til Bretlands og hjálpa þannig til við vörn landsins og er Ísland á þann hátt komið inn undir láns og leigu lög Bandaríkjanna frá síðasta hausti og fær greitt í Bandaríkjamynt andvirði afurða sinna. Á fyrstu ófriðarárunum voru viðskiftin beint við England og eignaðist þá Ísland innstæður í Englandi er nema munu einum 5 milj. sterlingspundum. Nú mun mega vænta þess að Ísland eignist innistæður hér er nægja muni til að kaupa allar nauðsynjar til landsins og auk þess vélar og tæki til þess að byggja þau fyrirtæki er lýst hefir verið að framan að nokkru. Að minsta kosti mun það fullur vilji ráðandi manna heima fyrir, að það fé er safnast kann nú verði notað til varanlegra framkvæmda til að byggja upp landið og atvinnuvegi þess eftir því sem hægt er.

Þeir Íslendingar er vestur hafa flutst til Ameríku og gerst amerískir borgarar hafa lifað framfara tímabil hér í landi annað eins og miklu meira en við heima og þeir hafa sýnt það að þeir stnda vel upp úr í mannhafinu hér, svo að við heima teljum okkur hafa ástæðu til að ætla að við munum geta staðið einnig upp á meðal stjálfstæðra þjóða þótt fámennir séum.

En til þess að geta búist við því eru það þó ekki hinar verklegu framkvæmdir einar er ráðu mestu um það til lengdar, heldur hið andlega og félagslega menningarlíf er okkur tekst að halda uppi.

Í því tilliti er nauðsynlegt að allir menn af íslensku bergi taki höndum

saman um að viðhalda og vernda það sem til er andlegra verðmæta og sjá til þess að upp geti vaxið öll þau fræ er skjóta kunna upp úr íslenskum jarðvegi hvort sem hann er vestan hafs eða austan. Það er okkar sameign.

Eg veit að Þjóðræknisfélagið hefir þegar unnið mikið og merkilegt menningarstarf um langt skeið hér vestra og hin tiltölulega unga íslenska deild á vætnanlega eftir að gera slíkt hið sama og félögin bæði að verða hvers annars stoð og styrkur.

Eg óska Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Winnipeg allra heilla og hamingju á komandi árum.

Steingr. Jónsson

Scarsdale, N. Y., 23. feb.

Rev. V. J. Eylands,
Secretary Icelandic Natl. League,
776 Victor St., Winnipeg

Icelanders in New York send their best wishes for a successful convention and continued success in the good work which you are doing.

Olafur J. Olafsson

Leslie, Sask.

Berðu þinginu kveðju mína ef eg kem ekki.

Páll Guðmundsson

Leslie, Sask.

Eg sendi þinginu hugheila kveðjuósk um blessunarríkt starf.

Rósm. Árnason

**Til íslenska Þjóðræknisfélagsins í Vesturheimi**
**Frá þjóðræknisvinum í Langruth, Man.**

Í virðingarfullu þakklæti fyrir yðar þýðingarmiklu starfsemi í yðar og vorum þjóðernismálum, sendum vér yður kæra kveðju vora og einlægar árnaðaróskir í von um góðan árangur og áframhaldandi starfsemi.

Yðar,
Langruth-búar

## ÍSLAND

(Lesið á Þjóðræknisþingi 1942)

Þú fjallkrýnda, eldþrungna, ísbundna land!
Eg ann þér og minnist þín með lotning.
Við þig fram í dauða mig bindur kærleiksband,
ó blessuð móðir, fagra Norðurs drotning. — —

Vér börn þín, sem flutst höfum vestur um ver,
með viðkvæmni tignum þig í anda.
Vor hjartfólgnust málefni helgum vér þér,
sem hjá oss æ í minning þinni standa.

Ó, fjallkrýnda, eldþrungna, ísbundna land!
Við árröðul frelsis ljós þín braga.
Þín spor munu gullletri greypt í tímans sand
og glitskrúði hjúpa nafn þitt Saga.

—Langruth, Man. —S. B. B.
21. febrúar 1942.

## ÆTTARAUÐURINN

(Flutt á Þjóðræknisþingi 1942)

Eg geyma vil minn ættarauð
Og engu af honum glata,
En drýgja vel sem daglegt brauð,
Er dafni mér til bata.
Hann er mér pund sem Guð mér gaf,
Ei grafa má í jörðu,
En láta vaxa og verða af
Guðs vöxt, þó mæti hörðu.

Það virðist sett í sjálfs míns vald
Að sökkva eða fljóta.
Eg lífs míns verð að greiða gjald
Til gagns eða dauða hljóta;
Því gengi allra gerða hér
Af Guði einum sett er,
Og afkoman því eftir fer
Og úttekt það sem rétt er.

Eg ábyrgð ber á öllu því
Sem eg er hér að gera,
Hvort líf mitt eigið legg þar í
Og læt mitt hlutverk vera,
Og lít á alt sem lánað pund,
Á leigu verð að setja,
Og lífs míns hverja leigða stund
Eg læt mig áfram hvetja.

Þá verður ættarauðurinn
Og erfðafé til happa,
Og arðsæll þjóðararfurinn,
Er orku í dáð mun stappa.
Þá þrífst hver sál við þjóðararf
Og þrúðga minning áa,
Og þjóðar stóreflt verður starf
Og stefnumið hið háa.

—Canton, S. D., mars '41. N. S. Th.

Tillaga Ásm. P. Jóhannssonar, studd af Bjarna Dalman, að árnaðaróskir, skeyti og bréf skuli þakka með því að allir standi á fætur.

J. J. Bíldfell var þá boðinn velkominn heima af forseta, og ávarpaði hann þingheim. Hafði hann dvalið langvistum meðal Eskimóa norður í óbygðum. Hafði hann lært að meta góða kosti þess fólks og bar því góða sögu. Lýsti annars ánægju sinni yfir því að vera aftur heim kominn á sínar fornu heimastöðvar.

Þorsteinn Gíslason og Elías Elíasson lögðu til fyrir hönd dagskrárnefndar að prentaðri dagskrá, eins og hún var í blöðunum sé fylgt, og hún gjörð að dagskrá þingsins.

Á. P. J. og Guðm. Levy lögðu til "að skýrslan sé samþykt eins og liggur fyrir". Samþykt.

Guðm. Levy og S. S. Laxdal lögðu til að skipuð yrði 3 manna fjármálanefnd. Var tillagan samþykt og þessir skipaðir af forseta:

Ásm. P. Jóhannson
Ó. Pétursson
T. J. Lifman

Formaður kjörbréfanefndar, G. Levy, lagði fram skýrslu sína.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

Fulltrúar frá eftirfarandi deildum eru staddir á þinginu og hafa atkvæði sem hér segir:

"Brúin", Selkirk, Man.:
Mrs. Thora Oliver, 20 atkvæði
Mr. Bjarni Dalman, 20 atkvæði
Mr. Einar Magnússon, 20 atkvæði

"Esjan", Árborg, Man.:
Dr. S. E. Björnsson, 10 atkvæði
Mrs. S. E. Björnson, 10 atkvæði
Valdi Jóhannesson, 10 atkvæði
B. J. Lifman, 10 atkvæði
Mrs. Herdís Eiríksson, 10 atkvæði
Elías Elíasson, 10 atkvæði

"Báran", Monutain, N. Dak.:
Sigmundur Laxdal, 20 atkvæði
Hjörtur T. Hjaltalín, 20 atkvæði
Guðmundur J. Jónasson, 20 atkvæði

"Ísland", Brown, Man.:
Th. J. Gíslason, 12 atkvæði
Jón J. Húnfjörð, 12 atkvæði

"Ísafold", Riverton, Man.:
Jón Sigvaldason, 19 atkvæði
Árni Brandson, 19 atkvæði.

Auk framantaldra fulltrúa hafa allir skuldlausir meðlimir aðalfélagsins og deildarinnar Frón atkvæðisrétt.

Guðmann Levy
Bergthór E. Johnson
Friðrik Swanson

J. Húnfjörð og Hjörtur Hjaltalín skiluðu kjörbréfasamþykt.

**Skýrslur deilda**

Sveinn Thorvaldson las ársskýrslu deildarinnar "Ísafold" í Riverton:

**Ársskýrsla deildarinnar "Ísafold" 1941**

Deildin "Ísafold" varð tveggja ára gömul 23. nóv. 1941. Ýmsra orsaka vegna var ekki hægt að koma því við að hafa ársfundinn fyrir jól svo þessi skýrsla verður frá síðasta ársfundi, sem haldinn var 12. febr. 1941 — 28. jan. 1942.

Á árinu hafa verið haldnir 5 fundir.

Tveir almennir fundir, og var sá fyrri, sem var ársfundur, haldinn 12. febr., eins og áður er getið. Starfsnefnd fyrir árið var þessi:

S. Thorvaldson, M.B.E., forseti; G. Sigmundson, vara-forseti; Mrs. Kristín S. Benedictson, ritari; Gestur Vídal, vara-ritari; E. Árnason, frjámálaritari; J. Sigvaldason, vara-fjármálaritari; séra E. J. Melan, skjalavörður.

Þrír nýir meðlimir gengu í deildina á þessum fundi og var sextán félagaspjöldum útbýtt. Fór svo fram stutt skemtiskrá, og að lokum íslenskar veitingar, eins og vanalegt er á öllum okkar almennu fundum.

Næsti almennur fundur var haldinn 18. mars. Á þessum fundi sagði forseti fréttir af Þjóðræknisþinginu. Var upphörvandi að heyra að Þjóðræknisfélagið væri mun fjölmennara en í fyrra, og að margir meðlimir væru búsettir á Íslandi. Einnig tengir það okkur Austur- og Vestur-Íslendinga nánari böndum, að nú tekur Þjóðræknisfélagið á móti gestum og stúdentum, sem hingað koma til framhaldsnáms.

Fyrsti starfsnefndar fundur á árinu var haldinn 3. sept. 1941. Á meðal annars var íslensku kenslumálið rætt. Var afráðið að byrja Laugardagsskólann þegar daglegi skólinn væri "kominn vel á laggirnar". Líka var gerð tillaga um að reyna að fá skólahúsið lánað fyrir kensluna. Var svo nefndarmönnum falið á hendur að útvega kennara, sem vantaði fyrir komandi tímabil, og svo að auglýsa skólann.

Annar starfsnefndar fundur var haldinn 8. des. Voru ráðstafanir gerðar í sambandi við jólin. Var samþykt að nemendum Laugardagsskólans skyldu gefin íslensk kort, með völdum versum, og að eftir nýárið yrði þeim gefnir aðgöngumiðar að hreyfimyndasýningu, þegar hæfileg mynd yrði sýnd.

Þriðji starfsnefndar fundar var haldinn 19. jan. Var sá fundur hafður til að undirbúa ársfundinn, sem ákveðinn var að skyldi haldinn eins og áður er getið, 28. jan. 1942.

Laugardagsskólinn hefir gengið frekar vel. Í vetur sem leið, 1940—41, voru milli 60—70 börn innrituð, og sýndu þau yfirleitt mikinn áhuga fyrir að læra móðurmál sitt.

Húsplássið var frekar óhentugt, en aðallega eru það hæfilegar bækur og lexíur sem okkur vanhagar um ef kenslan á að verða að tilætluðum notum. Væri ekki mjög æskilegt að Þjóðræknisfélagið gengist fyrir að láta útbúa lexíur, sem hentugar væru fyrir börn sem eru dálítið farin að lesa? Væri ekki vel við eigandi að örstutt og auðskilið ágrip af Sögu Íslands yrði einnig gefið út og kent? Við lærum helstu atriði í sögu annara þjóða ásamt tungumálum, því þá ekki að gera okkur sjálfum jafn "hátt undir höfði".

Í vor, 26. maí 1941 var haldinn loka samkoma og tóku börnin algerlega þátt í skemtiskránni, sem var al-íslensk. Þó undirbúningur væri lítill, gerðu börnin öll fram yfir vonir vel. Níu af þessum börnum eru hálf-íslensk og tvö annara þjóða.

Skólinn byrjaði aftur í haust, 25. nóv. 1941. Nú eru innrituð milli 50—60 börn — nokkur af þeim elstu eru hætt, og fáein flutt í burtu. Eftir jólin lærðu börnin versin á jólakortunum og var verðlaunum útbýtt fyrir framsögn á þeim. Aðgöngumiðum var útbýtt til allra barnanna sem skólann sóttu 10. jan. 1942. Var þetta alt gefið af velunnara deildarinnar.

Nú eru kennarar skólans þessir: S. Thorvaldson, M.B.E., E. Árnason, Mrs. Kristín S Benedictson, Mrs. Vigdís Pálsson, Miss Florence Rockett, Marinó Elíasson. Tvö þau síðast nefndu, annast um söngkenslu í skólanum.

Á árinu — 9. nóv. 1940—25. nóv. 1941 — hafa verið 42 kensludagar. Nú fer kenslan fram í daglega skólanum og er starfsnefndin mjög þakklát skólanefndinni fyrir lánið á húsplássinu.

Um þessi áramót 1941-42, eru 37 fullorðnir meðlimir og 13 börn og unglingar innrituð í deildina "Isafold".

Riverton, Man., 7. febr. 1942.

E. Árnason, forseti
Kristín S. Benedictson, skrifari

Starfsnefnd fyrir árið 1942: E. Árnason, forseti; G. Sigmundson, vara-forseti; Mrs. K. S. Benedictson, ritari; Mrs. Anna H. Árnason, vara-ritari; M. Elíasson, fjármálaritari; Jón Sigvaldason, vara-fjármálaritari; Árni Brandson, skjalavörður.

Sveinn Thorvaldson og Á. P. Jóhannson lögðu til að skýrslan skyldi viðtekin eins og hún var lesin. Samþykkt.

Einar Magnússon, Selkirk, lagði fram skýrslu deildar sinnar "Brúin" í Selkirk.

**Þjóðræknisfélagsdeildin "Brúin"**
**Ársskýrsla skrifara fyrir árið 1941**

Meðlimatala deildarinnar er 62 að tölu. Fjórir starfsfundir hafa verið haldnir á árinu og einn aukafundur.

Kenslunefnd deildarinnar leitaði sér upplýsinga viðvíkjandi hvort hægt væri að hafa íslenskukenslu þennan vetur, og var farið til foreldra þeirra barna er á þeim aldri voru, og var tekið vel í það, en þar sem erfitt er að fá nokkurn til að taka að sér kensluna hefir ekkert verið gert í því að svo stöddu.

Þar sem skýrsla frá bókanefnd hefir ekki verið útbúin vil eg geta þess að meðlimir hafa notað sér vel bækur þær er félagið hefir undir höndum. 1,767 bækur hafa verið lánaðar út á árinu, og vil eg sterklega mæla með því, að nauðsynlegt er að halda þessum bókum við. Nokkrar bækur hafa verið settar í nýtt band á árinu, en margar eru samt eftir sem nauðsynlegt er að gera við sem fyrst.

Nokkrar nýjar bækur hafa verið keyptar á árinu, sömuleiðis gaf Mrs. Elísabet Björnson deildinni margar gamlar og góðar sögur og rit, og flestar af þeim í góðu bandi, og er deildin þakklát Mrs. Björnson fyrir þá gjöf.

Deildin hefir mist tvo góða starfsmenn á árinu, Mr. Th. Thorsteinsson er flutti búferlum til Portage, og Jón Henry er andaðist síðast liðið haust. Báðir þessir menn unnu með alúð og trygð að velferð deildarinnar, og finnur hún til þess að missirinn er mikill.

Að endingu vil eg þakka öllum meðlimum og starfsmönnum fyrir góða viðkynningu á árinu og áminna meðlimi um að nauðsynlegt er að sem flestir taki þátt í starfi félagsins á komandi ári.

| | |
|---|---|
| Inntektir á árinu, 5 arðberandi samkomur og fleira | $ 243.70 |
| Útgjöld | 207.50 |
| Í banka | $ 36.12 |

Ásta Erickson, ritari

Á. P. Jóhannson og Þorsteinn Gíslason lögðu til að skýrslan sé viðtekin. Samþykkt.

Mrs. Eiríksson bar fram skýrslu deildarinnar "Esjan" í Árborg.

**Skýrsla frá deildinni "Esjan"**
**Árborg, Man.**

Meðlimatala 60. Inntektir á árinu $209.82. Útgjöld $158.95. Í sjóði $50.87.

Inntektir voru meðlimagjöld og arður af samkomum sem haldnar voru á árinu. Eitt aðalstarf deildarinnar er starf laugardagsskólans og er þetta annað árið sem hann hefir starfað.

Það hafa verið færri börn í ár en í fyrra en áhugi hjá þeim sem hafa stundað námið er að okkar áliti í góðu lagi. Einn nemandi er af pólskum ættum og nokkrir hálf-íslenskir. Einnig má minnast þess að yfirkennari miðskóla Árborgar er nemandi laugardagsskólans.

Lestrarfélagið "Fróðleikshvöt" sameinaðist þjóðræknisdeildinni. Hefir tekist góð samvinna. Meðlimatala hefir aukist og nýtt líf færst í hana.

Bókasafnið ræður nú yfir 900 bindum, flest góðar bækur og mikið lesnar.

Á lokasamkomu laugardagsskólans skemtu aðeins skólabörn og tókst vel. Ágóðanum var að mestu varið til viðhalds skólanum.

Á samkomu sem deildin hélt í Geysir hafði Soffonías Thorkelsson erindi.

Á samkomu í Árborg síðar í haust, skemtu þau Ragnar Stefánsson og Mrs. E. P. Johnson. Þökkum við kærlega þá aðstoð alla.

(Aths.: Skýrsluhöf. hefir láðst að undirrita þessa skýrslu, sömuleiðis að geta um embættismenn deildarinnar).

S. S. Laxdal og Einar Magnússon lögðu til að skýrslan sé viðtekin eins og hún var lesin. Samþykt.

Þorsteinn Gíslason lagði fram skýrslu deildarinnar "Ísland" í Brown:

**Ársskýrsla Þjóðræknisdeildarinnar "Ísland", Brown, Man.**

Fimm starfs- og skemtifundir hafa verið haldnir á árinu sem leið. Félagsskapurinn gengur vel, þó um engin stór félagsleg tilþrif sé að ræða.

Þessi litli íslenski hópur hér reynir að halda þessum félagsskap vakandi. Við reynum að hafa þessa íslensku fundi okkar eins skemtilega og aðlaðandi og við getum.

Þann 12. des. s. l. heimsóttu deild okkar góðir gestir, þeir S. S. Laxdal og Guðm. Jónasson frá Garðar og Rögnv. Hillman frá Mountain, og skemtu okkur ágætlega. Þessi heimsókn "Bárumanna" hafði verið ráðgerð tvisvar áður, en farist fyrir sökum slæmra vega og óhagstæðs veðurs. Hafi þeir kæra þökk fyrir komuna. Vonandi að þessar heimsóknir haldi áfram, því að fátt glæðir áhuga í félagi voru meira en einmitt þetta, heimsókn góðra, alúðlegra, áhugasamra og skemtilegra félaga frá öðrum deildum.

Meðlimatala deildar okkar lík og verið hefir — um 26 meðlimir deildarinnar og aðalfélagsins, auk þess um 80 heimafélagar (associate members) á ýmsum aldri.

Embættismenn kosnir á ársfundi í janúar: Sigurður Ólafson, forseti; Guðrún Thómasson, ritari; Jónatan Thómasson, fjármálaritari; Thorst J. Gíslason, féhirðir.

Með innilegum óskum til þingsins.

Virðingarfylst,

Thorsteinn J. Gíslason

Á. P. Jóhannson og S. S. Laxdal lögðu til að skýrslan sé viðtekin og samþykt. Var það gert.

Skrifari las skýrslu frá deildinni "Báran" í Mountain::

**Ársskýrsla "Bárunnar" 1941**

Á þessu umliðna ári var það helsta verkefni deildarinnar að halda áfram kenslu í íslenskum söng og lítillega tilsögn í íslensku. Á þessu hvorutveggja var byrjað 29. mars. Frá þeim tíma og þar til 14. júní voru kenslustundir hafðar í ísl. á hverjum laugardegi (12 stundir í alt). 28 unglingar innrituðust, en meðal aðsókn á dag hvern aðeins 16. Af því má dæma hve mikill áhugi er fyrir íslensku námi hér í Eyfjörð og Mountain bygðum, hjá foreldrum og börnum þeirra. Önnur bygðarlög hafa ekkert viljað sinna því. Þeir sem veittu tilsögn voru: Miss Kristbjörg Kristjánson, Mrs. T. V. Björnson, Miss Doris Björnson og undirritaður.

Söngkensla barnakóranna á Garðar og Mountain var undir umsjón Mrs. Wm. Olgeirson, og Miss Katrínar Arason þar til í byrjun júní að R. H. Ragnar tók við. Undir þeirra umsjón innrituðust 30 í Mountain flokkinn, en 23 á Garðar. Eftir að Ragnar byrjaði að æfa bættust 9 börn við í Mountain-flokk, svo að hinum var skift í tvent. Í yngri flokknum urðu þá 14 en 25 í þeim eldri. — Eða 62 í þremur barnasöngflokkunum. Á sama tíma byrjaði Mr. Ragnar að æfa Karlakórinn og blandaðan kór, upp á ábyrgð deildarinnar, með samþykki allra hlutaðeiganda. Og ennfremur æfði hann nokkuð stóran flokk vestur í Fjallabygð, sem ekki hafði áður verið æfður í söng.

Samkomur: — Sumarmálasamkoma var sú fyrsta, og var skemtiskráin að mestu frá utanbygðarfólki. Dr. R. Beck sem stýrði samkomunni með sínum vanalega skörungsskap of fyndni, Mr. Þórhallur Ásgeirsson frá Minneapolis, sem allir Íslendingar kannast við. Matth. Thorfinnson og dóttir hans Doris, sem öll fluttu sitt erindið hvort. Þau feðginin töluðu á ensku og var góður rómur ger að öllum þessum ræðum. Á milli ræðanna sungu barnakórarnir undir stjórn Mrs. Wm. Olgeirson, og aðstoð Miss Katrín Arason, og tókst vel. Nokkrir krakkar höfðu einnig framsögn

á ísl. — Yfir það heila var samkoman mjög uppbyggileg og ánægjuleg.

Næsta samkoma var haldin á fæðingardag Jóns Sigurðssonar. Var deildin þá enn svo lánsöm að fá hæfileika menn að, til að skemta fólkinu, þá: skáldið G. J. Guttormsson frá Riverton, verksmiðjustjóra Sóffonías Thorkelsson frá Winnipeg og lögfræðinginn Ásmund Benson frá Bottineau, N. D. Þessir menn fluttu sína ágætisræðuna hver. Hinir tveir fyrnefndu á íslensku, en Mr. Benson á ensku.

Karlakórinn lagði til sönginn undir stjórn hr. Ragnars sem einnig var forseti dagsins, og sýndi þar sömu röggsemina eins og á tónlistarsviðinu.

Fyrir alla hjálp við þessar áminstu samkomur er deildin í þakklætisskuld. Sérstaklega við það fólk sem kom langt að til að skemta okkur, án þess að taka nokkra borgun, nema naumlega fyrir ferðakostnaði. Og Mr. Benson og dr. Beck ekki neitt.

Þá voru 3 "concerts" haldin í júlí, á Garðar, Mountain og Cavalier. Á Garðar söng Karlakórinn, Garðar-barnakór og yngri barnaflokkurinn frá Mountain, ásamt "double trio" og fjórum "sólóistum". Á Mountain söng blandaði kórinn, barnaflokkarnir báðir, "double trio", 3 sólóistar og Quartette.

Í Cavalier allir flokkarnir, og auk þess sólóistar. Hið sama "double trio" og Quartette, fjórir synir Mr. og Mrs. Péturs Hermans.

Inntektir við framantaldar 5 samkomur, sem tilheyrðu söngstarfinu, urðu $411.69. Útgjöld $374.50, ágóði af því starfi $37.19. Aðrir inntektir á árinu $51.44. Önnur útgjöld $56.07, þar af $30.00 varið til bókakaupa. Samlögð útgjöld $430.57. Samtals inntektir $463.13. Ágóði af ársstarfi deildarinnar $32.56 Í sjóði frá ársbyrjun 1941, $12.33. Í sjóði við ársbyrjun 1942, $44.89.

Þá mætti geta þess að forseti deildarinnar, W. G. Hillman, ásamt Sigmundi Laxdal og G. J. Jónassyni, heimsóttu Brown-deildina "Ísland" s. l. haust og tóku þátt í prógrami á fundi þeirra. En að hvað miklu liði þeir urðu þar kunnum vér eigi frá að segja, en vel létu þeir af heimsókninni. Þessi ferð var farin fyrir áeggjan dr. Beck. Brownbúar segjast ekki fá að fara suður yfir línuna til að hjálpa okkur með prógram, en eg held það sé bara fyrirsláttur.

Við finnum til þess að við erum hálfdauðir limir á þjóðræknistrénu, og væri því máske heppilegra að höggva okkur af, og hlúa, þeim mun betur að þeim greinum sem meira líf er í. Þessu til sönnunar má geta þess, að aðeins einu sinni á árinu lukkaðist að fá nógu marga saman á lögmætan fund. Þó auglýst væri í tæki tíð. Framkvæmdarnefndin mætti sex sinnum á árinu.

Þrátt fyrir alla meinbugi framantalda viljum við undirritaðir, fyrir hönd deildarinnar, óska Þjóðræknisfélaginu til heilla og hamingju í framtíðinni og heppilegra úrslit allra mála á þessu þingi.

Virðingarfylst,
W. G. Hillman, forseti
Thorl. Thorfinnson, skrifari

Mountain, N. D., 21. febr. 1942

Rev. V. J. Eylands,
Winnipeg, Man.

Kæri félagsbróðir:

Mér láðist að geta þess í ársskýrslu "Bárunnar" hvað margir félagsmenn hefðu dáið á árinu. Þeir voru þrír: J. K. Einarsson, Cavalier; Geirmundur B. Olgeirsson, Garðar og Thorgils Halldórsson, Mountain.

Meðlima tala nú 94 (fullgildir meðl.). Um tölu "social" meðlima veit eg ei með vissu.

Deildin hér hefir látið **óánægju** sína í ljósi yfir því að Þjóðræknisþingið skuli vera haldið á þessum tíma árs, þegar allra veðra er von, og vegir oft illfærir, eða ófærir. Þetta snertir ekki einungis okkur hér syðra, heldur allar þær deildir, sem eru utan Winnipeg-borgar. Þetta hefir áður komið til tals á þingi, og tillaga samþykt um að stjórnarnefndin taki það til yfirvegunar, en ekkert hefir ennþá verið gert í því. Okkar fulltrúar hafa verið beðnir að hreyfa þessu nú

aftur á þinginu, og vonum við að það verði tekið til greina á einhvern hátt.

Virðingarfylst,
Thorl. Thorfinnson

Tillaga Ól. Péturssonar og J. J. Húnfjörð að skýrslan sé samþykt. Samþykt.

Skýrsla frá Junior Icelandic League. Mrs. Líndal las fyrst bréf frá forseta, Ó. B. Pétursson, og síðan skýrslu deildarinnar á ensku. Skýrði hún svo aðaldrættina úr skýrslunni á íslensku.

42 Evanson Street,
Winnipeg, Man.,
Feb. 22, 1942.

The Icelandic National League,
Winnipeg, Manitoba.

Dear Sirs:

On behalf of the Executive Committee and members of the Junior Icelandic League, I wish to extend to you on this opening day of your annual meetings, our greetings and best wishes.

We wish to thank the senior body for pleasant relations in the past and express the hope that they may continue unabated in the future.

May success attend all your deliberations.

Sincerely yours,
O. B. Petursson, Pres.
Junior Icelandic League

**Annual Report of the Junior Icelandic League**

February 1941 to February 1942

Mr. Chairman, Ladies and Gentlemen:

Before submitting the report of the Junior Icelandic League, we wish to pay tribute to the memory of the late Mr. Arni Eggertson, treasurer for many years of the Icelandic National League, in whose passing we, of the younger generation sustain a great personal loss, for in Mr. Eggertson we had an understanding and sympathetic friend who never hesitated to mingle with us, and be as one of us, of the younger generation. Though we, the Icelandic people, are a small nation, it is the accomplishments of men like Mr. Eggertson that gain for us and our nation the high regard of other nations. His many fine attributes will long be a source of inspiration to us. May his memory be blessed.

I now turn to the reports of the Junior Icelandic League:

Reports of meeting and general activities are as follows:

This past year we have held five successful general meetings at the Antique Tea Rooms. The attendance at each meeting has been about fifty. At our meetings whose object was both entertainment and instruction, we have had as guest speakers, and entertaining artists: Rev. V. J. Eylands, Miss Linda Hallson, Miss Mabel Thorgeirson, Mrs. Steinthorsson, Dr. L. A. Sigurdson, and Mr. G. L. Johannsson. It has been a pleasure anda privilege to have been able to have these people at our meetings, and we are grateful to them for giving to us both of their time and their talents.

As usual, in addition to general meetings we have had numerous social and sport events. The outstanding sports event now is the annual Archery competition held at the Icelandic Celebration at Gimli, coached and directed by Mr. Dori Swan. Last year the Union Loan and Investment Co., donated a silver cup for this competition, which is known as the "Petursson Trophy".

We continued our custom of observing Iceland's Day of Independence by holding a dance at the Marlborough Hotel ond December 5, 1941. The proceeds of this dance went to the Jon Sigurdson Chapter of the I.O.D.E.

The Junior Icelandic League endeavored to obtain a film "Iceland on the Prairies" to be shown at the convention here last year. Unfortunately the film was not available soon enough. However, it was shown in May under the joint auspices of Men's Club of the First Lutheran Church and this organization. The proceeds of approximately $60.00 were donated to the Jon Sigurdson

Chapter of the I.O.D.E. The Junior League showed this film again at Gimli, and the proceeds of about $28.00 were donated to the Old Folks Home "Betel".

The Junior Icelandic League took the initiative in arranging an exceptionally successful banquet for Miss Maria Markan last May; in holding a Banquet for Judge Lindal on his apppointment to the bench early this month, and in having an English section introduced into the Icelandic papers.

Our membership is now over one hundred. Thanks are due to the membership committee for this achievement, as this represents the largest membership we have had since the inauguration of the J.I.L.

Climaxing these meetings and other activities, a new slate of officers was elected. These are: President, Arni G. Eggertson; Vice-Pres. Paul Thorkelsson; Treasurer, Elin Eggertson; Secretary, Helga Arnason. Members at large: Hugh Hannesson, Hjálmur Danielson, Lára B. Sigurdson. Social Committee: Hazel Reykdal, Sigrún Lindal, George Asgeirson, Paul Clemens, Margaret Hjaltason. Sports: Stan Tallman, Gerry Bardal, Anna Skaptason, Grace Reykdal, Eddie Stephenson.

This report is respectfully submitted.

O. B. Petursson, pres.,
Junior Icelandic League

Á. P. Jóhannson og Ari Magnússon lögðu til að skýrslunni sé veitt móttaka. Nik. Ottenson reis úr sæti sínu og gerði þá athugasemd, að hann teldi óheppilegt að fylla dálka íslensku blaðanna með ensku máli. Till. var annars ekki rædd frekar en samþykt.

Ritari lagði fram skýrslu sambandsdeildarinnar

**"Harpan" í Bellingham, Wash.**

Þegar Mr. H. S. Helgason flutti til Bellingham, var eitt af því fyrsta sem kom í huga hans hvort mögulegt myndi að stofna í bæ þessum íslenskan söngflokk . Musik er aldrei mjög fjærri huga hans. Gerði hann því þá tilraun að auglýsa í dagblaði bæjarins eftir íslensku söngfólki. En þó að Íslendingar séu mjög sönggefnir og enda lagvissir, þá eru þeir samt ekki fram úr hófi framgjarnir, og hefir líkast til fáum þeirra fundist þeir hæfir til að láta sjá sig á slíkum samfundi sem kallaður hafði verið af Mr. Helgasyni. Árangurinn varð því sá, að sárfáir komu á þennan fund, sem átti að haldast á hóteli. Ekki sálaðist þó hugmyndin hér, því nokkru seinna tókst honum með hjálp ýmsra annara, að stofna söngflokk, og þó hann væri í fyrstunni heldur fámennur, og sumt af efninu ekki af allra bestu tegund (hvað sönglist snertir) þá samt bættust ýmsir við, og söngstjórnin var svo makalaus að eftir dálítinn tíma var stofnun þessi orðin að stórum söngflokki, er söng víða bæði íslenska og amerikanska söngva. Hélt kveldsöngva í mörgum stöðum í norðvestur Washington og söng á mörgum skógargildum og öðrum samkomum skandinaviskra þjóðflokka.

"Harpa" hafði þann heiður síðastliðið sumar að taka á móti, og gjöra dálitla veislu til skemtunar hinum velþekta dr. Richard Beck. Það var mikil gleði og ánægja fyrir söngflokkinn að kynnast þessum þíða, glaðlyndi og gáfaða Íslendingi og hélt hann ágætis ræðu kvöld þetta, en "Harpa" aftur á móti stilti strengi sína honum til æru. Virtist alt þetta ánægjulegt til fjöldans er viðstaddur var.

Síðan þetta yfirstandandi stríð byrjaði hefir "Hörpu" heldur hnignað, þar eð margir af meðlimum hennar hafa verið nauðbeygðir til að flytja í burtu frá Bellingham, en vonandi er að félag þetta nái aftur fullum gróða, og blómgist, og breiði út arma sína til gleði og ánægju fyrir þá sem elska sönglistina. "Harpa" hefir ennþá eins góðan leiðanda og söngstjóra sem hægt er að óska eftir (Mr. Helgason). Einnig hefir hún ágætis meðspilara (Mrs. Maymer Popple Rowlands). Er þetta ekki góð undirstaða til að byggja á góðan söngflokk?

Christine Swanson

J. J. Bíldfell og S. S. Laxdal lögðu til að skýrslunni sé veitt móttaka.

Ritari lagði fram skýrslu deildarinnar "Iðunn" í Leslie.

**Ársskýrsla deildarinnar "Iðunn", Leslie, Sask.**

Á þessu s. l. ári hafa aðeins verið haldnir tveir bókfærðir fundir. En þar á milli hefir stjórnarnefnd deildarinnar, skotið á skyndifundum, rætt og ráðgert og stundum framkvæmt. Aðal viðburðúr ársins í þjóðræknismálum, var koma forseta Þjóðræknisfélagsins, Dr. Beck, hingað til Leslie. Í því sambandi efndi deildin til skemtisamkomu. Flutti Dr. Beck þar snjalt erindi um skáldið Jón Magnússon.

Einnig stóð deildin fyrir heimsókn er gjörð var til deildarinnar "Snæfell" að Churchbridge, Sask. Var það hin besta skemtun þeim er þátt tóku í ferðinni, og glæddi vinarhug og samband milli bygðanna. Er fullkomin ástæða að álíta að þessi ferð hafi orðið vísir að áframhaldandi heimsóknum og nánari viðkynningu. Séra Carl Olson átti mikinn þátt í því að þessi ferð var farin og þökkum vér hér með hans þátttöku.

Bókasafn deildarinnar hefir verið starfrækt og nýjum bókum bætt í safnið. Meðlimatala að mestu haldist sú sama 24 s. l. ár.

Af meðlimum deildarinnar hafa tveir látist s. l. ár, Andrés Eyjólfsson og Jón Hallson. Báðir hafa tilheyrt deildinni frá stofnun og stutt þjóðernismál af íslenskum drengskap. Deildin vottar samúð og hluttekningu aðstandendum hinna látnu.

Samkvæmt skýrslu féhirðis hafa útgjöld og inntektir á árinu verið. Í sjóði frá fyrra ári $19.67. Inntektir $33.95. Útgjöld $29.69. Í sjóði hjá gjaldkera $23.95.

Virðingarfylst,

Rósm. Árnason, ritari

J. J. Bíldfell og Guðmundur Jónasson lögðu til að skýrslan sé meðtekin. Samþ.

Skrifari las fundarsamþykt frá deildinni Snæfell í Churchbridge, Sask.

**Fundarsamþykt**

Á fundi deildarinnar "Snæfell" við Churchbridge, Sask., var eftirrituð yfirlýsing gerð og samþykt:

Fundurinn lýsir yfir ánægju og þakklæti Þjóðræknisfélaginu og Dr. Richard Beck fyrir heimsóknir hans á liðnum árum, og fyrir hans stórmikla áhuga og ágæta hvatningu í garð íslenskra þjóðræknismála.

Fundurinn æskir þess af alhug, að það megi vænta heimsóknar Dr. Beck á þessu ári, eins og að undanförnu.

Churchbridge, 21. jan. 1942.

Þá var tekið fyrir 7. mál á dagskrá, **skýrslur minniþinganefnda.** Dr. Sig. Júl. Jóhannesson bar þá fram

**Skýrsla sögunefndar**

Herra forseti, heiðruðu þingfulltrúar:

Sögunefndin hefir haldið níu fundi út af fyrir sig á liðnu ári og þrjá sameiginlega með stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins. Einn fundurinn var haldinn að heimili Sveins Pálmasonar, einn að heimili Páls Vestdals, einn í Sambandskirkjunni en allir hinir í Jóns Bjarnasonar skólahúsinu, sem nú er eign Þjóðræknisfélagsins.

Á síðasta þingi varð sú breyting á nefndinni að séra V. J. Eylands gat ekki tekið kosningu vegna anna; en hann hafði verið formaður nefndarinnar frá upphafi og reynst frábærlega einlægur og afkastamikill. Var hans mjög saknað af nefndarmönnum. En nefndin var svo heppin að annar ágætur starfsmaður fékst til þess að fylla hið auða sæti: var það séra R. Marteinsson; hann tókst á hendur formensku nefndarinnar og leysti það starf af hendi svo vel og samviskusamlega að ekki varð á betra kosið. En á síðastliðnu sumri flutti hann búferlum vestur á strönd og var hans mjög saknað. Við burtför hans var séra P. M. Pétursson kosinn formaður. Þegar síðasta þing var haldið var fyrsta bindi sögunnar komið vestur alveg nýlega. Hafði Soffonías Thorkelsson ábyrgst allan kostnað við það en jafnframt lýst því yfir, þegar það kom

út, að Þjóðræknisfélagið yrði eftir það að ráða sjálft fram úr öllum fjármálum viðvíkjandi áframhaldi sögunnar.

Eftir alllangar umræður um þetta mál á síðasta þingi var stjórnarnefnd Þjóðræknisfélags og sögunefndinni sameiginlega bent á þá leið til fjáröflunar að leita almennra samskota. Þó var þeirri aðferð þegar mótmælt af fulltrúa frá Norður Dakota.

En áður en nefndirnar höfðu tekið nokkrar ákvarðanir í þessu máli, bárust þeim raddir víðsvegar að í þá átt að sú aðferð mundi reynast óvinsæl, og ef til vildi árangurslítil. Virtist það nokkurn veginn einhuga álit fólks í flestum bygðum að illa færi á því að biðja um gjafafé til kostnaðar við hlut, er síðar ætti að selja sama fólkinu fullu verði.

Af þessum ástæðum sáu nefndirnar sér það ekki fært að fara af stað með fjárbænir, enda voru margir innan nefndanna jafnt sem utan þeirra, er töldu það sjálfsagt að Þjóðræknisfélagið kostaði að öllu leyti þetta sitt eigið fyrirtæki — útgáfu Sögunnar. Var hreint og beint komið fram í því tilliti í bréfi frá deildinni í Norður Dakota; þær bentu beinlínis á það að félaginu bæri að sjá fjárhagslega um fyrirtækið. En til þess að haldið yrði áfram með ritun annars bindis hlupu nokkrir veglyndir menn undir bagga og lögðu fram nokkurt fé úr eigin vasa; var að því mikil hjálp þótt hún nægði ekki til þess að verkið gæti haldið áfram viðstöðulaust. Söguritaranum var því tilkynt það af stjórnarnefnd félagsins að hvíld yrði á verkinu frá 1. júlí um óákveðinn tíma; var honum þá greitt kaup fram að þeim tíma (1. júlí) en ekkert síðan enda þótt hann hafi nálega stöðugt unnið að verkinu fram á þennan dag.

Þá skal minst á útsölustarfið. Sveinn Pálmason hefir þar borið þyngsta byrðina, enda sýnt framúrskarandi dugnað, áhuga og ósérplægni í því máli. Bókin var send mönnum til útsölu víðsvegar um þessa álfu, brugðust flestir vel við þessari beiðni og vottar nefndin hinum mörgu og trúu vinum fyrirtækisins sínar bestu þakkir fyrir vel unnið starf. Það var frá byrjun fullyrt af mönnum, sem kunnugir eru sölu íslenskra bóka vestan hafs að hér væri ómögulegt að selja meira en í mesta lagi 50—200 eintök af nokkurri bók, hversu góð sem hún væri og hveru miklu afli sem beitt væri við söluna. Þetta reyndist öðruvísi: fyrir manndóm og áhuga útsölumanna hafa þegar verið seldar 369 bækur. Allur kostnaður við útgáfu fyrsta bindis hér vestra hefir orðið $1.342; inn á banka hafa þegar verið greiddir $1,034, eru því aðeins eftir ógreiddir af kostnaðinum hér $307, en heima á Íslandi seldist bókin svo vel að ágóði nemur $333.00 að minsta kosti. Upphaflega voru prentuð 2000, en vegna þess hve mikið seldist og fljótt varð að prenta aðra útgáfu innan skamms. Voru þá prentuð 500. Fyrsta bindið hefir því fullkomlega borið sig fjárhagslega.

Þegar tillit er tekið til þess, hversu erfitt — nálega ómögulegt — það er að selja íslenskar bækur nú orðið hér vestra og einnig hins hversu öll viðskifti og sérstaklega öll ný fyrirtæki eru erfið nú sem stendur. Þegar þess er ennfremur gætt að bókin kom á markaðinn á allra óhentugasta tíma og að talsverðu afli var beitt úr ýmsum áttum tli þess að hindra framgang hennar, þá sýnir það bæði dugnað útsölumanna og almennar vinsældir bókarinnar að hún skyldi seljast eins vel og raun varð á.

Nú er fullritað og búið undir prentun annað bindi sögunnar; hafa ritnefndarmenn allir og próf. Beck með þeim, lesið handritið; ljúka þeir á það lofsorði og leggja til í einu hljóði að það verði prentað. Meginparturinn af kostnaðinum hér vestra við það bindi er þegar borgaður, og heima á Íslandi er verkið í svo miklu áliti að þaðan flutti Soffonías Thorkelsson það tilboð að senda mætti handritið að öðru bindi og yrði það prentað þótt ekkert væri borgað fyr en fé heimtist inn fyrir sölu þess. Næsta sporið virðist því vera það að vélrita handritið og senda það heim til prentunar eins fljótt og kringumstæður leyfa.

Að því loknu vantar ekki mikið á að

verkið sé hálfnað, ef það yrði fimm bindi eins og um hefir verið talað. Má því heita að vel hafi gengið enn sem komið er og félagið getur sannarlega borið höfuðið hátt ef eins vel gengur með það sem eftir er; má óefað telja það víst að þetta sé mesta stórvirki þess.

En nefndinni finst það sjálfsagt að áfram sé haldið og ekki numið staðar; þriðja bindi þarf að vera undirbúið þegar öðru er lokið. Nú liggur fyrir dyrum að ráðstafa því. Þess vegna var á síðasta fundi Sögunefndar borin fram eftirfarandi tillaga og samþykt í einu hljóði:

"Nefndin ræður Þjóðræknisfélaginu til þess að það ráðstafi þannig Sögumálinu á þessu þingi að verkinu verði haldið áfram tafa- og tálmanalaust, og gjaldkera félagsins falið að greiða framvegis laun söguritarans Þ. Þ. Þ. regulega í lok hvers mánaðar."

Þessa tillögu væntum við að þingið taki fyrir til athugunar og afgreiðslu.

Það væri óviðeigandi að enda Þessa skýrslu án þess að hún flytti verðugt þakklæti til Soffoníasar Thorkelssonar fyrir það mikla verk er hann tókst á hendur þessu máli til framkvæmda. Í fyrsta lagi lagði hann fram stórfé eða ábyrgðist það og er mjög sennilegt að fyrirtækið hefði verið deytt í fæðingunni hefði sú hjálp ekki átt sér stað. Í öðru lagi sýndi hann svo frábæran dugnað heima á Íslandi við undirbúning ritsins: plægði þannig og sáði jarðveginn, að engum öðrum hefði tekist eins vel. Bera honum ennþá meiri þakkir fyrir það starf þegar þess er gætt að hann stjórnaði því um tíma frá sjúkrastofu sinni þar sem hann lá hættulega veikur. Nefndin þakkar hans mikla starf.

Winnipeg, 23. febrúar 1942.

Philip M. Pétursson,
(forseti Sögunefndar)
Sig. Júl. Jóhannesson,
(ritari Sögunefndar)

Soffonías Thorkelsson tók þá til máls og gat þess, að myndin sem framsögumaður drægi upp af þessu væri ekki alskostar nákvæm eða rétt. Á 5 þús. kr. var óinnheimt fyrir bókina á Íslandi er hann fór þaðan. Mundi því mega vænta um $200 úr þeirri átt ef alt kæmi inn. Hafði hann skrifað Jónasi Jónssyni, formanni Mentamálanefndar, en enga skilgrein geta fengið. Salan hafði hætt að mestu síðan hann fór. En hvenær þessir $200 fást á heiman er óvíst. Sölunа taldi ræðumaður heldur ekki hafa gengið að óskum. Seldu þeir bókina áður en fólkið fékk nokkra bók í hendur. 500 eintök bætt við.

J. J. Bíldfell bar fram tillögu um að taka á móti skýrslu sögunefndarinnar. Var tillagan studd af Friðrik Kristjánssyni og samþykt.

Guðmann Levy og Arnljótur Olson gerðu tillögu um að forseti skipi 5 manna þingnefnd í sögumálinu. Tillagan var samþykt og þessi tilskipaðir:

J. J. Bíldfell
Ólafur Pétursson
Dr. S. E. Björnsson
Dr. S. J. Jóhannesson
Þorsteinn Gíslason.

Ásmundur P. Jóhannson tók þá til máls um myndastyttu Leifs Eiríkssonar. Kvað hann myndastyttu þessa vera í geymslu hjá Mariners Museum í Newport, Va., um óákveðinn tíma. Guðmundur dómari Grímsson hefir veitt myndastyttumálinu forstöðu og mun hann leiða það til farsælla lykta að stríðinu loknu. Á myndin, samkv. hugmynd nefndarinnar, að lenda í Washington, D. C. Sveinn Thorvaldson og S. S. Laxdal lögðu til að hin munnlega skýrsla framsögumanns sé viðtekin. — Grettir konsúll Jóhannson gat þess að hér á þinginu væri staddur Þórhallur Ásgeirsson frá Minneapolis, og hefði hann skýringu að gera í sambandi við þetta mál. Gat hann þess að Leifsstyttunni væri vel og virðulega fyrirkomið við aðaldyr hins mikla minjasafns á áðurgreindum stað. Lét þingheimur sér nægja skýring þessa, og var málið þannig afgreitt á þinginu.

**Útbreiðslumál**

Ól. Pétursson og Arnljótur Olson lögðu til að forseti útnefni 5 manna útbreiðslumannanefnd. Var tillagan samþykt og þessir útnefndir:

Dr. S. E. Björnsson
S. S. Laxdal
Sveinn Thorvaldson
Einar Magnússon
J. J. Húnfjörð.

**Fræðslumál**

S. S. Laxdal og J. J. Húnfjörð lögðu til að forseta sé falið að skipa 5 manna fræðslumálanefnd. Var till. samþykt og þessir menn útnefndir:

Mrs. Marja Björnson
Soffonías Thorkelsson
Bjarni Dalman
Mrs. E. P. Johnson
Guðm. Jónasson.

**Samvinnumál við Ísland**

Ólafur Pétursson og Soffonías Thorkelsson lögðu til að forseti skipi fimm manna nefnd til að fjalla með Samvinnumál við Ísland. Var tillagan samþykt og þessir tilskipaðir af forseta:

Soffonías Thorkelsson
Sr. Guðmundur Árnason
Ásm. P. Jóhannson
Ólafur Pétursson
Sveinn Thorvaldson.

**Útgáfumálanefnd**

Guðmann Levy og Sveinn Thorvaldson lögðu til að forseti skipi þriggja manna nefnd til að annast útgáfumál. Var tillagan samþykt og þessir menn tilnefndir: :

Sr. Guðmundur Árnason
Valdi Jóhannesson
Jón Sigvaldason.

**Bokasafnsnefnd**

Soffonías Thorkelsson og S. S. Laxdal lögðu til að þrír menn séu útnefndir í bókasafnsnefnd. Var tillagan samþykt og þessir tilnefndir af forseta:

Hjálmar Gíslason
Bergþór E. Johnson
Soffonías Thorkelsson.

Ásm. P. Jóhannson benti á að til væri enn nokkuð af myndum Jóns Sigurðssonar sem seldust á 10¢ hver. Bauðst hann til að taka pantanir. Ennfremur benti hann á að til væri enn allmikið af Minningarriti Eimskipafélags Íslands, og var hann einnig til með að hjálpa mönnum til að eignast þá bók.

Með því að nú var orðið all-áliðið dags lagði S. S. Laxdal til, en Sveinn Thorvaldson studdi tillögu um að fresta fundi til kl. 9.30 næsta dag. Var sú tillaga samþykt og fundi síðan slitið.

ÞRIÐJI FUNDUR

settur á þriðjudag kl. 10 f. h.

Fundarbók árdegisfundar á mánudag lesin og samþykt samkvæmt tillögu S. S. Laxdal og Á. P. Jóhannsonar.

Fundargjörð síðdegisfundar s. d. sömuleiðis lesin og samþykt samkvæmt tillögu Sveins Thorvaldsonar og Ara Magnússonar.

Þá las ritari símskeyti frá S. Johnson, forseta deildarinnar "Fjallkonan" í Wynyard.

Wynyard, Sask., Feb. 23, 1942

Dr. Richard Beck

Deeply regret that owing circumstances beyond our control our chosen delegate could not be with you. Be assured however our thoughts are best wishes for success in your splendid effort to further a noble cause.

Fraternally yours,
S. Johnson

Þá lagði Sveinn Pálmason fram skýrslu yfir sölu Sögu Vestur-Íslendinga. Var þetta bráðabirgða skýrsla. Ritari lagði til að skýrslunni skuli vísa til endurskoðenda. S. S. Laxdal studdi, og skal hún koma fyrir þing síðar.

Skrifari lagði fram skýrslu Minjasafnsnefndar.

**Minjasafn**

Aðeins einn hlutur gefinn í Minjasafnið á árinu. Er það hálft söðulklæði saumað með glitsaum, gefið af Ingibjörgu Hóseasdóttur, Winnipeg.

B. E. Johnson
Davíð Björnsson

Ari Magnússon og ritari lögðu til að skýrslan sé meðtekin.

Séra S. S. Christopherson frá Churchbridge var staddur á þingi og gat þess, að skýrsla frá deild sinni myndi koma til þings síðar.

Álit bókasafnsnefndar var lagt fram af Hjálmari Gíslasyni.

**Álit bókasafnsnefndar**

1. Nefndin álítur að bókasafn félagsins sé vel starfrækt af deildinni Frón og leggur til að samningum við deildina sé haldið áfram.

2. Nefndinni hefir borist beiðni frá deildinni að Þjóðræknisfélagið leggi til ákveðna upphæð til nýrra bókakaupa á árinu og sé sú upphæð 1000 krónur. Leggur nefndin til að þetta sé rætt á þingi.

3. Nefndin leggur til að dálitlum vísir af íslenskum bókum, þýddum á ensku, sé komið á fót sem fyrst í sambandi við bókasafnið, og sé það einnig eign Þjóðræknisfélagsins.

4. Að áliti nefndarinnar er bókasafnið einn nauðsynlegasti þáttur í viðhaldi íslenskrar menningar, og því nauðsynlegt að halda því við og starfrækja sem best.

Soffonías Thorkelsson
B. E. Johnson
H. Gíslason

Ari Magnússon og J. J. Húnfjörð lögðu til að nefndarálitið skuli taka fyrir lið fyrir lið. Las skrifari þá 1. lið. Laxdal og Hjaltalín lögðu til að 1. liður sé samþyktur. Var beðið um atkvæði og liðurinn samþyktur.

2. liður lesinn. Ari Magnússon og Elías Elíasson vísa til fjármálanefndar. G. Húnfjörð taldi heppilegast að "Frón" annist sjálf sín bókakaup. Hjálmar Gíslason svaraði fyrirspurnum ræðumanns. Samþykt að liðnum sé vísað til fjármálanefndar.

3. liður lesinn. Ari Magnússon gerði fyrirspurn um hvort hér sé átt við að kaupa bækur á ensku eða hvort hugmyndin sé að kosta því til að þýða ísl. bækur. Hjálmar Gíslason svaraði á þá leið, að hér væri aðeins um það að ræða að kaupa þær bækur enskar um íslensk efni, sem þegar eru til. Ari Magnússon og Mrs. H. Líndal lögðu til að liðurinn sé samþyktur. Séra S. S. Christopherson gerði fyrirspurn um, hvort hið fyrirhugaða enska bókasafn skyldi notað aðeins í Winnipeg eða úti um bygðir. Mrs. Líndal taldi nauðsynlegast að gefa unga fólkinu tækifæri að afla sér bóka á ensku um ísl. efni. Hjálmar Gíslason taldi ekki hugsanlegt að senda bækur deildarinnar út um land fyr en fleiri eintök væru fyrir hendi. Forseti gat um skrá um enskar bækur um íslensk efni.

4. liður lesinn og samþyktur, skv. tillögu Arnlj. Olson og H. Hjaltalín. Séra S. S. Christopherson vildi vita hvað ætti að gera við bækur út um land, sem hinir eldri hafa látið eftir sig. H. Gíslason bent á að ýmsir hefðu gefið Þjóðrækinsfélaginu bækur sínar. Taldi hann það eðlilega leið og heppilega. Soffonías Thorkelsson taldi sjálfsagt að bókaeigendur sem þurfa að losa sig við söfn sín sendi þau til Þjóðræknisfélagsins, eða til Háskóla Manitoba-fylkis. Séra Guðmundur Árnason gerði fyrirspurn um bækur Jóns Magnússonar skálds, sem sendar höfðu verið að gjöf til félagsdeilda hér vestra. Upplýstist við umræður, að ein 10 eða 12 eintök hefðu komið og þeim verið útbýtt eins langt og þær náðu að tölunni til. Var liðurinn síðan samþyktur, og nefndarálitinu síðan vísað til fjármálanefndar.

Guðm. Levy lagði fram viðauka við álit kjörbréfanefndar. Séra S. S. Christopherson fór með 10. atkv. fyrir deildina "Snæfell" í Churchbridge. Ari Magnússon og Eldjárn lögðu til að viðaukinn sé samþyktur.

Séra Guðmundur Árnason lagði fram skjöl í Sögulegum Minjum, og fór nokkrum orðum um nauðsyn þess, að safna slíkum fræðum. H. Hjaltalín og Eiríkur Sigurðsson lögðu til að munnlegt nefndarálit Sr. Guðmundar sé viðtekið. Guðm. Levy lagði til að fundi skyldi frestað til kl. 1.30. Mr. Magnús-

son studdi. Var fundi svo frestað til kl. 1.30 e. h.

FJÓRÐI FUNDUR

var settur kl. 2 á þriðjudag.

Fundargjörningur árdegisfundar var lesinn og samþyktur. Skrifari flutti þinginu kveðju frá sr. N. S. Thorláksson í Conton, S. Dak., og forseti las kvæði frá honum sem fylgdi kveðjunni. — Nefndist kvæðið "Ættarauðurinn".

Hjálmar Gíslason lagði fram skýrslu fyrir deildina "Frón".

**Skýrsla deildarinnar "Frón" fyrir árið 1941**

Deildin hélt fjóra opna fundi á árinu. Eins og á undanförnum árum hefir deildin notið vinsælda almennings og fundirnir verið vel sóttir. Meðal þeirra sem skemtu á fundum á árinu með fyrirlestrum voru: séra Sigurður Ólafsson, Dr. Eggert Steinþórsson, Mr. Soffonías Thorkelsson, Gissur Elíasson, Tryggvi Oleson og Jóhannes Snorrason frá Íslandi. Auk þess skemtu ýmsir með söng og hljóðfæraslætti, svo sem Miss Ólafsson, Miss Marion Hart, Mrs. Elma Gíslson, Ragnar H. Ragnar, o. fl. Deildin starfrækti bókasafnið eins og að undanförnu, við góða aðsókn meðlima. Á árinu var Ragnari H. Ragnar haldið kveðjusamsæti við burtför hans úr bænum og var það vel sótt. Áhugi fyrir þjóðræknismálum sýnist vel vakandi innan deildarinnar.

Ásgeir Guðjohnsen, ritari

**Skýrsla fjármálaritara Fróns**

Á árinu 1941 hafa verið 184 meðlimir í Frónsdeildinni sem borgað hafa ársgjöldin upp að 1. des. Af þessum fjölda hafa 176 fengið Tímarit Þjóðræknisfélagsins. En 8 hafa borgað einungis til Bókasafnsins. Um 29 meðlimir sem að undanförnu hafa verið í deildinni hafa enn ekki borgað gjöldin fyrir árið 1941.

**Bækur keyptar á árinu**

| | | |
|---|---|---|
| 26. maí, allar í bandi, 8 eint. | | $14.50 |
| 1. feb., Eimreiðin 1940, 1 eint. | | |
| Skírnir 1940, 2 eint. | | 5.50 |
| 26. júní, bækur frá Ísl. í bandi 10 eint. | | 15.75 |
| 1. sept., Sjómannalíf, 1 eint. | | .60 |
| 9. sept., bækur keyptar í bandi 2 eint. | | 2.20 |
| Samtals | 24. eint. | $38.55 |

**Kostnaður við bókband á árinu**

| | | |
|---|---|---|
| 16. jan. bækur úr Goodmans safninu, 57 eint. | | $ |
| 10. febr., Eimreiðin, Skírnir o. fl. 7 eint. | | 50.90 |
| 1. sept. Úr safni R. Marteinssonar 11 eint. | | 10.95 |
| Samtals | 75 eint. | $61.85 |

**Bækur gefnar til deildarinnar á árinu**

| | |
|---|---|
| Mrs. Björg Johnson, 618 Agnes St. Winnipeg, Man. | 15 eint. |
| Sr. R. Marteinsson | 67 " |
| (P. G. afh.) | 11 " |
| Mrs. Goodman, Winnipeg, Man. | 9 " |
| Mrs. Guðrún Sölvason, Winnipeg, Man. | 31 " |
| Sigurður Antoníusson, Baldur, Man. | 12 " |
| Samtals | 145 eint. |

Meðlimir á árinu sem notað hafa bókasafnið voru 135 að tölu. Bókaverði telst að 3898 bækur hafi verið teknar út af meðlimum til lestrar á árinu.

Ný bókaskrá var samin á árinu og bókunum raðað á ný eftir stafrofsröð. Kostnaðurinn við að prenta og ganga frá bókaskrá þessari var $33.00.

Winnipeg, Man. 1. desember 1941.

J. Christopherson, vara-fjárm.

Á. P. Jóhannson og Ari Magnússon báru fram tillögu um að skýrsla Fróns sé samþykt.

Grettir konsúll gat þess að einn af meðlimum útnefningarnefndar, séra E. H. Fáfnis, væri fjarverandi. Vildi hann fá það skarð fylt. Mr. Eldjárn Jónsson gat þess að séra Egill mundi koma til fundar í tæka tíð til að taka sæti í nefnd þessari. Uppástunga kom fram að Eldjárn Jónsson sé kosinn í stað sr.

Egils. Á. P. Jóhannson hélt nú ræðu um nauðsyn þess að velja hina bestu menn sem kostur er á í nefndina, og sem aðstöðu sinnar vegna eiga kost á því, að beita sér fyrir málum félagsins. Þorsteinn Gíslason studdi tillöguna um kosning Eldjárns Jónssonar. — Tók nú J. J. Bíldfell til máls og mælti á móti tillögunni og útnefningarfyrirkomulagi félagsins í heild sinni. Taldi hann það minna um of á einræði. Á. P. Jóhannson tók enn til máls og benti á kostnað í sambandi við kosningu utanbæjarmanna. Grettir konsúll benti á, að útnefningaraðferð félagsins væri í mesta máta sanngjörn og væri til að flýta fyrir málunum. Ennfremur tóku þeir til máls Ari Magnússon og sr. Guðm. Árnason. Sýndist sitt hverjum um gildi þessa fyrirkomulags er hér væri um rætt. Var tillagan nú borin upp og samþykt og Eldjárn Jónsson kosinn í útnefningarnefnd í stað séra E. H. Fáfnis.

Séra Guðmundur Árnason bar fram skýrslu Samvinnumálanefndar við Ísland.

**Skýrsla Samvinnunefndar**

1. Þingið lætur í ljós ánægju sína yfir samvinnu þeirri, sem átt hefir sér stað milli Þjóðræknisfélags Íslendinga á Íslandi og Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga á liðnu ári.

2. (a) Þingið tjáir þakklæti sitt til Þjóðræknisfélags Íslendinga fyrir hljómplöturnar tvær, sem það hefir sent hingað vestur með ávörpum eftir ríkisstjóra Íslands, hr. Svein Björnsson og biskupinn yfir Íslandi, hr. Sigurgeir Sigurðsson; ennfremur fyrir hreyfimynd þá, sem félagið hefir gefið Þjóðræknisfélagi Vestur-Íslendinga, sem sýnir helstu atvinnuvegi þjóðarinnar; ennfremur aðstoð mentamálaráðs við sölu og útbreiðslu fyrsta bindis Sögu Vestur-Íslendinga.

(b) Þá lýsir þingið ánægju sinni yfir því að Vestur-Íslendingar, sér til gagns og skemtunar, hafa haft tækifæri til að kynnast hinum mörgu ungu og efnilegu íslensku námsmönnum, sem nú stunda nám við ýmsa háskóla í Vesturheimi og vottar þeim þakkir fyrir erindi þau og ræður, er þeir hafa flutt á samkomum og mannfundum.

(c) Þá lýsir þingið ánægju sinni yfir aukinni útbreiðslu Tímarits Þjóðræknisfélagsins á Íslandi og þakkar tilboð frá Þjóðræknisfélagi Íslendinga um fyrirgreiðslu hagfeldari kaupum á íslenskum bókum hér vestan hafs en hingað til hefir átt sér stað.

3. Nefndin telur mjög æskilegt og enda sjálfsagt, að tilmælum sem komið hafa frá útvarpsráði Íslands og íslenskum blöðum, um að útvarpserindi, samin hér og lesin í útvarp heima og fréttagreinar í íslensk blöð sendar héðan, sé gaumur gefinn og framkvæmdir gerðar í því máli sem fyrst. Leggur nefndin til að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að útvega slík útvarpserindi og fréttagreinar og sjá um að þær komist til réttra hlutaðeigenda.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg

25. dag febrúar, 1942.

Soffonías Thorkelsson
Á. P. Jóhannson
Guðm. Árnason
O. Pétursson
S. Thorvaldson

Á. P. Jóhannson kom með tillögu um að nefndarálitið sé tekið lið fyrir lið. Soffonías Thorkelsson studdi. Samþ.

Skrifari las 1. lið. Dr. S. E. Björnson og S. S. Laxdal studdu. Samþykt.

Skrifari las annan lið. Soffonías Thorkelsson tók til máls og skýrði hvað fyrir vekti með hugmyndinni um hagkvæmari kaup á bókum. Gerði grein fyrir afskiftum sínum af þessu máli á Íslands ferð sinni. Lýsti ræðumaður afstöðu sinni til bókakaupa að heiman og sambandi sínu við bóksala heima og hér. Benti hann á fjárhagslegu áhættuna sem því sé samfara, að panta bækur að heiman. Gat hann þess, að hann hefði haft þetta mál til meðferðar skv. beiðni stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins en afhenti hann nú þinginu aftur þetta mál. Bókaskrá bauðst hann

til að koma með til hjálpar þeim er kynnu að vilja kaupa bækur.

S. S. Laxdal og Guðmundur Jónasson báru fram tillögu um að liðurinn sé samþyktur í heild sinni. Urðu nú nokkrar umræður. Ari Magnússon gerði breytingartillögu sem Á. P. Jóhannson studdi, að öðrum lið sé skift í bókstafs liði (a); (b); (c). Breytingartillagan var borin upp og feld. Aðaltillagan var þá borin upp og samþykt.

3. liður þá lesinn. Sr. Guðmundur Árnason gat þess, að sr. Jakob Jónsson í Reykjavík hefði beðið sig að semja útvarpserindi fyrir útvarpið í Reykjavík. Þetta hefði hann enn ekki gert, en taldi að þetta mál ætti að afgreiðast af þinginu. Fréttagreinar þyrfti einnig að senda heim. Soffonías Thorkelsson benti á að nauðsynlegt sé að senda fréttir heim, af þeim lifandi ekki síður en þeim dauðu. Mrs. Petra Pétursson benti á, að margbreyttari fréttir séu fluttar í útvarpinu heima en menn viti. Sr. Guðm. Árnason og Á. P. Jóhannson lögðu til að liðurinn sé samþyktur. Nefndarálitið í heild sinni samþykt og málið þannig afgreitt af þinginu. Guðmundur Árnason og Sveinn Thorvaldson lögðu til að 3 manna nefnd sé skipuð til að athuga bóksölumál.

Þessir voru skipaðir:

Soffonías Thorkelsson
Á. P. Jóhannson
Davíð Björnsson.

Sveinn Thorvaldson studdi. Á. P. Jóhannson lagði til að sr. G. Árnason sé tekinn í stað Davíðs Björnssonar, þar sem hann var fjarverandi á þingi. Drógu tillögumenn fyrri tillögu sína til baka og var nefndin þá skipuð þeim Ásm. Jóhannson, Guðmundi Árnason og Guðm. Levy. (Soffonías hafði afsakað sig.) Tillagan samþykt.

Næst var lagt fram nefndarálit Útbreiðslumálanefndar flutt af Dr. S. E. Björnson.

**Álit útbreiðslumálanefndar**

Við undirritaðir, sem útnefndir vorum til þess að semja álit til athugunar á þinginu um útbreiðslumál, leyfum okkur að leggja til:

1. Að þingið lýsi ánægju sinni yfir því mikla og góða starfi, sem forseti Þjóðræknisfélagsins hefir unnið á s. l. ári í sambandi við útbreiðslumál félagsins. Ennfremur endurtekur þingið þakklæti sitt til íslensku blaðanna fyrir hið mikla og ágæta útbreiðslustarf þeirra.

2. Að framkvæmdarnefnd sé falið að leggja meiri áherslu á að stofna nýjar deildir en átt hefir sér stað áður, og að útbreiðslumálum öllum verði ráðstafað eftir því sem hún sér sér hentugast. Ennfremur að tilhögun á heimsóknum milli deilda verði með líkum hætti og á síðastliðnu ári.

3. Að framkvæmdarnefnd sjái um að hreyfimyndin, sem Þjóðræknisfélaginu var send að gjöf frá Íslandi verði sýnd í íslenskum bygðarlögum og sérstaklega í þarfir íslenskra deilda.

4. Þingið óskar þess að stjórnarnefndin haldi áfram að beita sér fyrir meiri samvinnu milli deilda og lestrarfélaga í íslenskum bygðarlögum.

5. Þingið vill leggja aukna áherslu á íslenskukenslu og æfingar í íslenskum söngvum og framsögn á íslenskum ljóðum hvar sem því verður við komið og felur stjórnarnefnd að vinna að því máli eftir megni.

Winnipeg, 24. febrúar 1942.

S. E. Björnson
S. Thorvaldson
John Húnfjörð
Einar Magnússon
S. S. Laxdal

H. Hjaltalín og Þorsteinn Gíslason lögðu til að taka álitið lið fyrir lið.

1. liður lesinn. Sveinn Thorvaldson og Soffonías Thorkelsson lögðu til að samþykkja liðinn. Skrifari bar upp liðinn, og var hann samþyktur.

2. liður lesinn og samþyktur. H. Hjaltalín bar fram. Jón Húnfjörð studdi.

3. liður lesinn. Sveinn Thorvaldson og Dr. S. E. Björnson lögðu til að tillögunni sé breytt þannig, að á eftir orðunum "bygðalögum" komi "og sérstaklega í þarfir íslenskra deilda." Bíldfell bar fram tillögu og Á. P. Jóhannson studdi,

að liðurinn með áorðinni orðabreytingu sé samþyktur.

4. liður lesinn og samþyktur. Bíldfell bar fram tillögu og Laxdal studdi.

5. liður lesinn. Hjaltalín bar fram till. og J. Húnfjörð studdi að liðurinn sé samþyktur. J. J. Bíldfell tjáði þinginu söknuð sinn í sambandi við vanrækslu yngri deildarinnar á störfum þingsins. "Við verðum," sagði hann, "að sýna hinu yngra fólki meiri áhuga svo við verðum ekki eitt stórt gamalmennaheimili eða gamalmenna þjóðræknisfélag."

Mrs. Líndal áleit þessi orð í tíma töluð og taldi Þjóðræknisfélagið ekki hafa sýnt yngri deildinni tilhlýðilega athygli og teldu þeir sig ekki hafa full réttindi á fundum þingsins. Skrifari skýrði frá bréfskriftum sínum við skrifara Young Icelanders sem skýrði þetta mál. Enn töluðu þau sr. Guðm. Árnason, Mrs. Pétursson, Mrs. Líndal og J. J. Bíldfell.

Breytingartillaga Á. P. Jóhannsonar studd af Mrs. Backman, að nefndarálitinu sé vísað til nefndarinnar aftur. Mrs. Thorsteinsson vildi enn fá að vita hvort Young Icelanders hefðu rétt á bókasafninu og tímariti félagsins og á sama hátt og deildin "Frón". Ólafur Pétursson benti á, að ef þeir vildu greiða sömu gjöld og Frón mundu þeir einnig hljóta sömu réttindi.

Drógu þau Á. P. Jóhannson og Mrs. Backman nú tillögu sína til baka.

Sveinn E. Björnson og Anljótur Olson lögðu til að 6. lið sé bætt við: Að stjórnarnefndinni sé einnig falið að vinna að stofnun og efling deilda þar sem hægt sé að koma því við. Var það samþykt. Nefndarálitið í heild sinni síðan samþykt með áorðinni breytingu.

Mrs. S. E. Björnson lagði þá fram álit Fræðslumálanefndar. Flutti frúin fagra og ítarlega ræðu um viðhald ísl. tungu og menningarerfða, og las síðan nefndarálit í 5 liðum.

### Álit Fræðslumálanefndar

Nefndin leggur til að eftirfarandi tillögur séu samþyktar:

1. Þar sem kensla í íslenskri tungu, sögu og bókmentum er aðalþátturinn í viðhaldi þjóðernis vors í Vesturheimi, mælir þingið eindregið með því að Þjóðræknisfélagið leggi meiri áherslu á kenslu íslenskunnar heldur en á undanförnum árum, og beiti sér fyrir því að stofna skóla, þegar í stað í þeim íslensku bygðum þar sem nú er engin íslensku kensla.

2. Þar sem þingið hefir í mörg undanfarin ár falið stjórnarnefnd að útvega hæfar kenslubækur í íslensku frá fræðslumálastjórn Íslands, en sú tillaga hefir ekki borið tilætlaðan árangur, felur þingið stjórnarnefnd að leita samvinnu við Þjóðræknisfélagið á Íslandi í þessum efnum.

3. Þingið leggur til að ef ekki reynist mögulegt að fá bækur frá Íslandi, þá verði hæfir menn hérna megin hafsins, ráðnir til þess að semja flokkaðar lexíur í íslensku, sem verði fjölritaðar og útbýtt til skólanna.

4. Nefndin leggur til að æskilegt sé að bókum á enskri tungu, um Ísland og íslenskar bókmentir sé bætt við bókasöfn deildanna til þess að vekja áhuga hjá yngri kynslóðinni.

5. Þar sem stjórnarnefnd hefir afkastað litlu í fræðslumálum á undanförnum árum, og ekki orðið ágengt í því að útvega hentugar kenslubækur, leggur nefndin til, að milliþinganefnd verði skipuð til þess að hrinda þessum málum í framkvæmd í samráði við stjórnarnefndina.

Winnipeg, 24. febrúar 1942.

Marja Björnson
Ingibjörg M. Jónsson
B. Dalman
G. J. Jónasson
Soffonías Thorkelsson

Á. P. Jóhannson og Ari Magnússon lögðu til að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir lið.

1. liður var þá lesinn og samþyktur umræðulaust skv. tillögu Soffoníasar Thorkelsson og H. Hjaltalín.

2. liður sömuleiðis lesinn og samþyktur umræðulaust skv. tillögu G. Levys og S. S. Laxdal.

3. liður lesinn og samþyktur umræðulaust.

4. liður lesinn og feldur úr skv. tillögu Mrs. Björnson, eftir nokkrar umræður. Bjarni Dalman studdi.

5. liður lesinn og ræddur alllengi. Að lokum gerði Soffonías Thorkelsson tillögu sem að Hjörtur Hjaltalín studdi, að á undan orðunum "að útvega" í upphafi greinarinnar kom "þar sem stjórnarnefnd hefir að svo svo komnu ekki hepnast" í stað þeirra orða er í frumritinu voru. Var breytingartillaga þessi samþykt og nefndarálitið þannig í heild sinni samþykt með þeirri breyting er á var orðin.

Á. P. Jóh. lagði til að fundi skyldi frestað til 9.30 næsta dag. Var tillagan studd af mörgum og samþykt, og fundi slitið.

FIMTI FUNDUR

var settur kl. 10 á miðvikudag.

Fundargjöringur frá deginum áður var lesin og samþyktur skv. tillögu Sveins Thorvaldson og Á. P. Jóhannson.

Á. P. Jóhannson lagði til að skrifara sé heimilað að birta útdrátt úr skýrslum deilda og nefnda að fengnu leyfi hlutaðeigandi manna er sent hafa slíkar skýrslur til þings. Þorsteinn Gíslason studdi. Eftir stuttar umræður var tillagan samþykt.

Flutti þá Á. P. Jóhannson skýrslu laugardagsskólans.

**Skýrsla laugardagsskólans í Winnipeg**

Sérstök skólanefnd var kosin af Þjóðræknisfélaginu, til að sjá um rekstur skólans á yfirstandandi vetri sem að undanförnu. Þá nefnd skipa Á. P. Jóhannson, Bergþór E. Johnson og Guðmann Levy.

Var nefndin sérstaklega heppin að ná í fórnfúsa, ágæta 4 kennara, sem eru Miss V. Eyjólfsson, Miss Vala Jónasson, Mrs. S. E. Sigurðsson og Mrs. E. P. Johnson, sem haft hefir aðal kensluumsjón á skólanum. En fyrir veikindi á heimili Mrs. S. E. Sigurðsson varð hún að láta af kenslustörfum fyrir áramót, en í hennar stað var fengin Mrs. Kristín Jefferson.

Auk þessara fjögra kennara hefir nú einn af nemendum skólans, sem stöðugt hefir gengið á hann í 9 ár, tekið svo miklum framförum í ísl. máli að hann var af skólakennurunum talinn hlutgengur sem aðstoðar kennari við skólann og hefir því verið sem fimti kennarinn. Þessi efnilegi piltur heitir John Butler og er ísl. í móðurætt, hér fæddur og uppalinn í bænum, ágæt fyrirmynd.

Laugardagsskólinn byrjaði fyrsta laugardag í okt. og er ákveðið að honum verði sagt upp með lokasamkomu 18. apríl n. k.

Aðsókn að skólanum hefir mátt teljast sæmileg og stöðug af þeim börnum sem sótt hafa, eða byrjuðu á skólanum í haust. Hefir tala þeirra verið á milli 40 og 50 í allflestum kenslustundum.

Kenslan hefir farið fram í Fyrstu lútersku kirkjunni á þessum vetri með þeim skilningi að skift verði á með sinn veturinn í hvorri kirkju í framtíðinni, og ber sérstaklega að þakka prestum og sóknarfulltrúum fyrir samvinnuþíðleik í þessu mikilsverða þjóðræknisstarfi. Þá ber að þakka kennurum skólans fyrir ágætlega unnið kenslustarf, sem ávalt er gert með mikilli fórnfýsi og fyrirhöfn, endurgjaldslaust.

Winnipeg, 24 febrúar 1942.

Forstöðunefnd skólans,
Á. P. Jóhannson
B. E. Johnson
Guðmann Levy

J. J. Bíldfell og Bjarni Dalman lögðu til að henni væri veitt móttaka. Var það samþykt.

Reikningur yfir sölu Sögu Vestur-Íslendinga var framlagður af S. Pálmason eins og hann var yfirskoðaður og framborinn.

| | |
|---|---|
| Meðteknar bundnar bækur | 403 |
| Meðteknar óbundnar bækur | 200 |
| Samtals | 603 |
| Seldar bækur í bandi | 360 |
| Seldar óbundnar bækur | 9 |
| Gefnar bundnar bækur | 7 |

| | |
|---|---|
| Útistandandi bundnar bækur | 86 |
| Óseldar óbundnar bækur | 141 |
| Samtals | 603 |

| | |
|---|---|
| Sölulaun | $ 194.65 |
| Póstgjald | 26.20 |
| Greitt upp í skuld, S. Th. | 1,035.20 |
| Davíð Björnsson bókband | 24.25 |
| | $1,280.30 |

| | |
|---|---|
| Bókband á 25 bókum, 65¢ | $16.25 |
| Bókband á 25 bókum, 75¢ | 18.75 |
| Seldar 9 bækur, $28.50, sölul | 4.25 |
| Samtals | $ 39.25 |

| | |
|---|---|
| Sölulaun | $ 4.25 |
| Greitt | 24.25 |
| Ógoldið | 10.75 |
| Samtals | $ 39.25 |

| | |
|---|---|
| Sendar útborganir S. Th. til söguritara, 14 mánuði, $75.00 á mánuði | $1,050.00 |

| | |
|---|---|
| Uppbót á kaupi | 100.00 |
| Davíð Björnsson, vélritun | 33.11 |
| Fyrir að taka ljósmyndir af handritinu og senda það til Íslands | 20.00 |
| Frímerki og bankaávísanir | .49 |
| Kostn. við handritið, samtals | $1,203.60 |
| Exchange (Bank) | .67 |
| Kostnaður við að taka á móti bókinni, burðargj. og skattar | 138.42 |
| | $1.342.69 |
| Rentur | .87 |
| Lagt inn á banka | $1,035.87 |

Framanritaðan reikning höfum vér yfirskoðað og virðist vera réttur eins langt og hann nær fyrst að þetta er ekki fullnaðar reikningur.

Winnipeg, 24. febrúar 1942.

G. L. Jóhannson S. Jakobson

**SKÝRSLA YFIR SÖLU Á SÖGU VESTUR-ÍSLENDINGA**

| | Tala bóka | Upphæð | Sölul. | Tekið á móti | Póst gjald |
|---|---|---|---|---|---|
| Magnús Peterson | 30 | $105.00 | $21.00 | $84.00 | |
| Elías Elíasson, Arborg | 30 | 105.00 | 21.00 | 84.00 | 1.03 |
| G. J. Oleson, Glenboro | 14 | 49.00 | 9.80 | 39.20 | .50 |
| Pálmi Lárusson, Gimli | 20 | 70.00 | 14.00 | 56.00 | .35 |
| Árni Björnsson, Reykjavík, P.O. | 10 | 35.00 | 7.00 | 28.00 | .94 |
| Sveinn Thorvaldson, Riverton | 10 | 35.00 | 7.00 | 28.00 | .53 |
| Ófeigur Sigurðson, Red Deer | 12 | 42.00 | e.s.l. | 42.00 | 1.56 |
| Stefán S. Einarson, Upham | 10 | 35.00 | 2.00 | 33.00 | 1.28 |
| Bjarni Lyngholt, Point Roberts | 6 | 21.00 | 4.20 | 16.80 | .78 |
| Árni Helgason, Chicago | 9 | 31.50 | 5.85 | 25.65 | 1.16 |
| Soffonías Thorkelsson, Winnipeg | 3 | 10.50 | e.s.l. | 10.50 | |
| Ásm. Jóhannson, Winnipeg | 3 | 10.50 | e.s.l. | 10.50 | .26 |
| G. J. Gillies, Brown | 10 | 35.00 | 7.00 | 28.00 | .32 |
| L. J. Laxdal, Monroe, Milwaukee | 6 | 21.00 | 3.75 | 17.25 | .78 |
| J. A. Vopni, Harlington | 4 | 14.00 | 2.80 | 11.20 | .30 |
| Kristján Siverts | 2 | 7.00 | 1.40 | 5.60 | .27 |
| Bjarni Sveinson, Keewatin | 2 | 7.00 | 1.00 | 6.00 | .45 |
| Séra Halldór E. Johnson | 5 | 17.50 | 3.50 | 14.00 | .67 |
| Jón Árnason, Piney | 5 | 17.50 | 3.25 | 14.25 | .46 |
| Séra Sig. S. Christopherson | 1 | 3.50 | .70 | 2.80 | .13 |
| S. K. Thordarson, Seattle | 16 | 56.00 | 11.20 | 44.80 | 1.97 |
| Mrs. Jakobína Johnson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .14 |
| Þ. Þ. Þorsteinsson, (óbundnar b.) | 4 | 10.00 | e.s.l. | 10.00 | |
| Þ. Þ. Þorsteinsson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Mrs. Agust G. Pálson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | |
| Daníel Bachman | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| B. H. Jónasson, Silver Bay | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Mrs. Guðrún Fríman | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .14 |
| G. Thorkelsson, Camp Morton | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| John J. Henry, Petersfield | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| John Pálmason | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Mrs. G. Guðmundson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .12 |
| P. Pálmason | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | |
| Mrs. Elin Thidrekson, Sandy Hook | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Valdimar Bjarnason | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Jón Einarsson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Guðmundur Feldsted, Gimli | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | |
| Sigurður Sigurðsson, Gimli | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Guðm. Borgford, Winnipeg Beach | 1 | 2.75 | skemd | 2.75 | |
| Kristján Stefánsson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | |
| Óli Johnson, Vogar, Man. | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Dr. Sig. Júl. Jóhannesson (frímerki) | | | | | 3.50 |
| J. G. Ísfeld, Minneota, Minn. | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Vigfús Pálson | 1 | 2.80 | skemd | 2.80 | |
| Th. Gíslason, Steep Rock | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Friðrik Friðgeirsson | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Mrs. G. Thorleifsson, Langruth | 4 | 14.00 | 2.80 | 11.20 | .50 |
| Séra Guðmundur Árnason, Lundar | 7 | 24.50 | 4.90 | 19.60 | .50 |
| Grímur Sigurðsson, Foam Lake | 3 | 10.50 | 2.10 | 8.40 | .49 |
| Friðrik Kristjánsson, Osland, B. C. | 1 | 3.50 | e.s.l. | 3.50 | .13 |
| Mrs. Anna Matthiasson, Saskatoon | 3 | 10.50 | 1.50 | 9.00 | .62 |
| S. Guðmundsson, Campbell River | 2 | 7.00 | 1.40 | 5.60 | .26 |
| Jón Stefánsson, Kandahar | 9 | 31.50 | 5.85 | 25.65 | 1.20 |
| Thorl. Thorfinnson, Mountain | 12 | 42.00 | e.s.l. | 42.00 | 2.72 |
| Einar Haralds (2 óbundnar) | 77 | 267.50 | 41.50 | 226.00 | |
| Davíð Björnsson (3 óbundnar) | 9 | 28.50 | 4.25 | 24.25 | |
| Jón Ólafsson, Leslie, Sask. | 6 | 21.00 | 3.90 | 17.10 | .95 |
| Guðrún Johnson | 1 | 2.75 | skemd | 2.75 | |
| | 369 | $1,280.80 | $194.65 | $1,086.15 | $26.70 |
| Davíð Björnsson, bókband | | | | 50.95 | 24.25 |
| | | | | $1,035.20 | $50.95 |

Ritari og S. S. Laxdal lögðu til að reikningur þessi sé viðtekinn. Var hann síðan samþyktur.

Séra Guðmundur Árnason lagði fram álit ritnefndar á Sögu Vestur-Íslendinga í Vesturheimi. Fjallaði nefndarálit þetta um 2. bindi bókarinnar, sem nú er í handriti sem er lokið að mestu leyti.

**Ritnefndar álit**

Við undirritaðir, sem settir vorum í nefnd til þess að lesa yfir handritið af Sögu Vestur-Íslendinga, þeirri er Þorsteinn Þ. Þorsteinsson, skáld og rithöfundur, er að semja, leyfum okkur að leggja fyrir þjóðræknisþingið eftirfylgjandi álit um handrit annars bindis sögunnar, sem nú er að mestu leyti fullgert frá höfundarins hendi.

1. Eftir nákvæman yfirlestur höfum við komist að þeirri niðurstöðu, að efni þessa bindis sé rétt valið og meðferð þess yfir höfuð góð. Er þar ljóst og skipulega sagt frá hinum fyrstu vesturflutningum frá Íslandi og saga sumra

hinna smærri Íslendinga-bygða rakin til enda. Vitanlega getur verið álitamál með lengd sumra kaflanna, upptalningu mannanafna og fleira þess konar, en þar sem hér er um hina fyrstu íslensku innflytjendur að ræða bæði í Norður- og Suður-Ameríku, virðist að fyllri grein beri að gera fyrir ætt þeirra og æviferli hér í landi heldur en unt verður að gera framvegis með allan fjölda innflytjenda.

Með þessu bindi er hin raunverulega saga Vestur-Íslendinga hafin, og mætti þá skoða það sem áður er komið, í fyrsta bindi, sem nokkurs konar inngang hennar. Við teljum, að höfundinum hafi yfirleitt tekist vel með niðurröðun efnisins og viljum ennfremur benda á, að frásagnarstíll hans er yfir höfuð, góður og á köflum tilþrifamikill.

2. Nokkrar smærri villur höfum við rekið okkur á, og höfum við bent höfinum á sumar þeirra, en allar eru þær þess eðlis, að þær má auðveldlega lagfæra áður en handritið verður fullbúið til prentunar. Aðrar smávægilegar athugasemdir, sem litla þýðingu hafa fyrir söguna sjálfa, væntir nefndin að sér gefist tækifæri til að ræða við höfundinn sjálfan, og sér ekki þörf á að taka neitt frekar fram um þær hér.

Dagsett í Winnipeg 22. dag febr. 1942.

Virðingarfylst,

H. A. Bergman
B. J. Brandsson
G. Árnason

Ritari og S. S. Laxdal lögðu til að nefndarálitið sé viðtekið í heild sinni. Var það samþykt.

J. J. Bíldfell formaður þingnefndar í sögumálinu bar nú fram álit nefndarinnar í þremur liðum.

**Skýrsla og tillögur þingnefndar í Sögumálinu**

Nefndin hefir íhugað málið og allar kringumstæður eins vel og henni var unt og komist að þeirri niðurstöðu, sem hér segir:

1. Soffonías Thorkelsson hefir tilkynt nefndinni, að þegar handritið að II. bindi sé vélritað og álitið hæft til prentunar, að dómi ritnefndar, þá skuli hann veita því móttöku, koma því heim og sjá um prentun á því á Íslandi, eftir að meðmæli mentamálaráðs hafa fengist, án þess að Þjóðræknisfélagið leggi fram nokkurt fé í bráðina. Þegar bókin hafi verið til sölu í heilt ár verði gerðir upp reikningar; verði þá um tekjuhalla að ræða, ábyrgist félagið að borga hann; en verði aftur á móti afgangur af tekjum, sé hann eign félagsins.

Í sambandi við væntanlega útgáfu þessa bindis er vert að benda á það til skilningsauka, að hún muni að sjálfsögðu verða dýr. Eftir því sem við höfum komist næst kostaði útgáfa fyrsta bindis 14,000 kr.; kostar þá eintakið 6 kr. með 2500 eintaka útgáfu. Nú vitum við að prentkostnaður hefir hækkað alt að 100%, mundu því 2000 eintök af þessu öðru bindi kosta 24,000 kr. eða 12. kr. eintakið.

Aftur á móti má ganga út frá því sem sjálfsögðu að bókaverð heima muni hækka í réttum hlutföllum við aukinn kostnað. Einnig er rétt að benda á það, að aukinn peningaforði á Íslandi mundi verða til þess, að auka sölu bókarinnar.

Að öllu þessu athuguðu og þrátt fyrir erfiðleika, sem á útgáfu þessarar bókar eru, leggjum við það til, að boð Soffoníasar Thorkelssonar sé þegið með þakklæti.

2. Nefndinni er það ljóst hversu miklum erfiðleikum það er bundið að halda starfinu áfram hér vestra, en henni er það ekki síður ljóst hversu mikið ógagn og ógæfa það hlyti að verða þessu máli ef það yrði nú látið falla niður með öllu — ef til vill til þess, að rísa aldrei upp aftur í tíð þeirra manna, sem mestan hafa áhugann fyrir því. Nefndin leggur það því til að ef Þ. Þ. Þ. sjái sér fært að halda verkinu áfram með þeim skilyrðum að honum séu greidd venjuleg ritlaun framvegis — sem er það mesta, er félagið nú sér sér fært að gera — þá sé hann beðinn að vinna hér eftir á þeim grundvelli.

3. Nefndin leggur það einnig til, að Þjóðræknisfélagið láti nú þegar vélrita

handritið og afhendi það Soffoníasi Thorkelssyni eins fljótt og unt er.

Winnipeg, 25. febrúar 1942.

J. J. Bíldfell
Ó. Pétursson
S. E. Björnson
T. J. Gíslason
Sig. Júl. Jóhannesson

Guðmann Levy og Guðmundur Árnason lögðu til að álitið sé tekið lið fyrir lið. Las þá skrifari forsendur 1. liðs og svo liðinn sjálfan.

Á. P. Jóhannson taldi fjárhag fél. kominn í það horf, að tæpast sé fært að leggja út í það fjárhættuspil sem þessi bókaútgáfa muni hafa í för með sér. Benti hann á aukinn kostnað við prentun á Íslandi. Taldi enga knýjandi þörf á útgáfu þessarar bókar, þar sem handritið væri tilbúið . Vildi hann láta fresta þessu útgáfufyrirtæki uns stríðinu sé lokið. Tjáði hann sig á móti liðnum.

J. J. Bíldfell taldi nefndina hafa íhugað málið frá öllum hliðum. Starfsemin er hafin, málið er félagsins mál. Aðalstarfsemi þessa félags hlýtur að verða hérna megin hafsins. Þetta er allsherjar mál Vestur-Íslendinga og þýðingarmesta málið sem félagið hefir tekið að sér. Nefndinni fanst að félagið mætti ei bregðast þessu máli. Soffonías Thorkelsson hefði náð ágætum samböndum á Íslandi um þetta mál. Hversu lengi haldast þau sambönd? Hve lengi höldum við sjálfir höndum uppi til að vinna að þessu máli. Ef við höfum **nú** það sem fólk vill kaupa og lesa, þá ætti málið ekki að reynast fjárhagslega hættulegt. Þetta er sagan um okkar eigin feril. Ef halli skyldi verða að ári liðnu, eftir að bókin er prentuð í Reykjavík, er líklegt að eigi þurfi að snerta við sjóði Þjóðræknisfélagsins. Ýmsir áhugamenn hér vilja ekki láta þetta mál falla niður.

Soffonías Thorkelsson taldi sig ávalt hafa mikinn áhuga á þessu máli. Vildi bjarga ýmsu frá gleymsku. Hin lifandi saga þarf að safnast meðan frumherjarnir lifa. Samdrátt úr prentuðum bókum má ávalt gera. Taldi hann enga knýjandi ástæðu til að hefjast handa um þetta mál nú. Horfurnar á Íslandi taldi hann svo ískyggilegar, að hæpið sé að leggja út í það að láta prenta bókina nú. Handritið vildi hann taka til athugunar og yfirlesturs.

Sr. Guðmundur Árnason: Hversvegna þarf að fá meðmæli Mentamálaráðs og Sáttmálasjóðs? Hvað á Soffonías við með þessum orðum: "tekið úr bókum"?

Soffonías Thorkelsson rakti sögu reynslu sinnar í sambandi við útgáfu 1. bindis. Þrír flokkar eru á Íslandi. Hvert átti að snúa sér? Framsóknarflokkurinn var líklegastur til afreka, og þá varð að taka Jónas Jónsson til greina og tillögur hans, en hann er einn áhrifamesti maður í Mentamálaráði. Þeir komast ekki langt með II. bindi nema fara gegnum sama nálaraugað. Við þurfum að fá meðmæli þessara manna: — Valtýr-Stefánsson, Ásgeir Ásgeirsson, Jónas Jónsson. Við þurfum að fá álit manna sem þjóðin treystir að því er dóma þeirra áhrærir.

Sig. Júl. Jóh.: Hvað verður um álit félagsins út á við ef þessu starfi verður nú hætt?

Friðrik Swanson benti á meiri fjárhagslega getu hjá mönnum nú en á venjulegum tímum. Ef til vill koma meiri hörmungatímar fjárhagslega að stríði loknu.

Séra S. S. Christopherson: Hvernig standa sakir fjárhagslega?

Sv. Pálmason svaraði fyrirspurnum og sömuleiðis dr. Sig. Júl. Jóh. "fyrsta bindi hefir gert heldur betur en að borga sig þegar tekið er með það sem heima er af fé."

Á. P. Jóhannson benti á að $400.00 skuld hvíldi enn á I. bindi og engin greinargerð er að heiman komin. Gerði hann annars grein fyrir fjármálum fyrirtækisins. Taldi sig málinu hlyntan en andvígan þeim rekstri fjármála sem notaður hefir verið í sambandi við þetta mál.

Dr. Sig. Júl. Jóh. taldi bók þessa hafa selst betur en nokkra aðra bók.

S. S. Laxdal áleit að selja mætti það sem enn er óselt af bókinni og greiða þá

upphæð sem eftir stendur. Mikið meira hefði mátt selja en gert var. Mætti ekki lækka verðið niður í $2.00 og láta erindreka taka með sér til að selja. Taldi lítilsvirðingu fyrir félagið að hætta við þetta fyrirtæki.

Sr. Guðm. Árnason lagði til að fresta umræðum um þetta mál til klukkan I. S. S. Laxdal studdi. Samþykt.

A. G. Eggertson, K.C., lagði fram skjal sem staðfesta þurfti í sambandi við fasteign Elíasar Jóhannssonar á Gimli.

WHEREAS THE ICELANDIC NATIONAL LEAGUE is the owner of the following land and entitled to be the registered owner thereof:

Lot Twenty-four in Range Five, which Lot is shewn on a plan of survey of part of the Village of Gimli, in Manitoba, registered in the Winnipeg Land Titles Office, Lisgar Division, as No. 13744. Subject to the reservation and provisoes contained in the Grant from the Crown.

AND WHEREAS an offer has been received from Hannes Sigurdsson Kristjanson, Fisherman, and Sophie Kristjanson, both of the Village of Gimli, in the Province of Manitoba, at and for the price and sum Seventy-five ($75.00) Dollars, and whereas it is expedient to accept the said offer:

NOW THEREFORE be it and it is hereby enacted as a By-Law of the Icelandic National League as follows:

1. That the Directors of the League may and are hereby authorized and empowered to sell the above described land to the said Hannes Sigurdsson Kristjanson and Sophie Kristjanson at and for the price and sum of Seventy-five ($75.00) Dollars, and the President and Secretary are hereby authorized to execute the necessary documents to carry out the purpose of this By-Law.

DONE AND PASSED at the Annual General Meeting of the members of Icelandic National League held at the City of Winnipeg in Manitoba on the 25th day of February, A.D. 1942.

Richard, Beck pres.
V. J. Eylands, secretary

Ól. Pétursson og Grettir Jóhannson gerðu tillögu um að fresta fundi til kl. 1. Arnlj. Olson og Guðm. Jónasson studdu. Samþykt.

SJÖTTI FUNDUR
var settur kl. 1.20 e. h.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson gengdi skrifarastörfum á þessum fundi.

Haldið áfram að ræða um sögumálið. Forseti brýndi fyrir þingheimi að tíminn væri takmarkaður og þyrftu menn því að vera stuttorðir, sömuleiðis að forðast persónuleg móðgunaryrði.

Sr. V. J. Eylands tók til máls. Kvaðst hann hafa fylgst með sögumálinu frá byrjun. Hverjir sem væru dómar um bókina kvaðst hann alls ekki iðrast þess að hann hefði reynt að veita því máli lið. Hann kvað það einnig augljóst, að þau vetlingatök sem nefndin væri sökuð um hefðu ekki öll að minsta kosti verið henni að kenna. Hann kvað það eðlilegt að ýmsir erfiðleikar yrðu á vegi þegar um stórmál væri að ræða. Mikið væri dáðst að hugrekki Breta og ræðum Churchills fyrir það að þeir héldu hugrekki og stefnu en legðu ekki niður vopn eða vörn þótt erfiðleikum væri að mæta. Við skyldum taka þetta til fyrirmyndar og ekki falla við fyrsta högg. Barlómur og hungurvæl ætti ekki við. Þetta mál þyrfti einlægni, starfsfórn og áhuga. Með öðrum orðum að halda áfram til sigurs. Við mættum ekki láta það spyrjast heima né hér að við legðum árar í bát. Þá gerði sr. Eylands breytingartillögu við fyrsta lið í till. sögunefndarinnar á þessa leið:

Þingið felur stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins að sjá um að handrit að næstu bók í Sögusafni Vestur-Íslendinga verði vélritað sem fyrst og síðan afhent Soffoníasi Thorkelssyni til fyrirgreiðslu, skv. tilboði hans.

Að fengnum meðmælum Mentamálaráðs Íslands með handritinu og öðrum

upplýsingum um aðstæður hvað snertir prentunarkostnað o. fl. á Íslandi, skal stjórnarnefnd taka ákvörðun um útgáfu næstu bókar.

Tillagan var studd af S. S. Laxdal. Viðauki frá sr. Guðm. Árnason og Levy: "Skv. tilboði hans" í 1. lið. Samþykt.

Var allmikið rætt um breytingartillögu sr. Eylands. Í þessum umræðum tóku þessir menn þátt.

Sveinn Thorvaldson: Kvaðst hann hafa verið hlyntur málinu frá byrjun, og fyrsta bindi hefði átt að vera keypt af miklu fleirum en raun varð á. Fólk ætti að hugsa um nytsemi bókarinnar og kaupa hana alment.

Kristján P. Bjarnason: Hann kvað þetta vera okkar stærsta mál og mesta. Hér ættu allir að geta tekið saman höndum. Blöðin okkar ættu að gera sitt besta til þess að ryðja verkinu braut. Sagan væri minnisvarði okkar, I. bindið aðeins inngangur en í næsta bindi byrjaði sagan sjálf.

Sr. Guðm. Árnason vildi takmarka ræður við tvær mínútur. Forseta fanst það ófrjálslegt.

J. J. Bíldfell: Hann kvaðst láta sér það miklu varða að þingið slepti ekki framkvæmdum sögumálsins úr höndum sér í hendur óþektrar nefndar sem kosin yrði.

Th. Laxdal: Kvaðst hann vera á sama máli.

Sveinn Thorvaldson kvað fullkomlega óhætt að treyst næstu nefnd.

Síðan var breytingartillaga sr. Eylands borin upp og samþykt.

Þá fóru fram embættismannakosningar og voru þessir kosnir:

Forseti: Prófessor R. Beck
Vara-forseti: Séra Valdimar Eylands.
Ritari: S. J. Jóhannesson (allir í einu hljóði).
Vara-ritari: Mrs. E. P. Jónsson.
Féhirðir: Á. P. Jóhannson
Vara-féhirðir: Dr. Sveinn Björnson
Fjármálaritari: G. Levy.
Vara-fjármálaritari: Sveinn Thorvaldson
Skjalavörður: Ólafur Pétursson.
Yfirskoðunarmaður: Steindór Jakobsson.
Útnefningarnefnd: Hjálmar Gíslason, Fred Swanson og G. Eyford.

Þá var tekið fyrir sögumálið á ný. Ritari las upp 2. lið nefndarálitsins. Á. P. Jóhannson kvað málinu öllu ráðið til lykta með samþykt breytingartillögunnar. Forseti kvaðst skilja það öðru vísi.

Sr. Guðm. Árnason kvað það mundi erfitt fyrir Þ. Þ. Þ. að lifa á því, sem hér væri talað um. Svo kvað hann Þorstein hafa unnið að verkinu að minsta kosti í 2 mánuði kauplaust. Spurði hann hvort félagið ætlaði sér ekki að borga það.

J. J. Bíldfell kvað það verða um $500 sem Þorsteinn fengi á ári ef hann ynni fyrir það sem nefndin hafði minst á, en hann gæti þá unnið verkið í hjáverkum ef þetta væri bráðabirgðarfyrirkomulag. betra mætti bjóða síðar. Hann kvað vonandi væri að svo greiddist úr að ekki mundi þurfa að taka neitt af venjulegum tekjum félagsins til þess að greiða þessa $500.00 Húseignin mundi gefa það af sér sem til þess þyrfti.

Sr. G. Árnason gerði fyrirspurn hvort nokkrar aðrar leiðir hefðu verið athugaðar til fjáröflunar. J. J. Bíldfell kvað svo vera, samskot hefðu verið nefnd en ekki þótt æskileg.

H. Gíslason kvað það næstum óvirðing, að bjóða höfundi þessi lágu laun. Við gætum ekki boðið honum minna en $100 á mánuði. Sóma Íslendinga kvað hann í veði ef illa tækist í þessu máli. Það að bjóða Þorsteini $40 á mánuði væri sama sem að reka hann frá verkinu.

Ólafur Pétursson kvað þetta vera aðeins til bráðabirgða, betra yrði gert síðar, ef unt yrði.

Á. P. Jóhannson lagði til að Þorsteinn yrði ekki ráðinn fyr en það sæist hvernig almenn samskot gengu, og bætti hann því í tillöguna að þeirra yrði leitað nú þegar. G. Levy studdi þessa breytingartillögu. Hún var borin upp og feld. Annar liður nefndarálits söglunefndar var samþyktur.

Kl. 4.20 var lagt fram álit fjármálanefndar snertandi 4. lið í áliti bókasafnsnefndar. Var þetta breytingartillaga. Urðu nú alllangar og fjörugar umræður um málið. Til máls tóku Ól. Pétursson, Ari Magnússon og Hj. Gíslason.

**Álit fjármálanefndar**

Í tilefni af beiðni deildarinnar Frón um fjárveitingu til bókasafnsins.

Þar sem fjármálanefndinni er kunnugt um að allir sjóðir Þjóðræknisfélagsins eru nú sem stendur í fasteigninni á 562 Home St. og nauðsyn ber til að taka lán til bráðabirgða þar sjóður félagsins er ekki nógur til að borga útgáfukostnað Tímaritsins, og í öðru lagi, þar sem ýmsar deildir út um land starfrækja bókasöfn í sambandi við deildir sínar og hefðu að sjálfsögðu sama rétt til fjárframlaga, þá sér ekki fjármálanefndin sér fært að mæla með 1000 króna fjárveitingu til bókasafnsins í Winnipeg að þessu sinni og gerir þá tillögu að annar liður í bókanefndarálitinu sé feldur úr.

Á þingi 25. febrúar 1942.

Á. P. Jóhannson
B. J. Lifman
Ó. Pétursson

Guðmann Levy lagði til nefndarálit fjármálanefndar sé samþykt. Bjarni Dalman studdi. Var það svo samþykt. Nefndarálit bókasafnsnefndar með áorðinni breytingu var samþykt. 2. liður fjármálanefndar samþyktur og nefndarálitið í heild sinni.

**Nefndarálit í útgáfumálum**

1. Nefndin leggur til að Tímaritið sé gefið út á næstkomandi ári, og að væntanleg stjórnarnefnd annist um framkvæmdir og ritstjórn sem að undanförnu .

2. Að þeirri deild Þjóðræknisfélagsins, sem nefnir sig The Junior Icelandic League sé boðið að rita í tímaritið á enskri tungu um íslensk efni.

3. Að ritgerðir og sögur, sem birtar eru í Tímaritinu, séu stuttar og gagnorðar.

4. Að stjórnarnefnd félagsins leiti álits hjá hinum ýmsu deildum um hvort gefa eigi út "Baldursbrá" og hagi sér eftir því.

Dagsett í Winnipeg 26. febr. 1942.

G. Árnason
V. Jóhannesson
Jón Sigvaldason

Séra Guðm. Árnason lagði til að nefndarálit sé tekið fyrir lið fyrir lið en Sveinn Thorvaldson og Philip M. Pétursson studdu. Samþykt.

1. liður lesinn og samþyktur skv. till. Thorvaldson og Pétursson.

2. liður. Hjaltalín taldi óheppilegt að setja enskt lesmál í Tímaritið. Soffonías Thorkelsson benti á útbreiðslu Tímaritsins á Íslandi. Taldi ei heppilegt þessvegna. Mrs. Líndal ræddi um hverfleika tungunnar og vaxandi áhrif enskra áhrifa. Ef á að ná til unga fólksins og tengdabarna þarf að nota enska tungu. Útbreiðslustarfsemi yrði að vera á ensku máli. Guðmann Levy, sr. Guðm. Árnason, Bjarni Dalman og J. J. Bíldfell tóku til máls. Guðm. Levy lagði til að þessi liður sé feldur úr. Hjaltalín studdi Breytingartillaga J. J. Bíldfell og Olson að vísa þessum lið til framkvæmdanefndar til frekari athugunar var samþykt.

3. liður. Ól. Pétursson og Fr. Olson lögðu til að þessi liður sé feldur. Samþ.

4. liður. Ól. Pétursson og S. E. Björnson báru fram. Samþykt. Nefndarálitið í heild sinni samþykt með áorðinni breytingu.

**Milliþinganefndir** — Bíldfell og A. Olson lögðu til að milliþinganefnd í sögumálinu sé endurkosin. Mr. Líndal baðst undan endurkosningu í söguefndinni. J. J. Bíldfell nefndur af Ól. Pétursson, og útnefningu lokið.

**Rithöfundasjóðsnefnd**—Ólafur Pétursson benti á að tvö sæti væru auð. S. E. og Gunnbj. Stefánsson stungu upp á Sv. Björnson og Laxdal. Ragnar Stefánsson og Ól. Pétursson studdu.

**Leifs Eiríkssonar styttunefndin.** Laxdal og sr. Philip Pétursson lögðu til að þeir sem eru í þeirri nefnd séu endurkosnir.

**Söfnun ísl. Þjóðsagna.** Arnlj. Olson lagði til að nefndin sé endurkosin. Guðm. Jónasson studdi.

Bíldfell og F. Swanson lögðu til að forseti skuli skipa 3 manna nefnd. Eldjárn Johnson kom með fyrirspurn um hvort nokkur hefði heimild til að selja tvíbura eintök af bókum sem berast kunna frá dánarbúum. Tryggvi Oleson svaraði þessu, að listi sé tilbúinn yfir slíkar bækur.

**Ný mál**

Á. P. Jóhannson gerði grein fyrir auglýsingasöfnun fyrir tímaritið. Hafði sint því verki vegna þess, að enginn maður fékst til að vinna það verk. Lýsti hann því yfir að þetta yrði nú í síðasta sinn sem hann ynni það verk, og afhenti hann þinginu 145 auglýsingar, sem hann hafði náð. Aldrei hafði betur gengið síðan 1930. En þetta mundi hann aldrei aftur gera. Bað hann nú að láta auglýsendur sitja fyrir viðskiftum manna. F. Swanson gerði tillögu um að A. P. J. sé þakkað með lófaklappi og var það samþykt.

S. S. Laxdal ræddi til að þingtímanum væri breytt. Það væri erfitt fyrir marga að koma að vetrinum til. — Þorsteinn Gíslason og Laxdal lögðu til að þetta mál verði lagt fyrir stjórnarnefnd og skoðist sem "notice of motion". — Hjaltalín hélt að heppilegastur tími væri snemma í júní.

Tilkynt var af forseta að Skúli próf. Johnson taki með þökkum gömlum bókum eða nýjum fyrir Manitoba-háskólann.

Á. P. Jóhannson leggur til að fundi sé frestað til kvölds. Stutt af mörgum.

Kl. 9.45. Sr. Guðm. Árnason bar fram nefndarálit.

**Álit bókakaupanefndar**

Við undirritaðir, sem kosnir vorum í nefnd til að íhuga tilboðið frá Þjóðræknisfélagi Íslendinga um afslátt á íslenskum bókum, sem nemur 50 af hundraði smásöluverðs, flutt af hr. Sof-Thorkelssyni, leyfum okkur að leggja til að þingið lýsi þakklæti sínu fyrir þetta ágæta tilboð og feli stjórnarnefnd félagsins að athuga þetta nákvæmlega í samráði við hr. Sof. Thorkelsson og stjórnarnefnd Þjóðræknisfél. Ísl. með það fyrir augum að þetta ágæta boð geti komið að sem bestum notum.

Winnipeg, 26. febrúar 1942.

Á. P. Jóhannson
G. Levy
G. Árnason

Stutt af A. Magnússon og H. Hjaltalín. Það var samþykt og afgreitt til stjórnarnefndar.

Tillaga frá sr. Guðm. Árnason og Á. P. Jóhannson að framkvæmdanefnd sé falið að sjá um fundarbók og önnur ólokin þingstörf. Tillagan var samþykt.

Skrifari tilnefndi heiðursfélaga:

Jón J. Bíldfell
J. T. Thorson
Á. Eylands

Á. P. Jóhannson studdi tlilöguna.

Forseti þakkaði samvistir og samvinnu. Thorvaldur Beck lék á píanó og allir tóku undir og sungu "Eldgamla Ísafold" og "God Save the King".

Var 23. ársþingi Þjóðræknisfélagsins þar með lokið.

**Richard Beck, forseti**
**V. J. Eylands, ritari**

---

## LEIÐRÉTTINGAR

### við "Norður á Ross" í seinasta *Tímariti*, XXIII. ár, 1942

Bls. 43, annar dálkur, 9 l. o., á hvora hlið í Pacific að — les: á hvora hlið: Pacific að
Sama bls., sami dálkur, 14 l. o., rómantíska mál, les: rómsterka mál
Bls. 46, fyrri dálkur, 2 l. o., að nafninu til, hafa, les: að nafninu til, en hafa
Bls. 50, fyrri dálkur, 12 og 13 l. o., framliðinni, les: framliðinna
Bls. 54, fyrri dálkur, 20 og 21 l. n., slept úr né bætt úr né bætt við liðum, les: slept úr né bætt við liðum
Nokkur bil fallið úr milli málsgreina.

**Spanish Fork, Utah**
Mrs. I. M. Jameson
Miss Ellen Jameson

**St. Paul, Minn.**
Minnesota Historical Society

**Tacoma, Wash.**
Mrs. E. S. Guðmundsson
Mrs. Marshall E. Stevens

**Thief River Falls, Minn.**
Rev. S. S. Ólafsson

**Twenty Nine Palms, Cal.**
Jóhannes Sveinsson

**Toppenish, Wash.**
Indriði Benedictson

**Upham, N. Dak.**
E. J. Breiðfjörð
Mrs. George Freeman
Miss Bergthóra Einarsson

**Urbana, Ill.**
Próf. Sveinbjörn Johnson

**Virginia, Minn.**
Magnús Magnússon

**Washington, D. C.**
Mrs. Mekkin S. Perkin

5. DEILDIR

**"Báran"**
**Mountain, N. Dak.**

Charlie Anderson
Jóhannes Anderson
Kristinn Árman
Ásgrímur M. Ásgrímson
John Askdal
Próf. Richard Beck
Mrs. Richard Beck
Albert Bjarnason
Alli Bjarnason
Herman Bjarnason
B. T. Björnson
Hannes Björnson familía
Halldór Björnson
Helgi Björnson
Björn Eastman
F. M. Einarson
J. J. Einarson
Jón M. Einarson
Málmfríður G. Einarson
Einar G. Eirikson
J. J. Erlendson
Helgi Finnson
Mrs. Kristín Goodman
Th. Goodman
Mrs. Anna Grímson
Franklin Grímson
Guðm Grímson, dómari
H. B. Grímson
Dagbjartur Guðbjartson
John Gudman
B. S. Guðmundson
C. S. Guðmundson
Sigmundur Guðmundson

V. G. Guðmundson
G. T. Gunnarson
John Hannesson
T. J. Hannson
Ben Helgason
J. P. Hillman
Joe Hillman
Stone Hillman
W. G. Hillman
B. H. Hjálmarson
H. F. Hjaltalín
John Hjörtson
Chr. Indriðason
Stefán Indriðason
A. V. Johnson
Helgi Johnson
John H. Johnson
Oli G. Johnson
Nels Johnson
Sigurjón Johnson
Sylvia Johnson
Símon S. Johnson
Sveinn Johnson
Guðm. J. Jónasson
Magnús Jónasson
Steingrímur Jónsson
Kristján Kristjánsson
Kristján G. Kristjánsson
Thora Kristjánson
Helgi Laxdal
Sigmundur Laxdal
Sveinn Northfield

G. A. Leifur
Stefán Melsted
Haraldur Ólafson
J. K. Ólafson
S. F. Ólafson
B. F. Olgeirson
Bjarni Peturson
Joe Peterson
Óskar Peterson
Ragnar H. Ragnar
Helgi Reykdal
Séra H. Sigmar
W. M. Sigurðson
Fred Snowfield
Magnús Snowfield
J. S. Snydal
Björn Stefánson
Árni Thorfinnson
M. A. Thorfinnson
Hjalti B. Thorfinnson
Snorri M. Thorfinnson
Th. Thorfinnson
T. S. Thorfinnson
Sra N. S. Thorlákson
Gamalíel Thorleifson
Próf. Thomas Thorleifson
O. K. Thorsteinson
B. S. Thorvardson
T. M. Thorsteinson

**"Frón"**
**Winnipeg, Man.**

Mrs. S. Árnason
Jochum Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Dr. Kristján Austman
Mrs. Kristján Austman
Dr. Kristján J. Backman
Mrs. Kr. J. Backman
Mrs. Salóme Backman
Gunnar Baldvinsson
Arinbjörn S. Bardal
Mrs. Nanna Bauer
Jóh. Beck
Mrs. Vigfúsína Beck
S. Benjamínsson
Rafnkell Bergson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
Jón J. Bíldfell
Guðm. M. Bjarnason
H. Bjarnason
Mrs. Ingibj. Bjarnason
Jón Bjarnason
Ólafur Bjarnason
P. K. Bjarnason
Sigurður Bjarnason
Andrés J. Björnsson
Davíð Björnsson

Ívar Björnsson
Mrs. Lárus Björnsson
Mrs. A. I. Blöndal
Hjörtur Brandson
Magnús Brandson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Ingibjörg Butler
Mrs. Anna Cameron
Miss Friðmunda Christie
Sigurjón Christophersson
Hjálmur Daníelsson
Mrs. Hólmfr. Daníelsson
Mrs. G. Davidson
Mrs. Ragnh. Davidson
Mrs. S. W. Edinger
Árni G. Eggertsson, K.C.
Mrs. Guðlaug Eggertson
Jón Einarsson
Stefán Einarsson
Sigurður Einarsson
Mrs. Jóhanna Ellis
Leifur Ellison
Gunnar Erlendson
Mrs. Kr. Erlendson
Miss V. Eyjólfsson
Guðm. E. Eyford
Guttormur Finnbogason
Mrs. St. Finnbogason
Bjarni Finnsson
Mrs. L. E. Freeman
Mrs. G. Gillies
Mrs. A. Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Mrs. S. Gíslason
Ásgeir Guðjohnsen
Gunnar Guðmundson
Jón G. Gunnarsson
Mrs. Guðr. Agnes Gunnlaugsson
Miss Elin Hall
Miss Anna Halldórsson
Mrs. Anna Halldórsson
Halldór Halldórsson
Siggi Halldórsson
Mrs. Ásta Hallson
Páll Hallson
Karl Hansson
Stefán Hansson
Thorleifur Hansson
Einar Haralds
Mrs. Oddný Helgason
Finnbogi Hjálmarsson
Mrs. Jóhanna Hólm
Mrs. Guðm. Ingjaldson
Miss Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Ásmundur P. Jóhannson
Mrs. Ásm. P. Jóhannson
Gunnl. Jóhannson
Mrs. Gunnl. Jóhannson
Gunnl. F. Jóhannson
Mrs. Guðr. Jóhannson
Grettir Leo Jóhannson
K. W. Jóhannson
J. W. Jóhannson
Stefán Jóhannsson
Mrs. Ásdís Jóhannesson
Mrs. J. Jóhannesson
Alex Johnson
Mrs. Alex Johnson
Miss Anna Johnson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Björg Johnson
Einar P. Jónsson
Mrs. Einar P. Jónsson
Gísli Jónsson
Mrs. Guðrún Johnson
Mrs. Henrietta Johnson
Helgi Johnson
K. H. Johnson
Magnús Johnson
Oddfríður Johnson
Miss Sigrún Johnson
Simon Johnson
S. Johnson
Þorl. Johnson
Þórdís Johnson
Karl Jónasson
Snorri Jónasson
Mrs. Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Mrs. Kjartansson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðgerður Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson

Mrs. Jakob F. Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
S. B. Kristjánsson
H. V. Lárusson
Guðmann Levy
Mrs. Margrét Levy
Hannes J. Líndal
Mrs. Hannes J. Líndal
Jón Líndal
Mrs. Una Th. Líndal
Mrs. Svafa S. Líndal
W. J. Líndal, K.C.
Mrs. J. McAfee
Agnar Magnússon
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Guðmundur Magnússon
Jóhann Magnússon
Jón Magnússon
Magnús Magnússon
Magnús E. Magnússon
Ólafur Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Mrs. Ingunn Marteinsson
Loftur Mathews
Mrs. Guðr. Mýrman
Mrs. S. Nordal
J. H. Norman

Mrs. Sigurður Oddleifsson
Mrs. Ásta Oddson
Miss K. Oddson
Mrs. Sesselja Oddson
Sveinn Oddsson
Valgarður Oddsson
Mrs. Anna Ólafsson
Mrs. Áslaug Ólafsson
Jón Ólafsson
O. G. Ólafsson
Mrs. Th. Ólafsson
Tryggvi J. Oleson
Mrs. Vilborg Oliver
A. B. Olson
N. Ottenson
Mrs. Gróa Pálmason
Sveinn Pálmason
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Mrs. A. Paulson
Hannes Pétursson
Jóh. K. Pétursson
Mrs. Jóhanna Pétursson
Ólafur Pétursson
Séra Philip M. Pétursson
Mrs. Hólmfr. Pétursson
Miss Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur Jónas Pétursson
Thorvaldur Pétursson

Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóhann Sigmundsson
Mrs. Bárður Sigurðsson
Eiríkur H. Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Guðm. Sigurðsson
Mrs. Guðrún Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Mrs. Sigurþór Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurjónsson
Hreiðar Skaftfeld
Mrs. Thórður Sólmunds.
Mrs. Th. Sólmundson
Mrs. Steina Sommerville
Björn Stefánsson
Guðm. A. Stefánsson
Gunnbjörn Stefánsson
Ingi Stefánsson
Ragnar A. Stefánsson
Mrs. Rannveig K. Stefánsson
Guðm. Strandberg
Eyjólfur Sveinsson
Hans Sveinsson
Mrs. Hans Sveinsson
Mrs. Ovída Sveinsson
J. J. Swanson
Mrs. S. Sölvason

## Drs. H. R. & H. W. Tweed

Tannlæknar

406-8 Toronto General Trusts Bldg.
Cor. Portage Ave. og Smith St.

Sími 26 545 Winnipeg, Man.

Að hitta í Árborg, Man.

## SARGENT PHARMACY

Sargent og Toronto—Sími 23 455

og

## Harman's Drug Stores Limited

Portage og Sherbrook—Sími 34 561

Tvær búðir undir sömu forstöðu

K. G. Harman R. L. Harman

## D. G. ROSS

B.A., M.D., C.M.

Líkskoðunar-læknir innan Manitoba.
Skrifstofa á heimilinu við hornið á
CHRISTIE AVE. og EVELINE St.
SELKIRK, MAN.
Sími 28

## ROBERTS & WHYTE Ltd.

Lyfjabúðin í nágrenninu

Sargent og Sherbrook
Sími 27 057

Hin fullkomnasta lyfjabúða afgreiðsla

## ROBERT BLACK, M.D.

Augna- Eyrna- Nef- og Kverka-Læknir

Skrifstofutímar 2—5.30 e.h.
Skrifstofu sími 22 251

416 Medical Arts Bldg., Winnipeg

## Sherbrook Pharmacy

691 BROADWAY & SHERBROOK
Winnipeg, Man.

Phone 34 418 — We Deliver

## ARLINGTON PHARMACY

S. Bookman, Druggist

**Sargent & Arlington, Winnipeg**

Phone 35 550
PRESCRIPTION SPECIALISTS

## E. G. EIRIKSSON

LYFSALI

Elsta og þektasta lyfjabúðin í Dakota-bygðinni

CAVALIER, N. D.

## Dr. S. J. Jóhannesson

215 RUBY ST.

Talsími 30 877

Viðtalstími kl. 3—5 e.h.

## J. G. SNIDAL, L.G.S.

**Tannlæknir**



617 SOMERSET BLOCK

Winnipeg

Einar Thompson
Miss S. Thompson
Mrs. Th. Thorarinson
Eiríkur Thorbergsson
Guðm. Thordarson
Mrs. Þorgerður Thordarson
Páll Thorgrímsson
Fred Thorkelsson
Soffonías Thorkelsson
Mrs. Jóhanna Thorkelsson
Sigurjón Thorkelsson
Carl Thorláksson
Mrs. Hlaðg. L. Thorláksson
Mrs. Inga Thorláksson
Dr. P. H. T. Thorláksson
J. B. Thorleifsson
Bjarni Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Thorsteinsson
Mrs. S. Thorsteinsson
Mrs. Þ. Þ. Þorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Vigfús Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
Jónas Thorvardarson
Mrs. S. Vigfússon
J. J. Vopni

**"Iðunn"**

**Leslie, Sask.**

Mrs. Stefán Anderson
Helgi Árnason
Jón Árnason
Rósmundur Árnason
Vigfús Árnason
J. M. Austmann
Björn Axfjörð
Bergþór Björnsson
Skúli Björnsson
Bjarni Davidson
Kristján Erlendson
Andrés Eyjólfson
Gabríel Gabríelson
O. Gíslason
Páll Guðmundson
Þorsteinn Guðmundson
Mrs. T. Halldórsson
Jón Hallson
Stefán Helgason
Jón Jóhannesson
Jón Jóhannson
Jón Magnússon
Páll Magnússon
N. A. Narfason
Fred Nordal
S. G. Nordal
Ellert Ólafson
Jón Ólafson
Stefán Ólafson
Valdimar Pálson
Mrs. Anna Sigbjörnson
Sigbjörn Sigbjörnson
Jóhann Sigbjörnson
Grímur Sigurðson
H. G. Sigurðson
G. Stefánson
Guðmundur Stefánsson
H. Thorsteinson

**"Esjan"**

**Árborg, Man.**

Björn G. Anderson
Mrs. Gunnar Alexanderson
Miss Hildur Árnason
Einar Benjamínsson
Mrs. Jóhannes Bergman
Skafti Bergman
Árni Bjarnason
Eiríkur Bjarnason
Mrs. Sólveig Bjarnason
Björn Björnson
Mrs. Björn Bjarnason
Miss Jóna María Björnson
Dr. S. E. Björnson
Mrs. S. E. Björnson
T. O. Björnson
Mrs. Dísa Brandson

Tímóteus Böðvarson
Einar Einarson
G. O. Einarson
G. S. Einarson
Gunnar Einarson
K. O. Einarson
Mrs. Herdís Eiríksson
Elías Elíasson
Villi Eyjólfsson
Sigurður Finnson
Herman Fjeldsted
Kristm. M. S. Friðfinnson
Ingibjörg Gíslason
Magnús Gíslason
Thorarinn Gíslason
Elli Guðmundson
Guðm. S. Guðmundson
Jón Gunnarsson
Karitas Hansson
Gunnlaugur Hólm
Lúlli Hólm
E. G. Ingaldson
Böðvar H. Jakobson
Helgi B. Jakobson
Steini Jakobsson
Sigmundur Jóhannson
Valdi Jóhannesson
Mrs. Valdi Jóhannesson
Baldvin Jónsson
Mrs. Andrea Johnson
Mrs. Júlíana Johnson
Jónas J. Jónasson
Marteinn M. Jónasson
Árni Kristinsson
Thor Lifman
Grímur Magnússon
Guðmundur Magnússon
Mrs. Guðrún Magnússon
Mrs. Kristiana Magnússon
Gestur Oddleifsson
Helgi Pálsson
Haraldur Pálsson
Vilhelm Pálsson
Thorgrímur Pálsson
B. M. Paulson
Mrs. Aldís Pétursson
Franklin Peturson
Guðmundur Peturson
Jóhannes Pétursson
Mrs. Emma von Renesse
Svanberg Sigfússon
S. A. Sigurðson
Bjarni Sigvaldason
Björn I. Sigvaldason
Guðni Sigvaldason
V. Sigvaldason
Sigurður Stefánsson
Sveinn Sveinsson
Gunnar Sæmundson
Jóhann Sæmundson
Guðmundur Vigfússon
Þóra Vigfússon
Sigurður Vopnfjörð
Karl Vopni
Mrs. Guðrún Þorsteinsson
Sigurjón Þórðarson

**"Ísafold"**

**Riverton, Man.**

Heiðursfélagi

Guttormur J. Guttormsson

Félagar

Eysteinn Árnason
Anna H. Árnason
F. V. Benedictson
Kristín S. Benedictson
Árni Brandson (Hnausa)
Thorleifur Daníelson, (Hecla)
Gísli Einarson
Marinó Elíasson
Lára Eyjólfson
Albert Guðjónson (Hnausa)
Thorleifur Hallgrímson
Guðjón Jóhannesson
Magnús E. Johnson
Ólafur Jónasson (Árnes)
Hafsteinn Jónsson
Jón Jónsson

Sveinn Magnússon (Hnausa)
Séra Eyjólfur J. Melan
Ólafía Melan
Anna Lárusson
Bergþór Pálsson (Hecla)
Gestur Pálsson (Hecla)
Leifur Pálsson
Gunnlaugur Pálsson
Friðrik P. Sigurðsson (Geysir)
Gísli Sigmundson (Hnausa)
Guðbergur Sigurðsson
Mrs. G. Sigurðson
Jón Sigvaldason
Mrs. Margrét Thorbergson
Sveinn Thorvaldson, M.B.E.
Mrs. Kristín Thorvaldson
Sveinþór Thorvaldson
Gestur Vídal (Hnausa)

Börn og unglingar

Sólveig Anderson
Lillian Árnason
Anna Clair Benedictson
Raymond Benedictson
Anna Björnson
Helen Cairns
Marjorie Doll
Fern Hallsson
Elma Johnson
Lawrence Johnson
Mae Magnússon
Alice Magnússon
Jónas Melan
Elva Ólafson
Helgi Sigurðsson
Elin Sigurðsson
Margaret Sigvaldason
Sylvia Sigvaldason
Irene Thorvaldson
Violet Thorvaldson
Inga Vigfússon
Guðrún Vigfússon
Gloria Wood.

**"Ísland"**

**Brown, Man.**

Óli Björnsson
J. J. Gillis
Ragnar Gillis
Andy Gíslason
J. M. Gíslason
Lárus Gíslason
Th. J. Gíslason
Mrs. Th. J. Gíslason
Leonard Helgason
Jóhannes H. Húnfjörð
J. J. Húnfjörð
Halldór Johnson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Sæunn Kristjánsson
Óli Líndal

Mrs. I. F. Gíslason
I. M. Ólafsson
Sigurður Ólafsson
Mrs. Pálína Sigurðson
Miss Petrína Sigurðson
Jónatan Thómasson
Thomas Thomasson
Valdimar S. Thorlákson

**"Snæfell"**

**Churchbridge, Sask.**

Magnús Bjarnason
Séra S. S. Christopherson
Konráð Eyjólfsson
Jóhannes Einarsson
Jón Gíslason
Mrs. Gróa Gunnarsson
Ólafur Gunnarsson
G. F. Gíslason
Mrs. Kristín Hinriksson
Eyjólfur Hinriksson
Björn Hinriksson
C. G. Helgason
Kristján Johnson
Gísli J. Markússon
Harry Marvin
Kristín Oddson
Þorleifur Peterson
Einar Sigurðsson

**Deildin í Mikley, Man.**

Guðmundur Austfjörð
Sigurður Austfjörð
Finnur Bjarnason
Mrs. Rósa Doll
Kjartan Eggertson
Jóhannes Grímúlfsson
Skafit Grímúlfsson
Mrs. Steinunn Guðjónsson
Guðm. Halldórsson
Halldór Haldórsson
Ármann Jónasson
Mrs. Katrín Jónasson
Helgi Jones
Brynjólfur Jones
Mrs. Louise Jones
Valdimar Johnson
Sigurgeir Jónsson
Benedikt Kjartanson
Bergþór Pálsson
Mrs. Helen Pálsson
Þorsteinn Jens Pálsson
Mrs. Sigurveig Ingibj. Pálsson
Helgi W. Sigurgeirson
Mrs. H. W. Sigurgeirson
Mrs. Jóhanna Sigurgeirson
Jón Sigurgeirson
Steingrímur Sigurgeirson
Theodore Sigurgeirson
Jónas Stefánsson frá Kaldbak
Mrs. Jakobína Stefánsson
Miss Fríða Thordarson
Chris Tómasson
Mrs. Sigþóra Tómasson
Helgi G. Tómasson
Gunnar H. Tómasson
Mrs. Kristín Tómasson
Helgi G. Tómasson
Mrs. Helga Tómasson
Gústaf G. Williams
Mrs. G. Williams

**"Brúin"**

**Selkirk, Man.**

Jón Anderson
Bjarni Árnason
Mrs. Thora Austman
Miss Dóra Benson
Kristján Bessason
Þórður Bjarnason
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Mrs. Ásta Eiriksson
Mrs. Guðrún Finnson
Guðjón Friðriksson
Björn Gilbertson
Mrs. Brandur Guðbrandson
Kristinn Goodman
Páll Goodman
Mrs. Sigríður Goodman
Mrs. Ingveldur J. Henry
E. J. Hinriksson
Magnús Hjörleifson
Sigurður Indriðason
Jón Ingjaldson
Mrs. Guðrún Ísfeld
Miss Halldóra Jóhannesson
Olgeir Jóhannesson
Gestur Jóhannson
Ingi C. Jóhannson
Stefán Jóhannsson
Mrs. G. M. Johnson
Hinrik Johnson
Mrs. Sigurbjörg Johnson
Mrs. Vigdís Johnson
Klemens Jónasson
Tryggvi Jónasson
Einar Magnússon
Mrs. Emma Magnússon
Páll Magnússon
Mrs. Rakel Maxon
Mrs. Ingibjörg Oddson
Jón Ólafsson
Mrs. Kristín Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Sr. Sigurður Ólafsson
Mrs. Thora Oliver
Kristján Pálsson
Jóhann Pétursson
Árni Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Sveinn Skaftfeld
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Jón Skardal
Mrs. Guðrún Stefánsson
Mrs. S. G. Stefánsson
S. J. Stefánsson
Ágúst Sæmundsson
Oddur Sveinsson
Mrs. Ingibjörg Thordarson
Theodór Thordarson
Mrs. Björg Thorsteinsson
Th. S. Thorsteinsson
W. P. Thorsteinsson
Walter Walterson Sr.
Jón Vogen

**"Fjallkonan"**

**Wynyard, Sask.**

S. S. Anderson
Jón Arngrímsson
Þórður Ásgeirsson
H. J. Austfjörð
Hallgrímur Axdal
Mrs. Jóna Axdal
H. J. Bardal
Thórhallur Bardal
Gísli Benediktsson
Steini Bergman
B. Bjarnason
Mrs. Guðrún E. Björnsson
Sigga Björnsson
Kristinn Eyjólfsson
Jens Elíasson
Th. Gauti
Mrs. Th. Gauti
Gísli Gillis
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Valdimar Gíslason
Mrs. G. Goodman
G. O. Grímsson
C. H. Grímsson
Gísli Guðjónsson
A. Guðmundsson
G. F. Guðmundsson
Finnbogi Guðmundsson
Steinþór Gunnlaugsson
Ástvaldur S. Hall
Mrs. Andrés Helgason
Hósías Hósíasson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Mrs. Lilja Jóhannsson
Barney Johnson
Finnbogi Johnson
Sigurður Johnson
Valdi Johnson
Axel Jónasson
Magnús Jónasson
Mrs. Albina Jóelsson
Fríða Pálsson
M. J. Skagfell
Ólafur Stefánsson

**The Icelandic Society of New York**

**New York, U. S. A.**

E. Grettir Eggertson
Ólafur J. Ólafsson
Edward Frímannsson
George Ostlund
Jón Guðbrandsson
Garðar Gíslason
Ólafur Johnson
Gunnar Magnússon
Hannes Kjartansson
Mrs. Guðrún Camp
Jakob Gíslason
Sveinn Valfells
Bjarni G. Guðjónsson

**Sambandsdeildin**

**"The Icelandic Canadian Club"**

Capt. Einar Árnason
Mrs. E. Árnason
Miss Helga Árnason
Miss Ann Anderson
Mrs. Ena S. Anderson
Mr. J. O. Anderson
Mr. S. M. Backman
Mr. A. C. Bardal
Mrs. A. G. Bardal
Miss Steinunn Bjarnason
Mr. Valdimar Björnson
Mr. Gísli Borgford
Mrs. Ruby Couch
Mr. Paul Clemens
Mrs. P. Clemens
Mrs. Hjálmur Daníelson
Mr. Hjálmur Daníelson
Mr. Árni G. Eggertson
Mrs. A. G. Eggertson
Miss Elin Eggertson
Miss Guðrún Eggertson
Mr. S. H. Eggertson
Mr. Gunnar Erlendson
Miss Stefanía Eydal
Mr. G. Finnbogason
Mrs. G. Finnbogason
Mr. Thomas Finnbogason
Mrs. T. Finnbogason
Mr. K. G. Finnsson
Mrs. K. G. Finnsson
Mr. Sigfús Gillis

